# BRAGÐA-MÁGUS SAGA

## MEÐ TILHEYRANDI ÞÁTTUM.

---

SKRIFUÐ UPP EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

AF

**GUNNLAUGI ÞÓRÐARSYNI.**

---

KAUPMANNAHÖFN.

ÚTGEFANDI: PÁLL SVEINSSON.

PRENTUÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1858.

Saga þessi, er nú birtist í fyrsta skipti á prenti, er í handritunum ýmist kölluð Mágus saga, eða sagan af Mágus jarli[1]). Hún er prentuð eptir skinnbókinni nr. 152, er kölluð er A í útgáfunni, í 2. bl. broti, í bókasafni Árna Magnússonar á sívalaturni. Til samanburðar hafa verið við höfð þessi handrit.

a) í 2. bl. broti, nr. 187, á pappír, kallað B, og er þetta handrit afskript af 152, en víða nokkuð misskrifað;

b) í 4. bl. broti, pappírshandritin nr. 535, kallað C, og 590 A, kallað D, og eru þau næsta lík nr. 152.

Enn fremur hefur verið höfð hliðsjón af, a) skinnbókinni nr. 533, kölluð E, og b) pappírshandritinu nr. 536, hvortveggja í 4. bl. broti. Þessi handrit eru samkynja, en æði ólík nr. 152, því bæði er frásögnin nokkuð styttri og töluvert frábugðin, einkum framan til, en fyrirkomulagið á öllum þáttunum (af Lais, Hrólfi skuggafífli, Vilhjálmi og Geirarði) er hið sama sem í nr. 152. Eg vil geta þess, að eptir þessum handritum kemur t. a. m. Ermenga drottning siglandi einskipa að landi, þar sem

[1]) Um nafnið á þessari sögu hefur Árni Magnússon ritað á lausu blaði grein svo hljóðandi: „Mágus saga kallast í sumum sögu-registrum Máfus saga, í sumum Máus saga, í sumum Bragða-Máfus (omnia corrupte).“ Magus þýðir: fjölkynngismaðr, galdramaður, en hefur í framburðinum breytzt í Mágus.

konungurinn situr um Trevíris, og er hún kölluð Írungur jarl frá Írlandi. Hún gengur í lið með konunginum, og með hennar ráðum verður kastalinn unninn. Konungurinn gefur henni að launum kjörgripi sína hálfa við sig; svo tefla þau um þá, og vinnur hún alla gripina. Nóttina eptir býr hún sig til at sigla á burt. Konunginum gremst, að hann hafði miður í taflinu; hann er því snemma á fótum, og ætlar að veita jarlinum atgöngu. Hann sjer, að allt liðið er við skip niðri í burtbúningi, en eitt landtjald stendur nokkuð á landi upp. Honum verður reikað þangað, og sjer hann þar inni fríða mey, er hvílir á dúnbeðjum; hann gengr inn í tjaldið og býr með þessari konu, og þykist hafa hefnt sín á Írung jarli, því hann hugði að þessi kona mundi vera drottning jarlsins. Hann ferr kátur heim til herbúða sinna, en jarlinn siglir í friði á burt.

Þriðja kyns handrit af Mágus sögu er nr. 188, í 2. bl. broti. Það er nokkuð svipað 533 að frásögninni, en í það vantar alla þættina, og endar það þar sem Ubbi jarl er drepinn.

Öll þau handrit, sem hjer eru upp talin, ern í Árna Magnússonar bókasafni á sívalaturni í Kaupmannahöfn.

Um ritsháttinn á sögunni ber þess að geta, að farið hefur verið svo nærri ritshættinum á sjálfri skinnbókinni (152) sem unnt var, og er þess vegna nokkur ósamkvæmni í orðmyndunum og ritshætti ymsra orða.

*Skrifað í febrúar 1858.*

---

# MÁGUS SAGA[1]).

1. Svo hefir byrjat eitt æfintýr af einum frægum ok fjölmennum Frakklandskonungi: þat segja sumar bækr, at hann hafi heitit Játmundr, sumar nefna hann Júlíanó, er hann tók keisaratign; en mèr þikkir svo helzt til vísa sá titull, er af. æfi keisaranna er skrifaðr, at hann muni verit hafa sonarson Karlamagnús keisara, ok svo segja flestar bækr, at hann hafi Lódóvíkus[2]) heitit, sem hann hafði við ríkisstjórn tekit, ok hann hafi átt þrjá bræðr, er svo hètu: Pippín, ok þeirra faðir hafi heitit Hlöðverr, son Karlamagnús konungs í Franz; ok ef hann hefir svo heitit, þá hefir hann verit konungr í landinu. Svo segja bækr, at hann rèð fyrir Saxlandi. Því var hann ei svo vinsæll, sem ella mundi, at hann var ofmetnaðarmaðr svo mikill, at honum þótti engi til jafns komast við sik. Var hann svo mikill íþróttamaðr, at engi mátti við hann keppa, þeirra sem honum voru samtíða, ok hann lèk allar íþróttir með karlmennsku. Allra manna var hann vænstr; bæði var hann fimr ok sterkr, vel skapaðr á allan vöxt; manna var hann ákafastr ok ódæll, ef honum mislíkaði. Vandi hann svo sína ríkisstjórn, at allir þjónuðu honum með ótta ok aga, meir enn með ástúð eðr elsku. Öngvir treystust á hann at stríða, svo fór mikit orð af hans frama ok frækleik. Afl hafði hann svo mikit, at engum dugði við hann at keppa. Í þann tíma var mjök nýkomin kristni á Saxlandi, ok hèlt konungrinn kristiliga trú, ok

[1]) sbr. formálann. [2]) síðar ætíð: Hlöðverr.

allir hans menn. Sá maðr er nefndr til þessarrar sögu, er Sigurðr heitir, hann var frændi konungs; hann var góðgjarn, ok bœtti mikit um skaplyndi konungs; hann var mjök í ráðum með honum, ok líkaði þat flestum vel. Konungr[1]) frètti ei til þeirrar konu eða meyjar, at honum þœtti eigi of lágt sinni tign at fá með hjúskaparbandi. Þessi hinn voldugi konungr gerði eina dýra veizlu, kallandi marga göfga menn síns ríkis, gefandi þeim marga fáheyrða vist matar ok drykkjar, en herrann með mikilli kurteisi þeim skenkjandi með vænum hornum ok glæsiligum gullkerum. Hans tign ok boði þjónuðu allir, sem honum vel líkaði. Þessi herra ok allir hans menn sátu með mikilli gleði um alla höllina. Sigurðr frændi hans stóð fyrir framan borðit, ok hèlt á einu góðu keri af gulli gjört. Konungr kvaddi sèr hljóðs, ok mælti: hvar vitit þèr, Sigurðr frændi, jamágætan konung, eða hirð at höfðingligar haldi með slíkan prís, sem vær? Allir svara sem eins munni: sögðust eigi hafa sèt jamágætan konung, nè vænna lið, enn hann hefði. Sigurðr mælti: kvað sannast hit fornmælta, at „fátt væri svo ágætt, at ei finnist annat slíkt." Konungr mælti: nú þar sem þú vilt ei styðja ok sanna vorn sóma, þá skal ek með stríðu heimta af þèr framsögu þessa tvímælis, er þú gjörðir til vorrar sœmdar, hefi ek þá þrjá gripi í minni eign[2]), at öngvir munu aðrir slíkir finnast, þótt öll konungaríki kanni: þat er einn haukr, hestr ok sverð. Sigurðr kvað aðra gripi mega vel vera svo[3]) góða sem aðra, en lèzt þó ætla, at víða mundi kanna verða, ok líkara at ei væri slíkir gripir jafngóðir í eins konungs ríki. Konungr mælti: þú verðr skjótt at skýra fyrir oss konung þann, er fremri er með sinni tign, svo sem þú sagðir. Sigurðr mælti: þat hefi ek aldri mælt. Konungr mælti: þat skaltu talat hafa, ok finn þar til grein, svo framt sem þú vilt halda lífi

[1]) þannig C; A og B: því at hann. [2]) eigu, D. [3]) bætt við eptir D.

þínu ok sœmdum af oss. Sigurðr mælti: vel má ek finna til þess sannan útveg, hvat mèr þikkir mest vanta yðvart vald ok ríkdóm; finn ek fyrst til, at þú átt öngva drottningu, svo ríkisstjórn hafi með þèr; svo áttu öngvan getinn arfa eptir þinn dag, ok mundi þín rausn þikkja miklu meiri, ef þú fengir kvonfang við þitt hœfi, ok gætir með henni fræga syni til ríkisstjórnar eptir þinn dag. Konungr mælti: heyr til endima! Hvar mun þá konu fá í heiminum, at auka megi vorn sóma, eðr nokkut jafnræði sè mèr at eiga? Sigurðr segir: vant er þat at sjá, þótt þú fengir þá konu, er at þèr væri jafnkosta, at þó mætti þinn frami aukast. Konungr mælti: því at þú hefir þetta mál vakit, nefn til nokkra þá, er þèr þikkir líkast. Sigurðr mælti: um hefi ek nokkut hugsat, ef ek þyrfti hèr grein á at gjöra.

2. Sá konungr ræðr fyrir Miklagarði, er Húgon[1]) heitir; hann er vitr ok vinsæll, hann hefir nóga veraldarsælu; hann á sèr drottning eina, ok við henni 2 sonu ok dóttur eina, er heitir Ermenga; svo er af henni sagt, at engi mær nè kona muni finnast slík í öllu Grikklandi, síðan Elena en fagra var, er Girzkir[2]) ok Trójumenn börðust um; hún hefir numit allar kvennmannsdyggðir, er þenna heim má prýða; margir ágætir konungar hafa hennar beðit, ok hefir engi fengit; hennar brœðr 2 eru ungir ok mannvænligir; heitir annarr Hrólfr, en annarr Hálfdann, báðir vel siðugir. Konungr mælti: frètt hefi ek af Húgon konungi, ok þikki mèr ekki utan lítilræði ein allt er þeim til heyrir; en þó nú, at þú hefir þetta mál vakit, þá skaltu nú fara í Miklagarð þessarra minna eyrinda,

[1]) Í sumum handritum er hann kallaður Hrólfr, og látinn ráða fyrir Garðaríki, en synir hans heita Ásmundr og Sigurðr. Byrjun greinarinnar er þannig í A, B, C, D: þá rèð fyrir Miklagarði (sá D), er Húgon o. s. frv., en virðist vera afbökuð. [2]) Girkir, D, en leiðrjett með sömu hendi: Grikkir.

at biðja konungsdóttur mèr til handa. Sigurðr bað konung þessu ráða. Sem þessi dagr leið, en annarr kom, býr Sigurðr ferð sína með sœmiligum sendiboðum ok fríðu föruneyti; ok er Sigurðr var búinn, lyptir hann ferð sinni ok hans lagsmenn. Riðu þeir nú af Vernizuborg[1]) með fríðu föruneyti sem leið liggr til París, skilja þar eptir hesta sína, en sigla þaðan hœga byri, ok lètta eigi sinni ferð, fyrr en þeir koma við borg þá í Miklagarði, er Konstantínópólim heitir, þar sem atsetu hafði Húgon konungr. Sem þeir Sigurðr höfðu land tekit, ok Húgon konungr hafði spurn af, úr hverju landi þeir voru komnir, lèt hann kalla þá í höll til veizlu, er hann gerði þeim til metnaðar. Sem þeir sátu með prís ok gleði í höll konungsins, berr Sigurðr fram með fögrum flutningi þau eyrindi, er honum voru boðin. Ok er Húgon konungr varð víss, hverra eyrinda þeir fóru, tók hann því vel, ok lèzt vænta, at ei mundi ágætari konungr bjóðast dóttur sinni, enn þessi konungr, ok lèzt sjálfr þetta mál við hana tala mundu. Ok er þeir höfðu nokkrar nætr verit í konungs boði, gekk Sigurðr með honum til skemmu konungsdóttur. Ok er hún kenndi föður sinn, stóð hún upp með fagnaði móti honum, ok heilsaði honum blíðliga ok hans fylgd. Konungr mælti: mín kæra dóttir, hèr eru komnir á vorn fund sendimenn Saxakonungs þeirra eyrinda at biðja yðar honum til kvonar. Konungsdóttir mælti: spurn hefi ek af honum sanna, at hann er mikill ofstœkismaðr, ok þarf ekki þess at leita, því at ek veit, at honum þikkir sem til vor komi alllítit hjá sèr. Nú með því, faðir, at ek er skyld at hlíta þinni forsjá, þá vil ek gjöra þèr kunnigan minn vilja áðr, at mèr þikkir betra at fá hèr þann konung, er hann er miklu minni háttar, ok vili göra vora lund, því at konungr þessi er svo kappsfullr, at einn vill hann ráða, ok er þat ekki

[1]) þannig A, B, C; D og fleiri góð handrit: Verminzuborg.

samfœrt, stríð hans ok metnaðr minn; en þó annars kostar þikkjumst ek vita lund konungs þessa, at ósýnt er, faðir, at þú eigir lengi um kyrrt at sitja eðr í náðum sè yðvart ríki, ef þèr gjörit eigi hans vilja; ok er þat mín tillaga at afsvara ekki þessu máli, at fyrir þat fáir þú hörð áhlaup á þitt ríki ok manntjón af styrjöld þessa konungs, er hann mun gjöra, ef þú neikvæðir hans beizlu. Konungr svarar: sjá þikkjumst ek enda þessa máls, ef vèr gjörum ei eptir boði hans, þá þikki mèr mikil von, at fyrir þat höfum vèr oss í hættu ok vort ríki; eigi ólíkligt, at vèr verðum yfirkomnir af hans valdi, en þú verðir svo sem hertekin, ok er þèr þá hætta, hvat hann vill gera af þínu máli. Nú bið ek, at þèr gefit til þessa gott samþykki, ok munum vèr göra konungi stefnu til þessarrar veizlu, ef hann vill yðar fá sèr til drottningar, ok vænti ek, at vor virðing vaxi við þetta. Konungsdóttir bað föður sinn forsjá á hafa öllu því, sem hana varðaði. Gengr konungr nú heim til hallarinnar með fengin svör meyjarinnar. Síðan gerir Húgon konungr brèf undir sínu innsigli, er birtu ok fram báru fenginn vilja konungs í ákveðinn stefnudag. Síðan tekr Sigurðr orlof af konungi; stígr á skip ok stýrir heimleiðis með fengnu sínu eyrindi; kèmr nú heim í Saxland fyrir konung með sínu föruneyti. Konungr tók honum blíðliga, ok spyrr, hversu farizt hefði. Sigurðr lèt vel yfir, ok berr honum brèf þau, er sönnuðu hans eyrindi. Konungr tók því vel. Líðr nú svo, þar til er konungr ætlar at vitja meyjarmálanna. Býr sik nú ok alla sína lenda menn ok kurteisa klerka. Sem þessi sœmiligr búnaðr var dubbaðr til útreiðar eptir allri fýst ok vild, setr konungr upp sitt merki ok lyptir svo ferð sinni út af Vernizuborg[1]). Þessa útreið glöddu allir klerkar með fögrum söngum, leikarar með mörgum fásènum leikum, sumir með simfón, gígjur

[1]) þannig, D; Mexintíuborg, A; Meximíuborg, B, C.

ok salterím. Allr borgarlýðr lofaði frægð ok athœfi þessa hins drambláta herra. Ríðr konungr nú með þenna prís út af borginni; lètti eigi fyrr sinni ferð, enn hann kemr út at höfninni, þar sem Fenixbotnar heita. Þar lætr hann eptir alla sína hesta, en stígr þar á skip með öllu sínu föruneyti, ok siglir svo, at Grikklandseyjar liggja á stjórn, svo sem Krít ok Kípr, ok allar eyjar, er í hafinu liggja. En er upp lauk Patrexsundum, sigldi hann þau í gegnum, ok svo í Eystrasalt, lèttir ei fyrr sinni ferð, en hann kemr framan at Stólpasundum; þau sund verðr inn at sigla at þeirri borg, er fyrr nefndum vèr, sem Húgon konungr hèlt ríki. Þat var snemma dags, er þeir komu at sundinu. Konungr lèt fella segl á öllum skipum sínum; hann lèt setja upp á hverju skipi drekahöfuð, búin með rauðu gulli; þar með fylgdi hverju höfði gulllagðir svírar ok allir ennisspænir; síðan lèt hann upp setja gulli búna veðrvita, ok lèt reyra stengr ok allar höfuðbendur við gull; síðan lèt konungr þekja segl á skipi hverju með pell, guðvef ok silki framan á seglinu, er at landi horfði. Konungr bað hvern mann, sem honum fylgdi, at taka þann bezta búning, sem ætti, ok klæða sik með. Sem þetta var allt til reiðu, bað konungr vinda segl við húna á hverju skipi, ok hengja hvern rárarm[1]) við annan; bað þá svo sigla inn fyrir borgina. Sólin skein framan á skip þeirra, ok var því líkast til at jafna, fyrst er sá til hafs, sem logandi elding fœri, því at ekki skip skyldi fljótara fara annat heldr enn annat, ok lágu saman jaðrar á hverju segli, ok var því líkast af borginni til at sjá, sem einn gulligr vegr liði at landi hœgliga hrœrðr. Og svo sem varðmenn staðarins sá þenna fáheyrða atburð, blèsu þeir í lúðra.

3. Sem konungrinn skynjaði, at nokkur nýjung var komin í borgina, gengr hann í hinn hæsta turn at skynja

[1]) þannig D; leggja hverrar arm, A, B, C.

ok um sjást, hvat þessu mundi valda. Sem hann heyrði orð varðmanna, at logandi eldr fœri at borginni, bað hann kalla sèr dóttur sína til umráða, hvat þetta mundi tákna. Hvat hyggr þú þetta undr vera? Konungsdóttir mælti: faðir[1]) minn, angra[2]) ei hug þinn af þessi sýn, því at mèr lízt þetta vera utan allra ólíkinda. Konungrinn mælti: nú þá, dóttir, hvat gerir þú líkligt af þessu máli? Konungsdóttir mælti: þat er mín ætlan, at þetta sè frægilig sigling nokkurra stórra höfðingja, ok sè þetta ei með meirum ólíkindum. Konungr mælti: hvat hyggr þú, hverir afreksmenn sè, er svo fara með miklu drambi ok skarti? Konungsdóttir mælti: skyldi ek nokkurs til geta, at fyrir þessum skipum rèði Saxakonungr. Konungr mælti: þessa muntu rètt geta. Hvat er nú til ráða? Hversu skulum vèr við búast hans kvomu? Konungsdóttir mælti: svo sem þèr hafit framast föng á, ok er þó eigi víst, at þú getir hógvært hans ofstopa; hygg þú at því, herra, at ei sè minna verðr yðvarr viðbúningr, enn hans tilsigling; en vær munum fyrst ganga til skemmu vorrar, þar til er þèr sendit eptir oss. Konungr bað hana svo gjöra. Nú er allt seinna, enn segir. Konungr ok hans förneyti lendir við borgina; gengr á land með öllu sínu föruneyti, lætr setja sín landtjöld[3]); þau voru gjörð af pelli ok baldrskinn.

4. Nú er at segja frá Húgon konungi, at hann lèt taka alls konar dýr klæði ok mörg góð pell ok purpura; þau lèt hann öll bera á stræti borgarinnar þar sem konungr ok hans menn skyldu ganga. Síðan lèt hann skjaldsveina söðla skjóta hesta með gullsmeltum bitlum, er konungr skyldi heim ríða til hallarinnar. Hèr með sendir hann sína hœverska herramenn, at bjóða konungi til prýðiligrar veizlu, er hann mátti með veg honum veita. Þeir fóru ok fram báru síns herra boð; en konungi

[1]) bætt inn í eptir C; minn sæti faðir, D. [2]) bætt inn í eptir C, D. [3]) langtjöld, A, B.

fannst lítit til, ok fór þó at boði konungs til hallarinnar með öllu sínu föruneyti. Sem hann kom at borgarhliði, var þar fyrir Húgon konungr með mikit fjölmenni. Kvaddi hann konung, ok bað hann ganga í hall sína. Konungr stígr af baki fyrir hallardyrum. Þar mátti heyra marga fáheyrða gleði, því at ymdi öll höllin af hljóðfœrum. Húgon konungr leiddi sjálfr konunginn til hásætis, er hann hafði honum búa látit; þat var öndvegi á miðjan langbekk. Húgon konungr gekk um þvert gólf, ok skipaði annat öndvegi gagnvart. Síðan voru tekin drykkjuborð, ok kom inn margr drykkr ágætr með ýmsum sendingum fásènum. Ok er menn tóku at gleðjast, var konungr heldr fár. Húgon mælti til konungs: herra, segir hann, þèr erut komnir at mínu boði í vora hall ok yðvart föruneyti, því vildum vèr hafa blíðan yðvarn þokka til vor, ok hvat vèr megum gjöra yðr til sœmdar, þá skal þat til reiðu. Konungr mælti: Húgon konungr, mun ei hitt sannara, at þèr hyggit, at þessi vor ferð sè til einkis gjörð, utan at eta eðr drekka í yðru herbergi; en því at þetta höfum vèr nóg, þótt vèr sœkjum ei langa vegu á yðvarn fund; hefir þèr ok áðr verit kunnugt gjört vort eyrindi, ok þurfum vèr þar ei lengi eptir at sjá, ef þat kemr til einskis, ok hirðum vèr þá hvortki af yðr at þiggja mat nè drykk, ok má vera, at yðr þikki þat ei með minnum vandhœfum. Húgon segir: ei skulut þèr svo virða, at vèr viljum tálma yðar vilja, ok viljum vèr alla hluti, sem þèr vilit ok oss sómir. Síðan sendir konungr menn í skemmu til dóttur sinnar, ok biðr hana koma inn í sína hall. Sem hún hafði heyrt boð ok vilja föður síns, þá býst hún tiguliga, ok klæddist einum dýrasta kyrtli enna hvítustu skinna, með svo ágætum búnaði ok fásènum, at ei var annarr slíkr. Því næst klæddist hún gullofnu blíazi[1]), því er trautt fèkkst annat slíkt; þar yfir

[1]) þannig D; lilíazi, A, B; lilazi, C. Á miðaldar-lat.:

klæðir hún sik dýrum möttli, er ofinn var með miklum hagleik, settr með ágætum gimsteinum. Hold hennar var sem hin hvítasta lilja, þar er þat sá, ok svo rjóð í andliti, sem fögr rósa væri blandin í hvíta lilju. Sem hún var búin, varpaði hún[1]) af miklum ekka, ok mælti: þat veit sá guð, er ræðr ok stýrir öllu, at meir geri ek þat fyrir hlýðni sakir við föður minn, enn at minni fýst, at samnœgja konungi þessum, því mèr þikkir von, at þessi ofstopamaðr freisti vor með einhverjum þrengingum, áðr við endum okkr samskipti. Skemmumeyjar mæltu: frú, fest eigi hug þinn á slíkri ætlan, því at ei má vera meiri tign þessa heims, enn eiga konung fyrir bónda, ok geta við honum erfingja. Konungsdóttir mælti: hinn býðr mèr heldr í hug, at ek fái fyrr af honum áhyggju, enn sœmdarauka. Ok nú vil ek, at þèr gangit út, ok vil ek hèr ein eptir vera. Þær gengu út, sem þeim var boðit; en konungsdóttir tók til, ok þvó sèr í límvatni; síðan tók hún þá hvítustu hinnu, ok þandi um andlit sitt. Ok er hún hafði hana fest með límí, þá var hún svo föl, at allr litr sýndist úr hennar kinn. Síðan gengr hún til hallar. Ok sem hún var inn komin með sínum skemmumeyjum, birtist ok gladdist höllin ok þeir, er inni voru, ok kvöddu hana allir með blíðu, nema konungr; hann gaf sèr ekki at henni. Hún gaf ok öllum góða heilsan í móti. Ein hennar þerna bar silfrdisk á lófa sèr, ok þar á einn steiktan hana. Konungsdóttir gekk fyrir konung, ok kvaddi hann kurteisliga. Konungr tók vel kveðju hennar. Hún tók diskinn af meynni, ok mælti: hèr er einn hani, herra, er þèr skulut skipta með mèr ok þèr, feðr mínum ok tveimr brœðrum. En er konungr

bliaudus; á frakkn.: bliaut; sbr. skozka orðið „plaid", sem er nafn á dúk, er vafinn er um búkinn á ská frá hœgri öxlinni niðr undir vinstra handlegginn.

[1]) líklega er af afskrifaranum úrfellt: öndinni; andvarpaði, D.

heyrði þessi orð meyjarinnar, hitnar hann mikillar reiði[1]). Frú, segir hann, til annars fór ek heiman úr Saxlandi, enn þess, at skipta krásum sem steikarar. Frúin mælti: ekki bið ek, at þèr snídit þenna hana með knífi, heldr með virðrkvæmiligum vizkuorðum. Konungr mælti: hálsinn ok höfuðit skipti ek feðr þínum, því at hann er höfuð yðar allra; bræðrum þínum skipti ek vængjunum ok kroppinum, því at þeir eru nú fleygir ok fœrir hvert er þeir vilja; fótunum ok ganglærum skipti ek þèr, drottning, því at svo sem fœtr halda upp hananum[2]), svo skaltu ok vera stoð ok upphald brœðra þinna ok feðr þíns. „Sá er brytinn verstr, er sjálfan sik tælir": mér skipti ek bringunni af hananum, því at ek skal vera brjóst ok brynja yðar allra; eðr hversu þikkir þèr drottning? Vel, segir hún. Konungr mælti: gjalda skal ek þèr þetta, þó at síðar sè[3]). Hún segir: gjör þat, herra, með góðu hófi hèr í mót. Ok er morginn kom, ganga konungar á stefnu við sína ríkustu valdsmenn. Húgon mælti við konung: vèr viljum gjöra yðra beizlu um alla þá hluti, er þèr biðit, ok vèr höfum vald yfir, en yðvarr sómi má aukast. Konungr mælti: vel talar þú um vorar beizlur. Ek vil þèr þat kunnigt gjöra, at yðar dóttir lízt mèr ekki jafnfríð, sem sagt var; en hversu sem þat er, þá vil ek ekki haft hafa hingat þat eyrindi, at reikna rètti yfir borði yðar, ok vil ek drekka brullaup til dóttur þinnar, ok má svo verða, at ek fái henni nokkra grein eigi lèttari viðskiptis, enn hún fekk mèr í hanaskiptinu. Húgon mælti: herra, segir hann, gefit dóttur minni enga sök fyrir þat, þó hún vildi prófa yðvart lítilæti. Síðan lætr Húgon konungr stofna þat sterkasta festaröl, er nokkurn tíma hefir veitt verit, með margs kyns gleði ok prís, bæði með dýrum krásum ok alls konar góðum drykk. Var þetta brullaup

[1]) hitnar honum mikil reiði, D. [2]) knjánum, B. [3]) bætt inn í eptir C, D.

haldit með alls konar sóma. Sem konungr var kominn í sæng brúðarinnar, breiddi hann aðra blæju á sik, en aðra á hana, ok sváfu svo um nóttina. Konungsdóttir gaf sèr ekki at. Ok at liðinni veizlunni, ferr hverr heim, sæmdr virðuligum gjöfum. Var konungr harðla kátr, en jungfrúin nokkut fárri, ok þótti mönnum þat eptir siðvenju. Sem konungr hafði dvalizt í Miklagarði sem honum vel líkaði, býst hann burt til heimferðar með sínu föruneyti, ok var út leiddr mjök stórmannliga, því at hvortki skorti gull nè góða gripi. Siglir konungr nú af Miklagarði aptr til Patrexsunda, ok lèttir ei sinni ferð, fyrr enn hann kemr í Fenixbotna. Gengr þar af skipum, ok ríðr landveg upp í Saxland, þar til er hann kemr í Verniznborg[1]; gjörði allr borgarlýðr gleði ok fagnað móti honum. Sezt hann nú um kyrrt at ríki sínu, ok drottning með honum. Ekki átti hann samskipti við hana, ok liðu svo langir tímar.

5. Þat var eitt sinn, at konungi komu orðsendingar, at herra[2]) útlendr sè kominn í hans ríki. Konungr stofnar eina sterka hirðstefnu, kallandi sína ráðgjafa ok ríkismenn, ok hóf svo mál sitt: þèr munut heyrt hafa, at hèr er kominn einn útlendr maðr í vort ríki, ok þeir hafa um setzt eina vora borg, þá er Trevíris[3]) heitir; ok því at þat byrjar ei vorri tign, at af dragist vor föðurleifð, þá gjöri ek kunnigt, at vèr ætlum með vorn styrk hana aptr at vinna, ok þat sem með röngu hefir undan gengit, ok ætla ek í þessa ferð at velja hraustustu vora hirð, er vèr höfum föng á. Allir báðu hann fyrir sjá. Sem konungr hafði reiknat þat fríða lið í þessa ferð, vel búit at vopnum ok skipum, lætr konungr kalla drottningu á sinn fund. Nú skal launa þèr, drottning, þat er þú vildir, at ek væri krásari í Miklagarði; ek ætla at friða vort ríki, en þú skalt hafa landráð, meðan vèr erum í

[1]) Verminzborg, A, Verminzuborg, D. [2]) þannig A, B, C; herr, D. [3]) á latínu: Augusta Trevirorum; nú: Trier.

þessi ferð. Þat er hit fyrsta mitt álag, at þú skalt gera láta höll þá, at hún sè engu minni nè óhagligri, enn höll föður þíns, ok sè gert innan þriggja ára, því at þá ætlum vèr oss at vera aptr komnir; hér með skaltu fengit hafa þessa gripi, er at öngu sè verri, enn þeir er vèr höfum áðr: hestr, haukr ok sverð. Drottning mælti: þat mun yðr þikkja ólíkindi, at vèr munum þessu orka[1]), ok því munum vèr at þessu gefa öngan gaum. Konungr mælti: ei er endir enn þessa máls; þá er vèr komum heim í ríki vort, skaltu sýna mèr þann son, at ek sè svo sannr faðir, sem þú ert móðir, ok sè hann okkarr lögligr arfi; en ef þèr bregðit í nokkrum stað af þessu voru boði, þá skal ek þèr þat gjalda. Drottning mælti: hèr talar þú þá grein, er öngvan veg má vera, því at þú mátt þat vita, at engin kona má sú barn geta, er ósködd mær er; en ef þèr vilit þetta við oss stunda, þá má vel vera, at þetta fullgjörist. Konungr mælti: fyrir löngu hefði ek leitat til þess við þik, ef ek vilda eigi launa þèr þá háðung, er þú gjörðir oss; þikkir mèr vel, þótt þú kennir nokkut. Drottning mælti: eigi angra ek hug minn, þótt þú talir þat, sem ekki má vera. Eptir þat lyptir konungr ferð sinni. Skiljast þau drottning með öngri blíðu. Lèttir ei sinni ferð, fyrr enn hann kemr til Trevírisborgar, ok sezt þar um með sín landtjöld; en þeir sem hèldu, luktu aptr öll borgarhlið, ok bjuggust til varnar.

6. Nú er þar til at taka, at drottning sitr um kyrrt eptir bruttferð konungs; hugsar með sèr, at konungr muni þat allt efna, er hann hafði henni lofat. Hún stefnir nú þing fjölmennt. Síðan stendr hún upp, ok segir svo: kunnigt vil ek þat fyrir yðr gjöra, at konungr hefir skyldat mik til hús at láta gjöra, mikla höll ok vegliga, sjálfum honum til ísetu, ok þar til bið ek alla menn, þá sem þar kunnu til at leggja ráð ok styrk ok afla, svo at

[1]) bætt inn í eptir B, C, D.

vèr mættim fullgera beizlu konungs um þetta ráð. Allir tóku vel þessu máli, ok lètust gjöra vilja þetta ok annat, sem hún beiddi. Síðan lætr hún saman safna smiðum þeim, er hagastir fundust; sumir óku grjóti, en sumir telgdu ok skáru með undarligum hagleik; sumir gulllögðu í þá skurði, sem á voru. Þessi höll stóð á 12 pílárum, ok kumpásat allt í millum, ok lagt með tandrrauðu gulli; í sætit voru settir margir dýrir steinar, þeir sem gáfu nóga birti, þótt allt væri myrkt. Sigurðr frændi konungs bar við mál ok mundan eptir forsögn drottningar, svo at [þessi höll var í hvern stað[1]) meiri, enn sú er Húgon átti, ok at öllu meir vönduð bæði at smíðum ok tilföngum. En svo sem þessi smíð var á enda færð ok at öllu orkuð, stefnir drottning enn þing. Á þessu þingi þakkar drottning hverjum manni sitt starf ok stundan, er henni höfðu til þessa veitt. Ek vil yðr kunnigt gjöra, at ek vil skipa Sigurði stjórn ok umsjá ríkis þessa þar til er konungr kemr heim í land; en ek ætla mèr hèðan brutt, ok heim í Garðaríki[2]) til föður míns, því at ek sè, at þat er ekki samfært, metnaðr minn ok drambsemi konungs; hefir þetta gengit at getu minni, at mèr mundi þessi ráðahagr lítt til náða verða. Munut þèr ok heyrt hafa nokkut af þeim þrautum, sem konungr lagði fyrir mik, er hann fór í brutt. Nú með því at hann bauð mèr at gjöra þessa sömu hluti, sem ek má með engu móti orka, því at ek veit, at þat er í móti náttúruligu eðli, þótt ek hefði til þessa fulla ástundan at gjöra hans vilja um þetta mál, þá vil ek ei sitja friðlaus fyrir hans kappi ok ofsa í hans ríki, ok hætta svo á hans en greypiligu[3]) heit, ef vèr gjörðum eigi at hans boði.

7. Sem drottning lauk sinni ræðu, hörmuðu allir

[1]) frá [þannig D; hvern stað, A, B; hvern stað var sú, C. [2]) þannig A, B, C, D; sjá athugagr. bls. 3. [3]) greppiligu, A, B, líkl. rauglesið.

hennar bruttferð, ok þökkuðu henni marga góða hluti, er hún hafði við þá gjört, síðan hún kom heim í Saxland. Síðan lætr hún búa skip eitt skrautligt, ok lèt velja á þá alla, er henni þótti vitrastir. Eptir þat lyptir hún ferð sinni, ok lèttir ei fyrr enn hún kemr í Miklagarð á fund föður síns. Konungr fagnar henni vel, ok býðr henni með sèr at vera. Drottning tók þat með góðu. Ok er hún hafði þar litla hríð dvalizt, kallar hún föður sinn á stefnu við sik, ok tjáir honum öll viðskipti þeirra konungs: em ek svo komin á yðvarn fund, at ek vil þiggja af þèr, faðir. heil ráð með sönnum góðvilja, svo at ek haldi minni sœmd, svo yðvart ríki fengi ekki skaða af minni tiltekju. Konungr mælti: mín kæra dóttir, þú hefir úr miklum vanda at ráða, en mèr virðist svo augljóst, at konungr þessi láti eigi hefndalaust, ef þèr gjörit eigi hans boð; en[1]) gjarnan vil ek gjöra yðr beiðni, hvat sem eptir kemr; þikki mèr ok engi líkari, enn þú snúir þessum vanda í nokkura[2]) hógværi við konung. Drottning mælti: þat er mikil von, at ek leggja mik í þá hættu, áðr þetta mál lyktast, at óvíst er, at vèr haldim lífinu. Nú vil ek, faðir, attú fáir mèr 60 riddara með fríðum búningi, en ek vil senda heim í Saxland þat föruneyti, er oss fylgdi hingat; mun ek þat orð láta á fljóta fyrir þeim, at ek muni setjast hèr um kyrrt, ok þeir segi svo heim í Saxland. Konungr segir svo skyldu fara, sem hún beiddi. Sem þeir voru heim farnir í Saxland, er drottningu höfðu þangat fylgt, lætr hún búa þá 60 riddara, sem Húgon konungr fèkk henni til fylgdar. Konungr mælti: hvert ætlit þèr yðra ferð at stofna? Hún segir: öngu vil ek yðr leyna því, sem mínum trúnaði varðar; ek ætla með þetta föruneyti til móts við konung, ok vita hversu fara vor viðskipti, en því hefi ek skipt um föruneyti, at kon-

[1]) þannig D; því at svo, A, B, C. [2]) nokkurn, A, B; nokkura hógði, D.

ungr mun síðr kæra á þetta lið, enn sína menn, er hèr kvomu með mèr. Sem þetta fólk var albúit at vopnum ok hestum, lætr drottning búa sèr riddarabúning, ok tekr skjöld ok sverð með herklæðum, ok ríðr með sínu förnneyti af staðnum á einni nótt óvitanda öllum borgarlýð, utan feðr sínum. Þau riðu meira um nætr enn daga, vestr með hafinu, þar til er þau koma til Fenixbotna. Ok er þeir koma þar, var[1]) eptir spurt, hverr foringi væri liðs þessa. Þeir sögðu, at hann hèt Hirtingr[2]), ok var jarl einn utan úr Alimannía[3]). Þá var spurt, hvert jarl ætlaði at ríða. Þeir segja, at hann ætlaði norðr í[4]) Saxland, ok halda stríð mikit með konungi, ok styrkja svo ríki hans. Hvar sem hann kom, fannst mörgum mikit um fegrð hans, ok hvar sem ríkiskonur litu hann, gáðu þær ekki annars, enn[5]) horfa á hann. Hann var blíðr í máli ok breytinn í öllum atvikum við konurnar; brá þeim ok mjök við, er hann gladdi þær með fögrum orðum; en hvern tíma, er þær hugðu, at hann mundi þeirra fýst fremja, veik hann því af með kýmiligum keskilátum[6]), því at hann vissi, at hann hafði ei svo mætan grip at miðla þeim, sem þeirra hugr beiddi. Ríðr hann nú leið sína, ok lèttir eigi fyrr enn hann kemr norðr í Saxland, ok hefir spurn, at Hlöðverr konungr er kominn til Trevírisborgar með sinn herskap, hafði lengi um setit borgina, ok gat ekki unnit. Konungr sá, er í staðnum var, var kynjaðr af Danmörk; ekki er greint nafn hans eðr ætt, hvat þat hefir verit, en þat segist af honum, at hann hafi verit hinn mesti hreystimaðr, ok kunni mikla list herskapar.

8. Nú er at segja frá Hirtingi jarli, at hann ríðr norðr yfir þann fjallgarð, er liggr milli ríkis Frakka-

---

[1]) bætt inn í eptir D; er C. [2]) Þannig A, B, C; Híringr, D; í ýmsum öðrum handritum Íringr. [3]) ýms handrit: Albanía. [4]) bætt inn í eptir, B, D; á, C. [5]) bætt inn í eptir B, C, D. [6]) kátligum keskimálum, D.

konungs ok Saxlands. Ríðr hann leið sína, unst hann kemr í nánd Trevírisborg. Sem hann átti eigi lengra, enn eina eyktarreið til borgarinnar, stígr hann af hestum, ok allt hans lið; kallar þá alla á stefnu, ok hóf svo sína ræðu: yðr má kunnigt vera, hversu vèr fórum af Miklagarði ór herbergi föður míns, ok þann trúnað, sem þèr hafit oss sýnt; vil ek gjarna yðr þat góðu launa, er vèr komum úr þessi ferð, ok sem oss hefir varðat yðvarn trúnað hèr til, þá varðar oss nú öllu framar, at nú liggr í hættu líf vort allra, ef nokkut rýfst í þessi trú. Nú at því at ek vil yðr kunnigt gjöra, at þessi mín ferð er mest gjörð til þess, ef ek gæti sigrat ok yfir unnit þær þrautir, er konungr, bóndi minn, lagði mèr á hyggju, þá er vit skildum. Veit ek, ef hann verðr þessa víss, at þar fyrir týni ek lífinu, ok þeir er mèr fylgja. þeir lètust fúsir gera, sem hún bauð. Jarl mælti: svo er mèr flutt, at þessi borg standi undir einni fjallshlíð, ok sè þangat illt atreiðar sökum stórgrýtis ok vatna þeirra, er veitt eru í borgina, en ek vil þó þaðan fyrst at ríða, ef vèr komumst í orlofi í borgina; er mèr ok sagt, at konungr hafi sett sínar herbúðir á þá fagra eng, er fram er frá borginni, ok hann geymi jafnmjök at um atreið til borgarinnar. Sem jarlinn lauk ræðu sinni, stíga þeir á sína hesta, ok ríða með fjallshlíðinni, ok svo at því borgarhliði, er þangat vissi, ok síðr var almannavegr. Ok er jarl var kominn at borgarhliði, beiddi hann varðmenn lofs til innreiðar. þeir sögðu, at hvortki hann nè nokkurr annarr útlendr maðr ókunnr kœmi innanborgar, utan konungs atkvæði, þess er staðinn hefði at halda. Jarl lèzt vilja bjóða honum sóma ok sína fylgd í móti atsókn konungs, ok bað þá gera konunginn vísan sinnar beizlu. Varðmenn gjörðu sem hann beiddi. Ok at fengnu orlofi konungsins, ríðr jarl í staðinn með sínu liði. Gengr fyrir konung, ok kveðr hann kurteisliga, því at hann kunni

þat harðla vel. Konungrinn tók vel kveðju hans, ok spurði hvat manna hann væri, eðr hvert hann ætlaði. Jarl svarar: ek er svo kominn á yðvarn fund, sem væntandi af yðr sœmdar, ok halda með þèr stríð í móti þessum konungi, er á borg yðra stríðir; en ek heiti Hirtingr, ok held eitt jarldœmi af Grikkjakonungi þar sem Alimannía heitir; ok því at hann hafði þat sama spurt ok sanna frètt af því, at þessi sami konungr hafði fyrirsmát ok landflœmda drottninguna, dóttur hans, er hann hafði áðr gefit í hans vald með hjúskaparbandi, sendi Grikkjakonungr mik til styrks með yðr með þessum röskum riddurum, er mèr fylgja, at ek með yðrum styrk mætti hefna þessarrar sneypu, er hann hefir gjört við hans einkadóttur. Þar til sendi hann yðr marga dýrgripi í gulli ok gersimum. Lætr nú fram bera virðuligar gjafir af hendi Grikkjakonungs; talaði hann þar með svo snjöllum orðum, at konungr ok allir hans ráðgjafar trúðu þat skjallaust. Kom hann sèr svo í kærleika við borgarmenn, at þeim þótti ei ráð ráðit, nema jarls atkvæði væri. Liðu nú svo margir dagar, at jarl gaf þau ráð til, at konungr fèkk sneypu í orðum af borgarmönnum, en manntjón í atsókn. Jarl svaf einn við sína menn í því herbergi, er honum var fengit. Ok ei miklu síðar tekr jarl þyngd svo mikla, at hann mátti eigi sitja á stefnu til ráðagjörðar með borgarmönnum, ok ei út koma af því herbergi, sem hann var vanr at sofa í. Við þat urðu staðarmenn óglaðir, því at öll ráð hafði jarl snúit þeim í hag; hafði hann ok líkliga um talat, at hann mundi hafa ráðit til einvígis við konung af hendi borgarmanna. En meðan jarl var í þessum krankleika, hugsar hann sèr útveg, hversu hann skyldi sèr úr þessum vanda víkja, svo hann fengi sinn vilja. Þat var eina nótt, at jarl kallaði til sín einn riddara, er hann bezt trúði, ok mælti: ek vil senda þik í herbúðir konungs Saxa leyniliga. Hann svarar: hversu má ek þat gera?

Kalla til mín þrjá riddara hljóðliga, þá er ek trúi vel. Hann gjörði svo. Síðan stóð jarl upp úr sænginni, ok gengu þeir fimm saman út á borgarvegginn. Síðan taka þeir einn vandlaup, ok láta þann riddara síga niðr fyrir borgarvegginn. Nú munum vèr hèr bíða, meðan þú gengr í[1]) herbúðir konungs. Riddarinn mælti: hvat skal ek þangat? Jarl mælti: þú skalt finna Hrólf, son Húgons, ok seg honum svo, at drottning Ermenga vill hitta hann einn saman hèr við borgina, ok sel honum þetta gull, er ek hefi á hendi, ok mun hann þá trúa þínu eyrindi; far þú sem hljóðligast, svo at ei fái aðrir vissu af þinni ferð. Riddarinn mælti: eigi kenni ek ráð til þess, at ek nái eins manns máli í svo miklum mannfjölda. Jarl mælti: þú skalt ei bera vopn nè klæði í þessa ferð, heldr skaltu vera í línklæðum, ok yfir utan einn möttul, berleggjaðr ok skó á fótum, sem þú hafir af sæng gengit; láttu vörð vísa þèr til sængr, þar sem einn maðr liggi í milli þín ok hans, ok er þèr þá sjálfrátt at ná máli hans. Sendimaðr ferr nú, ok hagar svo öllu, sem hún kenndi ráð til, ok kom aptr skjótt undir borgina, ok Hrólfr með honum; varð þar fagnafundr með þeim. Hún tók þá til orða: ek vil, bróðir, attú komir því áleiðis, at konungr komi þegar á morgun snemma hingat undir borgina; vilda ek eiga tal við hann, ok láttu sem þú vitir ekki, hvaðan ek er, því at ek veit, ef hann verðr víss vorrar hingatkomu, at þar fyrir týnum vèr lífinu ok vorir menn, ef hann náir oss; lát sem þú hafir áðr sèt oss úvart[2]), svo konung gruni síðr vort eyrindi, at vèr hafim þau áðr fyrir yðr tèt; beri ok nokkut svo vorri ræðu, at konungr vili vorn fund hafa, þá vil ek yðvart fylgi hafa at mèr til konungs. Eptir þetta fór Hrólfr til herbúða, ok lèt sem hann hefði ekki spurt. Ok sem dagrinn kom, stendr

[1]) bætt inn í eptir B, C, D. [2]) þannig, C; vart, A, B; lát sem þú áðr hafir sèt oss sem vort eðli er til, D.

Hrólfr upp, ok ríðr at sjást um til borgarinnar, ok víkr skjótliga aptr til landtjalds konungs. Sem konungr sá hann, spurði konungr: því erut þèr svo snemma á hesti, eðr kunnit þèr at segja mèr tíðindi? Hrólfr hneigði konungi, ok mælti: engi kunnum vèr tíðindi at segja, en þó bar fyrir oss nýjung nokkra í morgin árla; svo sem vèr vorum klæddir, vopnaðir ok á hest komnir, riðum vèr at skemmta oss, ok við eitt hlið borgarinnar litum vèr í einum turn borgarinnar var ein jungfrú svo fríð, at slík mun engi fœðast hingat á Norðrlönd, og sýndist mèr þó sem hún mundi angruð af harmi. Konungr mælti: er hún fegri, enn Ermenga systir þín? Hrólfr mælti: herra, jafna slíku ekki saman; langt berr sjá yfir hennar fríðleik. Ek beiddi hana viðrmælis, en hún spurði, hverrar stèttar maðr ek væri. Ok svo sem ek greindi fyrir henni vora ætt ok atferð, bað hún mik hafa náðir, ok lèzt ekki vilja mœða sik til þess at tala við þá, er öngva höfðu ríkisstjórn: viljum vèr ok öngum gjöra kunnugan vorn vanda, utan sjálfum konungi, sakir þess, at hann á at bjóða yfir alla konunga ok valdsmenn fyrir hèðan Jórsalahaf. Konungr mælti: lát taka minn hvíta hest enn góða með öllum sínum búnaði, ok vil ek ríða undir borgina ok skynja atferð ok siðu hennar. Sem konungr var klæddr ok albúinn, stígr hann á sinn hest, ok ríðr at tilvísan Hrólfs við nokkra sveina at því borgarhliði, er til fjalls vissi; þat var rammliga læst. Hann kallar á varðmenn, at konungr var sjálfr kominn, ok vill tala við þá hina fríðu frú, er Hrólfr hafði honum af sagt. Ok sem henni komu orð konungsins, gengr hún ok tveir sveinar með henni í þann turn, er yfir hliðinu var. Ekki hirðum vèr at tína hvert hennar athœfi, fríðleik nè framburð orða eðr klæðaumbúning eðr aðra kurteisi. Ok sem konungr leit hana, hitnaði með honum fagnaðr hjartans ok fýst líkamans, ef hann mætti fá hana

í sitt vald. Sem hún leit konung, kvaddi hún hann með þessum orðum: sá guð, er styrkr er ok máttr allra rèttlátra, styði yðvart ríki. Konungr tók vel kveðju hennar. Frúin mælti: vèr erum svo komnar í yðra augsýn sem harmandi vor tilfelli, væntandi at yðr nokkurrar hugganar. Konungr mælti: jungfrú, hvat tilfelli angrar þik? Gjör oss þar á skjóta vissu, því at vèr erum skyldugir yðr at styrkja í þessarri eymd; hvert er nafn yðvart, eðr hvert er þitt kyn? Frúin mælti: ek em ein konungsdóttir utan af Frigía af borg þeirri, er Sobríe heitir, komin hèr sem hertekin af þeim jarli, er Hirtingr heitir; hans ríki er Alimannía. Hann er kominn í þenna stað með sínum riddarum; hefir hann á mèr svo sterk varðhöld, at ek má eigi flytja mín eyrindi utan orlof hans; hann hefir mik ok játat í vald þessa hins ómilda konungs, er yðr hefir rænt yðrum erfðaeignum, ok er þat þvers í móti mínum vilja. Nú fyrir mildi þess guðs, er öllum skepnum stýrir, bið ek þik at koma mèr úr þessum óvinahöndum, svo ek mætti komast aptr í ríki þat, sem faðir minn sitr í. Síðan veik hún skjótliga úr turninum, ok aptr í borgina. Sem konungr hafði heyrt hennar orð með svo sterkum[1]) bœnarstað, fylldist hann upp mikillar áhyggju, því at fyrir hvervetna[2]) fram vildi hann fá hennar í sitt vald. Konungr kallar á varðmenn, ok biðr þá tjá jarli, at hann vill eiga tal með hann. Ok ei miklu síðar kemr jarl með sínum riddurum út á borgina; hann hafði alvæpni ok allir hans menn. Jarl hafði luktan hjálm á höfði, svo at ei sá andlit hans; hann kvaddi konung virðuliga. Konungr tók því vel, ok spurði: ertu þann sami jarl utan af Alimannía, er heldr stríð oss í móti? Jarl svarar: ek er sá jarl, er utan er kominn af[3]) Girkjaveldi. Konungr mælti: villt þèr upp gefa í

[1]) bætt inn í eptir D. [2]) í staðinn fyrir þessi tvö orð, sem *tekin eru eptir D, hafa hinar:* hvorttveggja. [3]) *bætt inn í eptir* D; úr, C.

vort vald þá jungfrú, er þèr tókut með röngu út í Frigía? Jarl mælti: eigi er þat rangt, herra, þó hverr sýni sína hreysti, ok þat sem hann vinnr af sínum mannskap, þat kallast ei með röngu unnit; en vilìt þèr gjalda í mót þessi mey þá útlausn, er oss líkar, sem fyrir aðrar vænar meyjar? Konungr mælti: gef mèr skýr andsvör, til hvers er þèr vilìt af oss mæla í mót þessarri frú. Jarl mælti: þessi mær má ei seljast sem herteknar ambáttir eðr aðrir mangsmenn[1]), sakir þess, at faðir hennar er voldugr konungr; enn ef þèr girnist, at þessi mey komi í yðvart vald, þá tökum vèr fyrir hana öngva útlausn, utan þá hina mætustu þrjá kostgripi, er vèr kjósum af yðvarri eigu, en hvorki tökum vèr fyrir hana gull nè silfr; viljum vèr allt í hendi oss hafa þat, er þèr leysit út meyna; mun ok engi mey finnast slík fyrir hèðan Jórsalahaf at viti ok vænleik. Konungr mælti: hvat máttu hafa svo mikla vissu af vorum kostgripum, at víst sè, attú kjósir þat af vorri eigu, at meiri mæti sè at, enn gull eðr góð klæði, ef engi gerir þèr kunnigt, hvat vèr viljum sízt laust láta. Jarl mælti: ei kýs ek þá gripi, er aðrir kjósa fyrir mína hönd; skulut þèr þat með sönnu mega sanna, at þetta kjör skal ek eigi eiga undir nokkurs tungurótum annarra, ok þegar kjósa, áðr þèr farit hèðan undan borginni; en ef þèr vilìt ei þetta, þá fáit þèr aldri frúna svo[2]) lengi sem þú lifir. Konungr mælti við Hrólf: hvat leggr[3]) þú til þessa máls? Hrólfr mælti: herra, þèr vitit gjörst hvat yðr býr undir at girnast eina útlenda mey, þótt hún sè fríð, at hafa fyrir þat í hættu þá gripi yðra, at óvíst er, at aðra fái slíka, þó at víða kanni veröldina[4]). Konungr mælti: spakliga liggja orð jarls, þar sem hann

[1]) Þannig allar; í D stendur út á spássíunni: corrige [ɔ: leiðrèttu!]: mansmenn. [2]) bætt inn í eptir B, C, D. [3]) bætt inn í eptir B, C. [4]) C; kanni (þ. e. kunni?) veröldina at kanna, A, B.

er ungr ok ekki af barnsaldri kominn; af[1]) því er ek hyggr, þá mun hann ekki náttúrubragð til hafa at kjósa þá gripi, sem ek vildi sízt úti láta. Hrólfr mælti: þat legg ek til ráðs, ef þeir gripir verða kosnir af jarli, er þèr vilìt sízt láta, attú skilìr þat til, attú vilìr aptr leysa hálfa gripina með tveimr gullhringum, ok at jarl tefli við þik síðan um gripina, ok þikki mèr þá mikil von, at hann hafi ekki við þèr í tafli, ok eigir þú þá gripi þína sem áðr. Þat þótti konungi þjóðráð, ok mælti til jarls: þèr erut skyldir voru boði at hlýða; en þá gripi, sem þú kýss, viljum vèr hafa þá hálfa, ok leysa með tveimr gullhringum; skulum vit tefla þrjú töfl um gripina, hvorr okkar eiga skal. Jarl mælti: skilja þikkjumst ek, at þú munt ekki jafna okkar í millum, því at ek kann lítinn hátt á tafli, en þèr munut því þetta bjóða, at þèr munut vísir í þikkjast, at þèr fáit þá bæði frúna ok gripina; en hversu sem þat ferr, þá skal ek til þessa hætta. Konungr mælti: hvat er þat nú í vorri eign, er þú vilt helzt kjósa? Jarl mælti: ekki vil ek rekast til yðvarra herbúða; ek kýs í lausn fyrir þessa frú þann hvíta hest, er þèr sitìt á; annan grip kýs ek hauk þann, er þèr hafit á yðvarri hendi; þriðja grip kýs ek sverð þat, er hangir yðr á linda, ok vil ek þessa gripi alla taka í mína varðveizlu áðr enn vèr takim at tefla. Konungr mælti: þótt þú hefðir kunnat skyn á allri vorri eign, þá hefir þú þá gripi kjörit, er vèr vildum sízt láta; en hversu sem þat er, þá skulu standa öll okkar ummæli. Stígr konungr af hestinum, ok skal Hrólfr fara með þessum gripum í borgina, er frúin sitr, ok taka þar við valdi frúarinnar. Jarl mælti: þú Hrólfr skalt fara með þessa gripi til frúarinnar; bað búa hana sem kurteisligast, því at ek vil hana svo af hendi selja, sem konungsbarni hýðr. Konungr lætr taka eitt ágætt tafl, er hann átti. Taka þeir þá

[1]) þannig allar; venjulegra er: at.

til at tefla, ok varð þetta tafl mjök langt, en svo lýkr þeirra í millum, at konungr fèkk hróksmát. Jarl mælti: unnit hefi ek gripina, ok hirði ek eigi lengr at tefla. Konungr mælti: tefla skulum vit annat tafl. Þeir tefldu nú annat, ok er þat miklu skemmra, ok fèkk konungr peðsmát. Jarl mælti: lítit traust megi þèr hafa á taflinu, ok á ek nú gripina; þikki mèr þat nú reynt, attú fáist ekki við mik at tefla. Nú vil ek heldr, attú eigir einn gripina, ok teflum vit eigi lengr, því at ek vil eigi angra hug þinn. Konungr mælti: hyggst þú þá eiga vald á mèr? Skulum vit tefla öll töfl, sem mælt var. Jarl mælti: eigi mun þat ok þurfa at spara at gera þik sem hrakligastan[1]) í mátinu. Við þat illmæli varð konungr reiðr, svo hann gáði ekki at taflinu; gekk þetta tafl skemmst af, ok fèkk konungr fretstertumát. Spratt jarl snart á fætr, ok hafði sik inn í borgina. Konungr varð mjök reiðr jarli, ok vildi fyrir hvetvetna fá aptr þá gripi, er jarl af honum tefldi. Jarl lætr nú aptr lúka öll borgarhliðin; síðan gengr hann í turninn, er yfir hliðinu var[2]), ok mælti: svo erum vèr vanir at leika ofstopamenn; nú höfum vèr gabbat af yðr þá þrjá hluti, er at öngvir munu finnast aðrir slíkir í Saxlandi, eðr þótt víðara leiti; höfum vèr ok þann mann í voru valdi, er einn er fremstr af þínum mönnum, en frúin eigi því heldr í þínu valdi, enn áðr; skaltu ok at keyptu komast, áðr þú fáir hana. Konungr mælti: ekki þarftu at hælast, þó attú rjúfir trú þína, ok má vera, at þetta verði þèr goldit af oss, þó at síðar sè. Skiljast þeir fyrst at sinni. Ferr konungr til herbúða, ok unir illa sinni ferð, en hugsar, hversu hann skuli rètta sinn hlut.

9. Nú er at segja frá því, at jarl talar við Hrólf bróður sinn, ok spyrr: hvat er nú til ráðs? Hversu skal ek því fram koma at fá vilja konungs, ok vita, ef vèr

[1]) þannig D; hrakhæstan, A, B, C. [2]) bætt inn í eptir B, D.

komum fram þeirri þraut, er honum mun þikkja ólíkligt at verða megi? Hrólfr svarar: þat er mitt ráð, attú fáir hèðan orlof af konungi þeim, er borgina hefir at halda, ok vil ek þá freista, ef ek megi saman koma fundi ykkrum konungs. Frúinni þikkir þetta ráð. Ok þegar morginn kemr, biðr jarl alla sína menn taka vopn sín ok hesta; Hrólfr var í för með þeim. Jarl lèt[1]) leiða sik til hallar; ok sem hann er kominn fyrir konung, kvaddi hann konunginn, hneigði honum ok mælti: minn herra, ek er kominn á yðvarn fund svo sem biðjandi orlofs til heimferðar mèr ok mínum mönnum, sakir þeirrar þyngdar, er vèr höfum haft nú um langan tíma, sem þèr vitit, at vèr höfum ekki unnit yðr nokkur hreystiverk, ok vèr höfum eigi mátt sitja stefnur með yðr. Konungr mælti: gjarna viljum vèr fyrir yðvarn vilja gjöra, at þú leitir í þann stað, sem þú mættir fá bót þinnar heilsu; hafit þèr verit hèr með oss sem vitr höfðingi ok hallkvæmr í ráðum, en ekki vitum vèr, hvert traust hafa má á yðrum riddaraskap. Jarl mælti: krankleiki minn hefir því ollat. Ríðr jarl nú ut af borginni við sitt föruneyti. Hann hafði látit gjöra lykla, er at gengu þeim lokum, er borgin var lukt með. Ok er hann hefir riðit tvær mílur[2]), koma þeir í eitt þorp, ok taka þar gisting. Ok er kvelda tók[3]), kallar jarl á tal alla sína menn, ok mælti: þèr erut samvitandi mínar ráðagjörðir, ok vèr fáum eigi leystan vorn vanda, utan með návistu konungs sjálfs. Nú vil ek fara með Hrólfi bróður mínum á fund konungs, en ek vil, at þèr allir bíðit mín í þessu þorpi um þrjár nætr eða fjórar, en ek vil prófa á meðan, hversu fara með okkr konungi samskipti. Þeir báðu hana ráða eina. Eptir þetta ferr hún af herklæðum, ok býr sik eptir sínum vana svo sem voldugri frú heyrði. Ok er hún er búin, gefr hún þeim

[1]) bætt inn í eptir B, D; bað, C. [2]) þannig D; tvennar (A, tveimr, B) mílum, A, B. [3]) bætt inn í eptir C, D; kveld var, B.

góða heilsan, ok ríðr brutt með Hrólfi bróður sínum á fund konungs. Svo sem mjök tók at kvelda, koma þau til herbúða, ok at því tjaldi, sem konungrinn var inni, fullr af áhyggju. Stígr Hrólfr af hestinum, en tekr af baki frúna, ok leiðir hana inn í tjaldit fyrir konung, ok kveðr hún hann harðla vel. Sem konungrinn vissi, at Hrólfr var aptr kominn, ok sú hin fríða mær, er hann til lysti, sprettr hann skjótt á fætr, ok leggr hendr um háls henni, ok vill kyssa hana. Jungfrúin tók hendi sinni fyrir munn sèr, ok mælti með sárum gráti: minn góði herra, gerit fyrir krapt guðs þess, er þèr trúit á, ok tak mik eigi með girndarhönd, því at langr tími hefir verit síðan vèr vorum teknar út úr míns föður húsi, ok erum vèr enn ósaurgaðar af öllum karlmannligum girndum; berum vèr fullt traust á, at vèr mundum með sönnum góðvilja koma í yðra umsjá, því at vèr vitum, at margr fær þrá fyrir litla stundarfýst. Konungr mælti: frú, gjör þik eigi hryggva, því allir skulu þèr þjóna, utan allar hertekningar, heldr sem samvitandi vora leyniliga hluti ok samtenging, alla lysting girndarinnar. Jungfrúin mælti: hættú, ok tala ei svo mikinn hègóma, því at mèr er flutt, at þèr sèt púsaðir við eina fríða konungsdóttur. Konungr mælti: get þess at engu frú, því at vor samþykki eru þau ein við hana, at vèr megum vorum vilja víkja á hverja leið, er oss líkar; er hún ok ekki svo fríð eðr fögr, sem vorri tign hœfir. Setti ek fyrir hana þær þrautir, at hún mun seint leysa eða aldri; sögðum vit í sundr öllu voru sambandi, ef hún orkaði ei þessum þrautum, ok fyrir þat skal hún sitt líf láta með hæðiligum dauðdaga. Jungfrúin mælti: svo lízt mèr yðvart mál, ef svo er, sem þèr tjáit mèr, at þeirri, sem þú setr í hennar stað, sè fenginn vísari vandi af yðr, enn sœmd, ef þèr gjörit svo við drottningu yðra, ok sè hún þó saklaus af yðr. Konungr mælti: fest eigi hug þinn á því, at hún hafi eigi fullnóga sök til okkars skiln-

aðar; má ek segja þèr til sanna grein, því at í fyrsta tíma, er vèr komum í ríki föður hennar, setti hún oss þar til háðungar at parta í sundr krásum þeim, er fram komu, ok fyrir þat viljum vèr ekki samnœgja[1]) við hana. Frúin mælti: ekki sè ek á þat, at þat sè nóg sök ykkars skilnaðar, ok gjarna vilda ek önga raun gjöra drottningu í minni framferð. Konungr mælti: þú ert komin í mitt vald svo sem leyst af herleiðing með dýru verði, er vèr gáfum fyrir yðra útlausn, ok því áttu alla hluti eptir mínu boði at gjöra; skalt þú ok vita ok við kennast, at vor herralig tign kallar þik ei til ónýtra hluta, svo sem firsmá yðvart athœfi, heldr köllum vèr þik til veraldligrar tignar, sem fremst er í heiminum, því at vèr viljum fá yðar til drottningar, ok lít á með sönnu, hver fremri tign er, enn eiga konung sjálfan at bónda, ok geta við honum sonu. Frúin mælti: vitum vèr, at öngvan mátt höfum vèr í móti yðru valdi, en þann einn sóma sýnit þèr þeirri frú, er þèr hafit áðr í yðru valdi, at þat letr oss samskipta við þik; en þó nú, þar sem komit er voru máli, þá er mikil von, at vèr verðum þinn vilja at gjöra. En ef mikit bragð kann at koma í yðvart blíðlæti, þá viljum vèr hafa at geyma þann sjóð, er þèr berit á linda, ok þar með yðvart ríkisgull. Konungr mælti: gjarna viljum vèr þetta gjöra fyrir þína beiðni, en þar í mót viljum vèr þína blíðu í okkrum samskiptum. Frúin lèzt ætla, at þat mundi þá líkast af at gjöra, er svo var komit. Var frúin á því sama kveldi leidd til sængr konungsins; sýndi hún á sèr hryggð með gráti, þar til er konungrinn miðlaði henni þau mæti, er hana lysti, þá fannst ei grátr nè gleðispell í hennar viðbragði. Þat er sagt, at þrjár nætr rekkti konungr með þessarri frú. Ok er þær voru liðnar, ríðr konungr undir borgina með sínu liði, ok festi atsókn allan þann dag til nætr, ok gat ekki at gjört. Kemr til

[1]) samveggja, B; samvægja, D.

sinna herbúða svo sem mjök var kveldat, ok verðr skjótt víss, at sú jungfrú, er hann hafði ást við lagt, kemr honum ekki í augsýn. Síðan lætr hann kalla ok kanna allar herbúðir, ok finnst hún hvergi. Við hennar brutthvarf verðr hann mjök hryggr, svo at hann gáði eigi at sitja stefnur til ráðagjörðar, ok enga atsókn við borgarmenn, svo varð hann dapr af þessum harmi. Látum hann nú bera sinn harm, en tölum nokkut um bruttferð frúarinnar.

10. Nú er at segja frá því, at þenna aptan svo sem dimma tók, ok áðr konungr kœmi í sínar herbúðir, kemr Hrólfr heim því liði, er með honum hafði út riðit. Hrólfr gengr leyniliga at landtjaldi því, er konungr átti. Sem frúin leit hann þar kominn, mælti hún: ek bið þik svo til hjálpa, bróðir minn, at ek komist áðr brutt úr þessum mikla her, því at ek hirði eigi, þótt konungr beri áhyggju fyrir mína bruttferð. Hrólfr mælti: þú skalt klæðast öllum mínum búningi; þar með skulum vèr fá þèr einn vopnhest, er þú skalt ríða; þar með skal ek fá þèr einn skjaldsvein, er þèr skal fylgja til þinna fèlaga; síðan verðr þú at snúa á þín ráð, sem þèr líkar. Frúin þakkaði honum þetta ráð með fögrum orðum. Ok er mærin var herklædd ok búin, ríðr hún við einn svein út af herbúðum. Svo sem konungr var heim kominn, ok sem þeirra háreysti var sem mest, gaf enginn at því gaum, hvar sem tveir menn riðu í slíkum mannfjölda, ok ferr frúin leið sína, þar til er hún finnr sitt föruneyti, ok verða allir henni fegnir. Frúin bað þá taka vopn sín ok hesta. Þeir gjöra sem hún beiðir, ok ríða þessa nótt út af þorpinu. Ok er þau koma vart at þeim fjallgarði, er út er frá Trentudali, biðr frúin þá af stíga sínum hestum; hún biðr þá niðr setjast, ok vil ek tala við yðr vor eyrindi. Þeir gjörðu sem hún beiddi. Hún tók þá svo til máls: öllum þeim mönnum, sem verit hafa hjá oss í þessi ferð eptir boði föður míns, vil ek þakka yðr fríða

fylgd ok fagrt eptirlæti ok allan þann trúnað, er þèr hafit gjört til vor. Nú með því at þèr vitit, hvat undir bjó þessi vorri ferð í hingatkvomu, ok þat ek megi nú orka nokkru af þeim þrautum, er bóndi minn lagði fyrir mik, þá vil ek nú venda heim í Saxland, ok vita hversu okkar samskipti endast, en ek vil senda yðr aptr til Miklagarðs. Þeir sögðu, at þat sem annat skyldu þeir gjöra sem hún vildi. Eptir þat prýðir hún þá alla sœmiligum gjöfum, ok skiljast með sönnum góðvilja. Lètta þeir eigi sinni ferð, fyrr enn þeir koma á fund Húgons konungs, ok segja honum allt af sínum ferðum, hvar þá var komit efni drottningar. En Húgon verðr glaðr við þetta, ok þótti góð von á, at drottning mundi ent geta sína þraut.

11. Frá því er at segja, er drottning snýr norðr aptr heim í Saxland með nokkra sveina, ok gengr engi frètt af hennar ferð, fyrr enn hún kemr í Vernizuborg[1]). Hennar heimkvomu urðu allir glaðir, þeir er í voru borginni. Vildi hún öngum manni kunnigt gjöra, hvar hún hefði verit, meðan hún var í bruttu. Tekr hún til ríkisstjórnar, ok lèt sem ekki hefði hún at hafzt. Ok ei miklu síðar finnst þat með drottningu, at líkindi þikkja henni til getnaðartíma; undrar þat engi maðr, at konungr hafi til þess verðskyldat. Drottning hafði hinn sama umbúnað á sinni ásjónu, sem fyrr. Ok er þeir tímar fylldust, er von var, fœddi hún eitt fagrt sveinbarn; þat var til kirkju fœrt ok eptir guðs setningi skírt. Var þessi sveinn Karl nefndr. Drottningin fœddi hann upp með mikilli vandvirkt í sínu húsi, þó með nokkurri leynd; vildi hún at lítit orð fœri af þessum sveini, at henni þótti mikil von [ at hèr mundi stilling þurfa við, ef hlýða skyldi[2]). Drottning gengr nú til hallar þeirrar, er hún hafði gjöra látit, ok finnst henni enn svo, at henni þikkir nokkut

[1]) Verminzuborg, D. [2]) frá [ D; ef hlýða skyldi stilling þessa sveins, A, B, C, er virðist vera rangt.

vangert eptir hennar vilja. Á miðju gólfi hallarinnar lætr hún gjöra konungdómssæti; þat lætr hún grafa með undarligum hagleik; þar lætr hún setja þá 12 gimsteina, er gáfu nóga birti af sèr um alla höllina, þótt áðr væri myrkt af nótt. Enginn þóttist þvílíkt smíði sèt hafa. Sem þat var algjört, settist hún um kyrrt.

12. Nú er í annan stað at segja frá konungi, at hann berr þungar áhyggjur fyrir brutthvarf þeirrar fríðu frú, er hann hafði fulla ást við lagt. Hrólfr kemr til at gleðja hann, ok mælti: þetta er ókonungligt athœfi at þrá svo eptir einni mey, at þar fyrir fari stjórnlaust allt þetta herlið, er þèr hafit, ok er þat ráðligra at freista, ef vèr fáim nokkut at gjört, ok vinna borgina, ok má vera, at þessi frú sè aptr komin til jarls í borgina, því at ek náði henni utan hans vilja. Konungr mælti: gjarna vildi ek, at þar til gæfir þú nokkut ráð, at vèr komum því áleiðis. Hrólfr mælti: ek vil yðr kunnigt gjöra, at þá er ek fèkk vald á þessarri frú, at hún fèkk mèr at geyma lykla, sem mik grunar at gangi at því sama borgarhliði, sem vèr riðum at. Konungr mælti: væri svo vel, at þetta væri satt, þá skulum vèr eyða borg þessa. Hrólfr mælti: þat er nú mitt ráð, at þèr herklæðit allt yðvart föruneyti, ok farit svo í kveld undir borgina, en ek vil vita, ef ek kann at koma upp borgarhliðinu. Konungr lèzt þat gjarna vilja. Sem konungr var búinn ok allt hans lið, fara þeir til borgarinnar. Voru þá varðmenn heim gengnir. Ok er Hrólfr kemr at borgarhliðinu, berr hann at þá lykla, er frúin fèkk honum, ok með þeim vèlum, sem hún hafði til kennt, komust þeir í borgina. þeir slá upp herópi miklu. Sem konungr sá, er í borginni var, verðr varr þessa ófriðar, grípr hann til vopna ok allir hans menn; ok sakir þess, at konungr kom þeim mjök á óvart, þá varð lítil viðtaka. Fèll þar konungrinn með öllu sínu liði, en konungr hafði sigr. Sem þessi borg var unnin at

mönnum, lèt konungr víða brjóta veggi borgarinnar, ok hvert hús, þat er í var borginni. Hann leitar þessarrar jungfrú í hvern stað, ok víða utanborgar, en hún finnst hvergi. Hèr fyrir berr konungr miklar áhyggjur. Ok eptir fenginn þenna sigr, vendir hann heimleiðis, ok lèttir ei sinni ferð, fyrr enn hann kemr í Vernizuborg, þar sem hans atseta var; gerir fyrir nokkra smásveina at boða hans heimkvomu. Sem drottningin frèttir þetta, lætr hún búa eina sterka veizlu mót honum af hinum beztum föngum. Sem konungr reið í borgina með öllu sínu föruneyti, lèt drottningin leika marga fásèna gamanleika, svo at hvortki áðr nè síðan höfðu menn sèt nè sagnir af heyrt eða fengit, at nokkurr konungr hafi svo prísaðr verit, því at náliga þaut ok umdi öll borgin af alls konar hljóðfœrum ok strengleikum. Drottning við allar sínar vildar meyjar[1]) stóð út í garðinum fyrir hallinni, sýnandi af sèr fulla blíðu. Ok er konungr stígr af sínum hesti, gjörði drottningin, sem útlendr siðr er til, ok vildi taka við merki konungs, er hann var úr herferð kominn, ok heilsaði hún á hann með blíðum orðum; en konungr tók henni fáliga ok mælti: frú, segir hann, aðra þjónustu verðit þèr fyrr at gera, enn höndla vort merki, því at þèr var annat fyrr boðit. Drottning mælti, ok brosti at: herra, segir hún, kann ek nú keski yðvarri, ok gefum vèr engan gaum at ónýtum orðum. Konungr mælti þá heldr stutt: vel er, frú, ef yðr verðr at því. Drottning mælti: enga hryggð berum vèr fyrir þat. Konungr gekk með öllum sínum mönnum í þá ena nýju höll, ok leiddi Sigurðr hann til hásætis, sem honum var búit. Settist hann niðr, ok litaðist um ok mælti: af höndum mun drottning þikkjast hafa leyst höllina. Svo er víst, segir Sigurðr, ok svo mun yðr þikkja. Konungr mælti: lítit gef ek mèr at slíku, er oss þikkir engu máli varða. Sem konungr hafði af sofit

[1]) bætt inn í eptir B; konur D.

nóttina, lætr hann kalla til sín drottningu. Sem hún kom, kvaddi hún konung blíðliga: herra, segir hún, hvert er nú yðvart eyrindi? Konungr mælti: þèr munut muna, frú, þá er vèr riðum út af vorri borg at friða vort ríki, hvat vèr buðum yðr undir skyldri hlýðni at hafa orkat vorum ríkdóm. Drottning mælti: herra, þèr megit sjá, at vèr höfum látit gjöra, sem þèr báðut, þá höll, er nú sitit þèr í; en aðrar yðrar beizlur höfum vèr lagt öngvan hug á[1]), því at vèr sáum, at [þèr vorut ei geymandi[2]). Konungr mælti: ek sver þess við þann guð, er öllum hlutum stýrir, ef þèr orkit ei því, sem vèr buðum yðr, at þar fyrir skulit þèr taka sáran bana ok miklar pínur. Nú bjóðum vèr þèr í annat sinn, at þèr sýnit oss allt þetta fullt ok fram komit áðr sól gengr í ægi þenna dag. Frúin mælti: öngva sök gefum vèr yðr á þessu bernsku tali; en nú er enn, sem fyrr, ef þèr vilit getnað af oss hyggja eðr heimta yðru ríki til eflingar, þá viljum vèr gjarna leggja þar til vora viljanliga fýst með blíðum viðskiptum, at allr yðvarr sómi megi fullgjörast. Konungr mælti: heyr til firrna! ef þú hyggr oss lètta af þèr þessum vanda, ok hyggst at gabba vort atkvæði. Drottning mælti: „ei skal lengi lítils biðja", ok fá þó ei; en þat sem vèr megum orka af yðvarri beizlu, þat skulum vèr skjótt til reiðu láta; síðan munut þèr verða ráða því, sem vèr fáum ei orkat. Snèri drottning þá út af höllinni ok þar til, sem þeir gripir voru, er hún ætlaði at tjá konungi. Ok ei miklu síðar kemr hún inn í höllina, ok hefir á hendi einn fríðan hauk; ok þegar sem haukrinn leit konung, flýgr hann frá[3]) drottningu, ok settist á hönd konungi, því at fullgjörla kenndi þar hvorr annan. Drottning mælti: herra, segir hún, ei skal bæði, at vèr orkum litlu af yðvarri beizlu, enda láta þat ei skjótt til reiðu; þessi haukr er at

[1]) bætt inn í eptir C, D. [2]) frá [ þær voru ei geymandi, D.
[3]) bætt inn í eptir B, C, D.

öngu verri, enn sá, er þèr áttut. Konungr mælti: miklu er fugl þessi verri, en ekki kalls gjörum vèr af slíku. Drottning mælti: [til hefi ek koma látit[1]) þat, sem ek hefi orkat af yðru álagi; nú eigit þèr at ráða orði á um vort efni, eða hvern þèr vilit vorn gjöra hlut. Konungr mælti: frjáls hefir þú gang allt til aptans, hverja lausn þú mátt sýna þessarra álaga; en þá er þessi dagr er úti, þá höfum vèr svarit yðra pínu, svo framt sem þú sýnir ei vort álag til enda. Drottning mælti: nú munum vèr líta, at yðvart ofbeldi dœmir rangliga yfir voru máli myskunarlaust í alla staði; skulum vèr ok tjá öllum góðum mönnum vora ástundan til yðar án allri dvöl. Síðan gengr hún í þat herbergi, sem sonr hennar var varðveittr. Hún býr hann forkunnliga vel at klæðum, síðan strýkr hún höfuð hans, ok leggr eitt ágætt skarband[2]) at höfði honum; þat var ofit með gulli ok með mikilli list gert; síðan setr hún sveininn á þann hvíta hest, ok þar með gyrðir hún hann því góða sverði. Sem hún hefir þetta gjört, kallar hún með sèr einn skósvein konungs, ok biðr hann taka taum hestsins, ok leiða inn undir þessum sveini; ek mun styðja hann, svo hann falli ekki af baki, því at hann er ungr, ok kann ei at ríða. Sveinninn gjörir sem drottning bauð. Ok er þau komu í höllina fyrir konung, tók drottning sveininn af hestinum; hún tók sverðit, ok fèkk konungi ok mælti: hèr er annarr gripr, ok eru þessir eigi verri, enn þeir, er þèr áttut. Konungr mælti; gjörla kenni ek, at þetta eru vorir gripir, en ekki kjörum vèr um. Drottning tekr sveininn, ok mælti: herra, segir hún, yðr man þikkja óvænliga við koma af vorri álfu, fyrir því at ek er móðir sveinsins, ok er hann okkarr lögarfi. Konungr varð við þessi orð svo reiðr, at hann hratt drottningu frá sèr svo hart, at hún fèll á gólfit, ok mælti: far af voru

[1]) frá [ D; koma (kenna, A, B) hefi ek látit, A, B, C.
[2]) þannig D; skerband, A, B, C, rangt.

húsi, ok fyrirsmá ei svo vora tign, at þenna þærlss on kennir þú oss, þar er þetta mun á tvennu leika, at þú munir þenna svein hafa þèr getit viðr þræl eðr þorpara, ella hefir þú lagizt undir Hirting jarl, ok þegit af honum þessa gripi. Drottning stóð upp, ok varð harðla reið ok mælti: þat veit guð sá, er á himnum sitr, at þú hègómar á mik. Hún gengr skjótt út af hallinni ok til sinnar skemmu, ok klæðir sik með öllum þeim dýra búningi, er hún hafði haft, þá er hún fann konung við Trevírisborg; hún leysti sitt fagra hár úr dreglum, ok lèt þat hanga á axlir sèr bæði fyrir ok á bak; ok þá er þetta fagra hár fèll niðr með skínandum flèttingum á bæði hennar brjóst, tók hún þá hinnu frá andliti sèr, er hún hafði áðr borit, ok síðan þó hún í björtu klari[1] sína ásjónu; var hún þá sem fyrr bæði rjóð ok klár í kinnum, svo at engi fannst önnur slík. Síðan setti hún á sitt höfuð yfir þá fagra lokka, er hún hafði, einn höfuðbúning harðla dýran, settan með mörgum dýrum steinum. Síðan lagði hún yfir sik einn dýran möttul. Eptir þat gengr hún í konungshall. Var hún nú at öllu svo búin, sem þá er hún var í herbúðum konungs. Ok sem hún er inn komin, ok konungr leit hana, spratt hann upp í móti henni með miklum fagnaði, kyssti hana ok mælti: með hverjum atburðum komtu hingat á vorn fund; höfum vèr borit mikinn hugarekka síðan þèr hurfut af vorum herbúðum; skulum vèr nú ganga yðr at eiga, sem vèr hètum yðr, en fyrirláta þá lítils háttar konu, er hèr til hefir áðr setit í voru ríki, því at þat er allt of lágt vorri tign at eiga samskipti við hana oss til nokkurs getnaðar. Jungfrúin mælti: herra, tala ei slíka hluti, at þèr munit fyrirláta yðra púsu, ok þar sem mèr hefir svo flutt verit, at þit eigit saman einn fagran son. Konungr mælti: hætt frú, ok tala ekki til vor slíkt gabb, því at vel má ek þat segja yðr, upp á

[1]) eða klári; klarri, A.

þær þrjár nætr, er vit vorum saman ok hún lá í einni sæng ok ek, höfðu vit engi samskipti, þau er til hjúskapar heyrði, ok hún er fullkomin mær af mínum tilverka. Jungfrúin mælti: eigi vil ek gjöra þessarri frú svo mikla raun; má ok svo vera, at þótt vèr hættum til yðr at eiga, at slíka raun gjörðir þú til vor; mundum vèr þá illa una þessu gjaforði. Nú, mín frú, því talit þèr svo, þar sem þèr megit muna, at þat var ei hálf stund þeirrar fyrstu nætr, er þèr komut í vora sæng, at vèr máttum við kennast, at vit vorum með náttúrligu eðli okkrar návistar, ok þó at þèr kennit oss nokkurn getnað, þá mætti þat vel, sakir tíma ok annarrar vorrar tilgerðar. Frúin brosti þá ok mælti: rètt segi þèr ok rèttiliga; en nú vildi ek sjá þá frú, er áðr hefir verit í yðru valdi, ok taka hennar orðlof til okkarrar samvistu. Konungr mælti: frú. segir hann, þess þurfit þèr ei, en vel megit þèr sjá ok tala við hana, ok mun yðr svo virðast, sem ek hefi yðr flutt. Konungr lætr fara eptir henni til skemmu sinnar; ok ei miklu síðar komu þeir aptr ok sögðu, at þeir fundu hvergi drottningu. Konungr mælti: þessi kona mun hafa fordjarfat alla oss ok sína framferð, ok mun hafa hræzt vora ógn, ok þar með sáran dauða, er vèr hètum henni, fyrir þá lygð ok hrópan, er hún kenndi oss at syni þann þrælsson, er hún hefir hèr upp fœtt; þikki mèr ok mikil líkindi, at aldri síðan komi hún í vora augsýn, ef hún má ráða. Jungfrúin mælti: góðan hlut mun drottning yðr ætla þann tíma, er þèr fáit sanna vissu til hennar framferða, ok hverja ástundan hún hefir til borit at gjöra yðvarn vilja; en hèr má mart til bera, af því, herra, at yðr þikki eigi jafnlystiligr okkarr samgangr, sem nú takit þèr auðveldliga. Konungr mælti: mín frú, hvat má þar til greina bera, at þessi vor fýst megi eigi fram ganga. Frúin mælti: ef ek gjöri yðr kunnigt nafn vort, feðr ok brœðra, þá má vera, at þèr þikkist fá minni fýst í vorri hingatkvomu.

Konungr mælti: eigi er þat minn grunr, en gjarna vildi ek vita fyrr enn síðar yðvart nafn ok athœfi; bað ek ok yðr sem vit kvomum saman fyrr at gjöra oss þetta allt kunnigt, ok fèkk ek þá af yðr öngva vissu. Frúin mælti: þat var ekki einnar leiðar; vèr fórum þá svo sem leynandi voru athœfi, en nú byrjar oss upp at láta fyrir yðr, hvat vèr höfum unnit í vorri dul, ok svo sè ek utan allra skemmda, at ek vil eigi lengr fyrir yðr dyljast. Allir dugandi menn hafa mik kallat Ermenga; menn faðir heitir Húgon, hann er konungr í Miklagarði; mínir tveir brœðr eru þeir Hrólfr ok Hálfdann. Konungr mælti: frú, segir hann, hversu máttu þetta sanna, at vèr hafim svo verit duldir yðvars athœfis; ok ef svo er sem þú segir, þá hafit þèr mjök leikit á vorn vísdóm, ok þikki mèr þat mjök ólíkligt. Drottning mælti: eigi er svo at skilja, at vèr höfum leikit at yðru viti, því at vèr hefðum þessu aldri áleiðis komit, utan vèr hefðum dulit allt vort athœfi. Síðan tekr drottning til, ok segir öllum áheyrandum þat liðit hafði um hennar hag síðan fyrsta tíma, er Sigurðr flutti bónorð konungs, ok þar til sem þá var komit. Öllum þótti mikils vert um hennar vizku, ok hverja gæfu er hún hafði borit til samvista við konung, ok svo orðit efni, sem komit var. Drottning mælti: nú viljum vèr, herra, allt vort mál leggja á yðra myskun, ok ef þat er yðvarr vili, at ek fari heim til föður míns, ok hafa ek öngvar samvistir við yðr lengr enn þèr líkar. Konungr mælti: frú, þèr skulut at vísu njóta yðvarrar vizku, ok skulum vèr því öllu vel taka, sem til yðar heyrir; hefir þessi vor styggð verit meir fyrir þann mun, at vèr höfum ei fyrirstaðit yðvart athœfi, heldr enn sakir nokkurs illvilja; viljum vèr nú með góðu upp hefja við yðr sanna blíðu með okkru hjúskaparbandi. Ok eptir þetta samþykki höfum vèr ekki heyrt, at konungr smáði athœfi drottningar síðan; en þat er þó sagt af hennar hlýðni, at aldri hafi hún haft

mikla elsku á konungi meðan þau voru ásamt. Karl sonr þeirra fœddist upp í hirð konungs, ok var snemma bráðgjörr, ok því líkligr til höfðingja; ok er nú allt kyrrt, þat sem konungi varðar ok öllu hans ríki.

13. Ámundi er jarl nefndr, sá rèð fyrir Buslaraborg í Saxlandi; hann var kvongaðr, ok er ei nefnd sú kona, er hann átti. Þau hafa átt fjóra sonu, ok koma allir við þessa sögu; dóttur áttu þau eina. Enn elzti son jarls var Vígvarðr; hann var átján vetra, er þessi frásögn gjörðist. Hann var mikill ok sterkr; skapbráðr var hann, svo at hann sást ekki fyrir, hvat hann hafðist at, þegar hann var reiðr; hann var svartr á hárslit, breiðleitr ok rauðleitr, ok hinn harðmannligasti. Rögnvaldr hèt annarr son jarls, hann var þá fimmtán vetra; manna var hann fríðastr sýnum, vitr ok vinsæll, góðjarn ok forsjáll, hverjum manni líkaði vel við hann, ok allra manna bezt görr at sèr um allar íþróttir. Konungr öfundaði um þat, er þat var mælt, at hann kynni framar íþróttir, enn konungr. Markvarðr hèt hinn þriði, mjök líkr Vígvarði bróður sínum bæði at yfirlitum ok skaplyndi; hann var 12 vetra. Enn fjórði hèt Aðalvarðr; hann var níu vetra; hann var í mörgu samlíkr Rögnvaldi, bæði at[1]) skalplyndi ok yfirlitum. Dóttir jarls hèt Matthildr; hún var þá fjórtán vetra gömul; hún var hverri konu vænni, þeirri er á Saxlandi var fœdd; þar með var hennar athœfi annat, þat sem röskva ok mikils háttar mey[2]) má prýða, svo at hún gekk næst drottningu at öllum kvennmannligum listum. Úlfr hefir heitit ráðgjafi konungs; hann var vitr ok vinsæll, ok hafði mikil metorð af konungi, en meiri af drottningu. Rögnvaldr jarlsson var í miklum kærleikum við drottningu, ok svo við Úlf ráðgjafa, ok mælti hann þat opt, þó at Úlfr þyrfti nokkurs við, at hann skyldi hans fyrr leita, enn annars manns.

[1]) bætt inn í eptir B, C, D. [2]) bætt inn í; menn, C.

Tveir brœðr eru nefndir til sögunnar; hèt annarr Sveinn, en annarr Helgi; þeir voru kertisveinar konungs, ok virti hann þá mikils, en þó báru þeir þat fyrir konung löngum, at þá var verr enn áðr, ok bæði gegndi illa konungi ok mönnum af út; en ei síðr vildu þeir sitja um Úlf, enn um aðra, ok því heldr, sem þeir vissu, at hann var metinn, ok síðar mun sagt verða; en svo gat hann við sèt þeirra prettum, at þeir gátu eigi svig á honum unnit. Jarl sá er nefndr til sögunnar, er Ubbi hèt, ok rèð fyrir Spíransborg í Saxlandi; hann hafði fóstrat konung, en nú var Karl son hans löngum at fóstri með honum; hann var auðigr at fè, en snauðr at vinsældum; hann var lyginn ok undirförull hvat manni, sem kunni skyn á honum, en ei því síðr var hann vitr til ráðagjörðar, ok slœgr í umstilli, þó hann hefði lítt til góðs sína vitsmuni. Sonu átti hann tvo; hèt annarr Erlingr, en annarr Erlendr; var Erlingr mjök í hátt ok lyndi sem faðir hans; hann var ellri þeirra brœðra. Erlendr var hraustr maðr ok vel mannaðr, ok var mjök feðrbetringr.

14. Jarl þann skal nefna til sögunnar, er rèð fyrir Stransborg; hann hefir heitit Mágus. Hann var vitr ok vinsæll; hann var kallaðr jafn at öllum íþróttum við Rögnvald jarlsson; en eina íþrótt hafði hann um fram aðra menn í Saxlandi, sú kallast nígrómantía, því at svo kunni hann mikit í rúnum ok kuklaraskap, at hann gjörði margs konar sjónhverfingar, svo at öngvir undirstóðu hans leika. Hann var ókvæntr. Einarr hèt maðr; hann var frændi Mágus; hann var mjök kærr jarli, ok rèð mörgu með honum; hann var góðgjarn ok djarfmæltr við höfðingja. Þat var einn dag, at jarl drakk með allri sinni hirð glaðr ok kátr. Jarl mælti til sinna manna: hvar sjáit þèr mèr kvonarefni, þat er efla megi mína virðing? Flestir þögðu, en sumir svöruðu, at þat mundi eigi auðfundit. Því þegir þú, Einarr? segir jarl. Einarr

mælti: ek skal nú ei þegja lengr, síðan þú kveðr mik at þessu. Ámundi heitir jarl, ok ræðr fyrir Buslaraborg. Hann á sèr dóttur, er Matthildr heitir; hún er kvenna vænst, ok þar eptir ferr önnur hennar list ok athœfi, ok mundi þá í hvern stað vaxa yður virðing, ef þú fengir hennar, því at engi kvennkostr er betri í öllu Saxlandi. Jarl mælti: vel hefir þú til fundit, ok skaltu nú þegar í stað velja fjögr hundruð manna ór hirð minni til þessarrar ferðar. Einarr kvað svo vera skyldu. En er þetta lið var búit, stígr jarl á hesta við öllu þessu föruneyti. Riðu þeir þar til, er þeir kvomu til Buslaraborgar, þar nær. Jarl bað þá stöðva hesta sína, ok mælti: nú vil ek birta fyrir yðr mína ráðagjörð; ek vil senda þik, Einarr frændi, með 60 manna; þú skalt ríða til Buslaraborgar, ok finna Ámunda jarl, ok biðja mèr til handa dóttur hans; fyrir því ferr ek þessa eyrindis svo, ef mèr er synjat konunnar, þá mun ek þat illa standast, ok ei móti von, at ek berjumst við jarl, en mèr þikkir þat þó illt annars kostar. Einarr bað jarl ráða. Ríðr Einarr nú þar til er hann kemr til borgar; en Mágus með sínu foruneyti skyldi þar bíða meðan í skóginum. Einarr kom þann tíma til borgarinnar, er Ámundi jarl ok hans synir voru gengnir til náttverðardrykkju. Hann gekk inn í höllina með öllu liði sínu, ok kvaddi jarl. Hann tók því vel; hann bauð þeim öllum þar at vera. Einarr þakkaði honum með mörgum fögrum orðum. Um morgininn er menn voru komnir undir dagdrykkju, þá sátu allir Ámundasynir inni, ok svo Matthildr systir þeirra. Einarr vekr þá til um eyrindi sín. Jarl tók vel þessu máli, ok skaut því til atkvæða Rögnvalds ok þeirra brœðra. Heyrt hefi ek getit Mágus jarls, sagði Rögnvaldr; þikki mèr sem verá muni góð mágsemd at honum, en skilja vil ek hèr til nokkut, áðr enn þessi ráð takist. Einarr spyrr, hvat þat væri. Rögnvaldr mælti: ek vil at lið hans sè oss heimilt hvert sinn

er vèr brœðr þyrfim, skip hans ok hestar, vistir ok eykir ok allt þat, er vèr kunnum hans með at þurfa; þótt hann sè eigi í nánd, þá viljum vèr at frjálsu mega hafa fè hans. Vili hann ei þessum máldaga játa, þá þarf hann ei þessarra ráða at leita. Einarr snýr í brutt, ok hittir Mágus jarl, ok segir honum sín eyrindislok. Jarl mælti: mjök er sá maðr okaðr ok þrælkaðr undir Rögnvald, er þetta gjörir, ok allvandliga þikkist hann hafa fyrir skilit, en allmjök skýtr þessu í tvau horn fyrir mèr, því at sá mundi þikkja mikill maðr fyrir sèr, er þetta lyki vel af hendi, ok skal ek at vísu at þessu ráða. Ríða nú heim til borgar. Var þeim þar vel fagnat. Ok er Mágus hefir ei lengi þar dvalizt, vekr hann bónorð við jarlsdóttur. Ámundi ok synir hans taka þessu vel; eiga þeir at þessu nokkrar stefnur, ok verða þær málalyktir, at Mágus jarl skal fá Matthildar. Var nú á kveðinn brúðlaupstími. Eptir þetta ríðr Mágus heim til Stransborgar. Sitr nú heima þar til er hann býr sik með sínum vildarmönnum at sœkja sitt kvonarefni. Sem þeir kvoma til Buslaraborgar, hafði Ámundi ok synir hans fyrir búit sœmiliga veizlu með öllum nógum fríðum kosti matar ok drykkjar. Var þetta brúðkaup veitt við mikilli rausn. Luktist sjá veizla með mörgum stórmannligum gjöfum. Ríðr Mágus jarl heim í Stransborg ok með honum hans kona Matthildr, ok tókust með þeim góðar ástir. Stendr þeirri ríki nú með frið ok góðum náðum.

15. Nú skal þar til taka, er Loðvíkus konungr sitr í ríki sínu eptir öll viðskipti þeirra drottningar, þau er áðr voru ritut. Ok á einum hátíðisdegi, sem konungr hafði kallat í sitt boð marga ríka sína landráðamenn, þá sem af honum hèldu stjórn, var drukkit fast; ok sem kvelda tók, gekk konungr í fyrra lagi til svefns með sínum vildarmönnum, en þeir sátu ok drukku, sem þjónat höfðu: Sveinn ok Helgi ok Úlfr ráðgjafi ok margir starfsmenn

aðrir. þeim varð mart talat, sem opt verðr við drykk. þeir brœðr töluðu um, at engi mundi þjóna jamágætum konungi sem þeir. Úlfr mælti: fátt er eitt þat, er stundligt er, at örvænt sè, at fáist annat slíkt. þeir mæltu: hyggr þú at fái annan slíkan íþróttamann, sem konung, ok mun öllum firrst fara um tafl við hann. Úlfr mælti: hvat er örvænt, at sá maðr fáist hèr í landi, at nokkur áhöld gjöri konungi í taflinu. þeir svara: at heldr muni fást hèr í landi, at hann mun hvergi fást í heimi svo at vèr höfum spurn af; en vita þikkjumt ek, segir Sveinn, at þèr þikkir Rögnvaldr eigi verr tefla. þat segi ek eigi, segir Úlfr, og hygg ek þó at hann tefli vel. Sveinn mælti: þarfleysa er þèr at draga Rögnvald fram fyrir konung, hvortki um þá íþrott nè aðra, enda skal konungr víss verða, hverja smán er þú gjörir hans tign. Úlfr mælti: flyt þú rètt mín orð fyrir konung, ok mun ek þá við ganga. Sveinn mælti: ei þarf verr at flytja, enn þú talar. Skildust þeir við þetta, ok leið af nóttin. Sem morginn kom, ok menn voru komnir undir drykkjuborð, lèt konungr kalla Úlf til sín, ok mælti til hans af mikilli reiði: þú hefir gjört til vor mikla háðung, ok fyrirsmát vort athœfi; er oss svo flutt, at þú segir at Rögnvaldr jarlsson sè fremri at öllum íþróttum, enn vèr, ok einkanliga í tafli. Úlfr mælti: herra, þetta eru ekki sönn orð til mín, því at ek þikkjumst víst vita, at bæði mun hann vanta til við yðr tafl ok aðrar íþróttir, en opt legg ek ei í minni, hvat ek tala drukkinn. þetta hefir þú mælt, segir konungr, þó at þú þorir ei við at ganga, ok þetta skaltu mælt hafa. Drottning mælti: þat mun bæði, at Úlfr mun þetta ei mælt hafa. enda er líkligt, at Rögnvald vanti bæði tafl ok annat við konung, ef þreyta skal. Konungr mælti: skilja þikkjumst ek, drottning, yðvarn þykkjudrátt, ok þú elskar hann ei óframar[1]) enn oss, ok

[1]) þannig D; framar, A, B.

því er makligt, at vèr þreytum þetta okkar í millum, hvorr okkar er fremri. Drottning gjörði þá sem jafnan, þá er hún fann styggð á konungi, at hún gaf sèr fátt at. Konungr mælti til Úlfs: nú munu tveir kostir boðnir; sá er annarr kostr, attú kom Rögnvaldi til tafls við mik; hinn er annarr, at ek mun láta drepa þik. Úlfr mælti: "frekr er hverr til fjörsins"; síðan ek veit, af þú gefr mèr þetta fyrir dauðasök, þá mun ek freista, ef ek get komit Rögnvaldi til tafls við þik. Konungr biðr Úlf þegar í stað fara ok freista, ef Rögnvaldr treystist at tefla við konung. Ok ei miklu síðar ferr Úlfr leiðar sinnar við tvo sveina, ok lèttir ei sinni ferð, fyrr enn hann kemr til Buslaraborger. Hann fann Ámunda jarl bráðliga, en jarl fagnaði honum, ok spyrr hvat at eyrindum væri, er hann fór svo fáliðaðr. Úlfr sagði af hit sannasta af viðrtali þeirra konungs. Ámundi mælti: ekki er mèr .um, at Rögnvaldr reyni íþróttir við konung, því at hann er mjök bráðr af kappi, ef hann vinnr ei aðra; en ek veit ei, ef Rögnvaldr vill þreyta tafl eðr annat, hvárt konungr fær nokkurn ávinning í þeirra viðskiptum. Nú þikki mèr muni bezt at hætta, ok mun ek hann hvergi láta fara, ef ek skal ráða. Úlfr gekk þá til móts við Rögnvald, því at honum þótti þá vandast málit, ok sagði honum í hvert efni komit var, ok bað hann leysa líf sitt, ok sagði Úlfr, at drottning hefði beðit, at Rögnvaldr gjörði þetta fyrir hennar skuld, ok hermdi öll orð milli konungs ok drottningar. Rögnvaldr mælti: mundi ei œrin nauðsyn á at hjálpa lífi þínu, þótt þar væri á meiri torveldi, enn tefla kyrr í sessi sínum, en allra helzt ef drottning hefir lagit sín orð til, ok þikki mèr allgott at láta tafl fyrir konungi, ef þess verðr auðit, ok vil ek utanborgar tefla; því ef konungr gjörir oss nokkur vandhœfi í taflinu, þá vil ek ei at ek sè luktr í staðnum, ok þó ei nær borginni enn á þeim völlum, er riddarar eru vanir at hafa sína

burtreið; þar liggr einn þröngr skógr í nánd. Úlfr þakkaði honum allan þennan útveg, ok þóttist hann úr heimtr, er hann hafði fengit þetta jáyrði. Ferr Úlfr heim. Þeir gjörðu stefnudag með sèr, nær þeir skyldu tefla. Rögnvaldr fann brátt föður sinn. Jarl spurði: hvat kom ykkr Úlfi til samans, frændi? Rögnvaldr kvað hann hafa komit sèr til móts við konung. Mundi hann þik beiða, sagði jarl, til tafls? Svo er víst, sagði Rögnvaldr. Hèzt þú ferðinni? segir jarl. Þat gjörða ek, faðir, segir Rögnvaldr. Ámunda jarli fèkk þá mikils, því at hann var þá mjök gamall. Rögnvaldr mælti: hví fær þèr, faðir, þetta svo mikils? Því at ek veit, at þetta er upphaf ógiptu yðar allra brœðra, ok hèr fyrir munut þèr fá miklar hrjár ok ónáðir fyrir þau tilfelli, er af þessu munu hljótast.

16. Þat var einn dag, at Rögnvaldr var snemma á fótum; hann vekr upp brœðr sína ok spyrr, ef þeir vilja fara með honum. Þeir sögðust víst fara vilja. Hann spyrr föðr sinn, hvárt hann vill nokkut fara; en hann kvezt ekki mundu fara. Mun ek svo at eins sjá yðr brœðr hèðan af, at mèr mun þat verða lítil skemmtan. Var karl þá fullr af harmi. Skilja þeir nú at því. Ríða þeir brœðr leið sína ok sveinar þeirra með þeim, þar til er þeir koma fram á þá völlu, er þeir skyldu finnast. Þeir stigu þar af baki. Rögnvaldr mælti þá til sveina sinna: nú skulut þèr láta hesta vora á gras, þar til er hálfunnit er taflit; þá skulut þèr leggja við beizl ok setja á söðla, ok láta alla hesta vora horfa heim, ok standa jafnframt, ok vera við búnir at öllu sem vèr þyrftum skjótt til at taka; vera albúnir at nóni. Síðan fóru þeir brœðr fram á völlinn. Var þar fyrir konungr ok drottning ok mart riddaralið. Konungr sat á stóli, en drottning á öðrum. Þar stóð stóll ok dýna í, ok silkiver um. Rögnvaldr ok brœðr hans ganga fyrir konung ok drottn-

ingu; þeir kvöddu þau. Drottning tók vel kveðju þeirra, en lèt sem heyrði eigi konungr. Rögnvaldr settist á þann stól, sem auðr var, ok brœðr hans. Konungr hafði taflborð í knjám sèr. Konungr tók svo til orðs: hvort er þat satt, Rögnvaldr, at þú hafir boðit at tefla við mik, ok þú kallast betr tefla enn ek? Rögnvaldr mælti: þat hefi ek ei mælt, en mèr var svo flutt, at þú bæðir, at ek skyldi koma hèr í dag til tafls við yðr; ok nú þó at ek kunni lítit í tafli, þá vilda ek gjöra þetta at þínum vilja at tefla við yðr, því at ek hirði ei, þótt ek fái mát af yðr. Konungr mælti: vesalliga gengr þú við þínum ummælum, en ei því síðr skaltu nú tefla; eðr hvar er taflfè þitt? Rögnvaldr mælti: ekki taflfè hefi ek, því at ek ætla kapplaust at tefla. Konungr mælti: hèr hanga á stólnum í hjá þèr 3 gullhringar; þá skal ek við leggja; en ef þú hefir hèr ei aðra gullhringa, þá skaltu leggja við höfuð þitt; þikki mèr þá mikil von, attú sparir ei af um taflit. Rögnvaldr mælti: eigi tek ek glens yðart fyrir alvöru, herra, ok mun ek ei höfuð mitt við taflit láta, því at mèr er þat ekki falt. Konungr mælti: heyr til endima, at þú vilt eigi leggja við tafl svo oss líki! Drottning mælti: [geymit þèr at orðum yðrum[1]), at þeim beri at gjöra þèr hlýðni, þat er þinn sómi. Konungr mælti: þegi þú drottning, ok legg ekki til þessa máls; því at fyrir löngu vissa ek, attú annt betr Rögnvaldi, enn mèr, ok væri hann fyrir þat verðr at[2]) láta sitt höfuð. Rögnvaldr mælti: tala þá hluti til drottningar, er ykkr sómi vel báðum; en þótt ek legða höfuð mitt við taflit, þá þœtti mèr allvel komit, þótt í yðri forsjá væri; ok þar sem vèr erum þínir menn, þá mun oss vel gegna at gjöra yðvart boð, ok viljum vèr tefla á hverja leið, er yðr vel líkar. Síðan reisa þeir taflit. Konungr

[1]) frá [þannig A, B, C; herra, geym at þú bjoðir svo þínum undirmönnum, D. [2]) bætt inn í eptir D.

vildi hafa þat fyrir ríkis mun at draga fram fyrri. Þeir tóku at tefla at dagmálum, en þat var úti at hádegi, ok varð enn litli munr, ok hlaut Rögnvaldr. Hann stóð þá upp ok mælti: nú hefi ek hlotit tafl þetta, ok er þetta af öngvu, nema athugaleysi konungs, því at hann hefir engi taflbrögð sín meiri frammi haft; mun ek ekki heimta þetta taflfè, því at mèr þikkir allvel komit, þótt hann hafi. Síðan settist Rögnvaldr niðr, ok settu þeir annat tafl, ok var því lokit fyrir nón; fèkk konungr hróksmát[1]. Rögnvaldr stóð þá upp með sama hætti ok fyrr, ok þarf þat eigi optar at greina. Konungr varð nú harðla reiðr. Settu þeir taflit þriðja; var þat lokit þá skammt var af nóni, ok fèkk konungr peðsmát. Konungr svarfar þá taflinu, ok berr í punginn. Allir menn voru þar vopnlausir, nema Vígvarðr; hann gek með öxi mikla. Hann stóð jafnan á baki konungs, meðan þeir tefldu, við reidda öxina. Markvarðr sat á aðra hönd Rögnvaldi, en Aðalvarðr á aðra. Rögnvaldr stóð þá upp ok mælti: nú mun vita við öðruvís, enn menn mundu ætla; ek hefi teflt við konung, en hann hefir teflt af kappi, ok lagt fram öll taflbrögð, þau er hann þikkist kunna, ok hefir hann nú látit þessi þrjú töfl ok þrjá gullhringa, er hann hefir við lagt, ok svo vesalliga yfirkominn í síðasta tafli, at hann fèkk af mèr hit fúlasta peðsmát. Nú kann ek ei þat sjá á mínu ráði, at þreyta þurfi við hann fleiri íþróttir, því at ek þikkjumst vita, at hann kunni allar verr, en þá munu vit at því skilja, ok mun ek hafa hringa þessa, en hann mun hafa spott af öllum fyrir sína heimsku ok kappgirni. Konungr hafði þá í borit taflit í punginn. Hann mælti: ekki skulum vèr at þessu skiljast. Sprettr hann á fætr reiðr, ok slær með punginum framan á nasir Rögnvaldi, svo at blóð fèll um hann. Konungr mælti: haf nú þetta með taflfènu, þar til vèr miðlum þèr meiri

[1] Í A virðist standa hrotsmát.

svívirðing, sem þú hefir til unnit. Rögnvaldr mælti: herra, ekki bregð ek mèr svo mjök við slíkt at sinni; finn ek, at þetta mun vera glens yðvart. Gekk Rögnvaldr þá í brutt ok tveir brœðr hans með hánum, ok til hesta sinna. Rögnvaldr mælti þá: seinn er Vígvarðr bróðir vor, eðr hvat mun hann dvelja? ok skulum vèr eigi ríða undan honum. Aðalvarðr mælti: ek veit ei, hvort hans mun langt at bíða, ok ætla ek, at hann hafi reiðzt við pungshöggit fyrir þína hönd, þóttú reiddist eigi, því at ek sè, at öx hans er blóðug. Síðan kom Vígvarðr, ok hefir reidda öxina. Rögnvaldr heilsar honum, ok spyrr, hví öx hans væri blóðug. Hann svarar: ek er ei jafnþykkjulauss, sem þú, ok reiddumst ek, er þú vart lostinn, ok gjörða ek at höfuðverk konungs. Rögnvaldr mælti: veginn segir þú hann þá? Ekki berr ek völd af höndum mèr um þat, sagði Vígvarðr. Rögnvaldr mælti: þik hefir hent mikla ógiptu, ok ei munum vèr nú mega kyrru fyrir halda. Síðan stíga þeir nú á bak, ok ríða til Buslaraborgar. Nú verðr þat síðar at segja, sem fyrr bar við, at þá er konungr hafði lostit Rögnvald með punginum, ok hann gekk brutt með tveimr brœðrum sínum, þá stóð Vígvarðr at baki konungs, ok eirði honum illa svívirðing bróður síns. Hann hefir upp öxina, ok höggr í höfuð konungi, svo í heila stóð: hann kippir skjótt at sèr öxinni, ok hleypr þar til er hann kemr til brœðra sinna; en konungr fèll áfram, ok var þegar dauðr. Menn spruttu upp ok hlupu eptir honum; þeir voru allir vopnlausir. Drottning kallaði, ok bað þá ei eptir renna: mun oss engi fengr í því at láta svo fleiri menn; þikki mèr því ólíkligra til hefnda, þar sem þèr erut allir vopnlausir; ann ek ok syni mínum bezt hefnda eptir föður sinn, en hann er nú hvergi í nánd, því at hann er í Spíransborg með Ubba jarli; mun oss auðvelt at taka alla sonu Ámunda í þann tíma, er vèr höfum styrk ok ráð Ubba jarls. Vil ek, at þèr allir

saman búit líkferð konungs sem vegligast. Ok eptir bœn ok ráði drottningar var þetta allt gjört. Engi maðr fann styggðarsvip af drottningu; hugsuðu sumir menn þat, at henni mundi nú dælla þikja um at vèlast, enn áðr, því at henni hafði verit áðr it mesta óttaboð, sem fleirum áðr, at ofbeldi konungs; var hann ok því ei svo mjök harmdauði, sem elligar mundi, at menn höfðu meir þjónat honum fyrir ríkdóms sakir ok hræzlu, enn góðvilja eðr eptirlæti. Drottning lætr nú búa um lík konungs virðuliga, sem sómdi; var hann fluttr heim í Vernizuborg. Hún lèt senda orð Karli syni sínum, ok þar með Ubba jarli ok mörgum öðrum ríkismönnum. Var útför konungs gjör með mikilli virðing ok fagrar sálugjafir bæði kirkjum ok ölmusum. Sem hans útferð var öll gjör með vegsemd, býr drottning fagra veizlu, ok býðr öllum þeim, er með góðvilja höfðu sótt eptir hann þangat. Sem þessi dýri safnaðr sat með prís ok gleði í hennar boði, kvaddi drottning sèr hljóðs, ok mælti svo: öllum mönnum viljum vèr með blíðu þakka þessa hingatkvomu, er þèr hafit nú enn sem fyrr sýnt oss sannan góðvilja; en yðr má nú kunnigt vera þat it mikla tilfelli í fráfalli konungs, bónda vors. Nú bið ek yðr alla saman með góðfýsi á líta ok um hugsa þá hluti, sem oss má mestu varða öllum, svo sem til heyrir ríkisstjórn ok umsjá ríkis þessa; vitit þèr, at vèr höfum getit til arfs við konungi einn son vænan; ok þó hann sè lítt reyndr við ríkisstjórn, þá væntum vèr þess, þegar aldr fœrist yfir hann, at þessi hinn ungi maðr verði fyrir sèr mikils háttar höfðingi; með allra yðar umsjá er þat minn bœnastaðr til allra yðar, at þèr gefit honum keisaranafn, svo sem hans forellrar hafa haft. Ok er hún lauk sínu máli, gjörðu þeir allir góðan róm at hennar máli, ok var á þeirri stefnu Karli gefit keisaranafn eptir bœn ok vilja drottningar. Þá tók drottning í annat sinn til orða: þú minn góði son er orðinn keisari sem nú

vita allir menn, ok tekit alla þá erfð, sem þinn faðir leifði eptir sik, nú skyldast þú til at hefna föður þíns á þeim manni, er gjörði þat hit illa verk, ok gjör þat með því hófi, at ei gjaldi aðrir þessa óhapps, þeir sem ei voru þess verks valdandi; bind ek fyrir þenna þinn vanda til allrar ráðagjörðar Ubba jarl, fóstra þinn. Jarl mælti: frú, sagði hann, eigi skulut þèr þurfa at eggja mik til þessa verks, því at svo em ek ríkr ok hraustr á allan herskap, at ek skal með sjálfs míns sverði drepa alla Ámundasonu, ok launa þeim svo þetta verk. Drottning mælti: ei sè ek fyrir mun um þat, at þú orkir þí, enda þikki mèr vel[1]) yfir at láta, þóttú drepir þann af þeim, er þetta verk vann, þótt hinir gangi undan, sem saklausir eru. Ubbi mælti: alla skal ek drepa þá, ok er þó ei hefnt konungs. Þú munt nú fyrir sjá, segir drottning. Karl lagði fátt til. Eptir þetta var slitit þessu samsæti, ok ferr hverr heim, er búinn er. Karl keisari stýrir nú ríki sínu, ok gjörðist vinsæll; hann var góðr ok blíðr við alla, en Ubbi var nú með honum.

17. Nú er þar til at taka, er þeir Rögnvaldr komu til Buslaraborgar á fund Ámunda jarls. Hann fagnaði ekki sonum sínum, en þó frètti hann þá tíðinda. Rögnvaldr sagði slík sem voru. Jarli fèkk þetta mikils. Vígvarðr mælti: meir þurfum vèr nú góðra ráða, faðir, enn hörmungar. Jarl talar þá af móði miklum: dragist þèr í brutt sem skjótast, fyrir því at engi ráð mun ek leggja á með yðr, því at fyrsta tíma, er ek kom hingat til lands. gaf konungr mèr þetta jarlsdœmi; sór ek honum trúnaðareiða, at ek skyldi hans hefna, ef honum væri mein gjört, ok hugða ek ei at þetta mundi mèr svo nær bera, sem nú er orðit, ok ek skyldi öngum manni nokkra hjálp gjöra, þeim er hans mótstöðumenn væri; þá hina sömu eiða sór hann mèr um þau mál, er mik varðaði;

[1]) bætt inn í eptir B, C, D.

er því engi von hèðan af at ek veiti yðr nokkra ásjá; en ríða máttu Rögnvaldr á skóg eptir mèr ef þú vilt. Vígvarðr mælti: þann ætla ek verr hafa, er rekst á skóg eptir karli þessum. Rögnvaldr mælti: tölum fátt við föður vorn, því at nú hefir hann sem hann má bera. Jarl þreif þá eitt snæri langt, er lá á borgarvegginum; hleypir langt á skóginn, sem hestrinn mátti fara. Markvarðr mælti: hvort mun faðir, vor ætla at hengja sik á skóginum. Rögnvaldr mælti: annat mun ek geta hann ætla at at hafast; en þó skulum vèr nú halda eptir honum. Vígvarðr mælti: aldri ferr ek eptir honum, því at ek hirði aldri hvat af honum verðr, síðan hann vill oss ekki gagn gjöra. Rögnvaldr rèð þó, ok fáru þeir eptir jarli, allt þar til er hann kemr þar sem 4 eikr voru. Hann mælti þá við eikrnar: þat man ek, segir hann, at þá er ek var ungr, ok kom hingat í skóg þenna, at hann var svo þykkr umhverfis yðr, sem þá er menn standa sem þykkast um herra sinn, ok laut allr skógrinn ok hneigði yðr til eptirlætis, en nú lifit þèr mjök minnkunarliga; nú erut þèr orðnar fyrir reiði skógarins, svo át engi viðr nè skógr vill yðr lúta nè þjóna, ok því at þessi óhamingja er á yðr fallin sakir illrar meðferðar einnar yðar, ok er yðr engi vegr nè virðing at standa hèr lengr, at allr skógviðr vill yðr upp taka af þeim rótum, sem þèr hafit á staðit, ok ætla at segja yðr allar úgildar. Síðan gekk hann at þeirri eikinni, sem mest var ok bezt var vaxin, ok mælti: ráð mun ek þèr ráða, því at mèr þikkir þú líkust Rögnvaldi at hafa mínar tillögur, en ek þikkjumst vita, at hinar þrjár munu þar fylgja. Vígvarðr mælti: hvárt mun karlinn faðir vor at gjalti[1]) orðinn, er hann er svo skynlauss, at hann talar við fauska þessa, sem við menn. Rögnvaldr mælti: látum föður vorn rausa slíkt er honum líkar, en getum þá slíks er oss líkar, til hvers

[1]) gabbi, B.

þetta mun koma, þá er hann þagnar. þeir voru ei allnær honum, en þó skildu þeir fullvel, þat er hann talaði. þeir gjörðu nú sem Rögnvaldr beiddi, ok hlýddu til orða jarls. þá mælti jarl: nú með því at yðr mun ei vanta hesta, hvert er þèr vilit fara, er þat mitt ráð, at þèr ríðit fram á götustíg þenna eptir skóginum, ok at á þeirri, er hèr fellr skammt frá yðr; þèr skulut fara ofan með ánni, þar til er þèr finnit standa steinboga, ok ríðit þar yfir; þá skulut þèr ríða upp með ánni, þar til er þèr munut finna jarðhús; þar mun yðr fjórum einum þriggja vetra fæða ok drykkr, ok hestum yðrum fóðr. Ok þá sá tími er úti, mætti vera at skógarvíðinum væri þá runnin reiði við yðr. Hafit nú þetta, ef þèr vilit, en ekki mun ek fleira leggja til með yðr. Snýr jarl aptr, ok hleypir sem hann má. Vígvarðr mælti: sjáit þèr, hvar nú hleypir karlinn faðir vor, ok er nú œrr orðinn, því at hann ætlar at eikrnar muni gjöra þat sem hann mælir við þær; leitum nú á brutt ok forðum oss. Rögnvaldr mælti: þessi ráð rèði faðir vor oss, er hann mælti við eikrnar, en hann þóttist því síðr rjúfa eiða sína við konung, er hann nefndi oss eigi. Vígvarðr mælti: eigi veit ek um vitleysi hans, ok ætla ek þann verr hafa, er gaum gefr at skjali hans. Rögnvaldr mælti: at vísu skulu vèr fara svo sem hann lagði ráð til, ok sjá fyrst hvat þar er fyrir, því at vísu veit faðir vorr, at eikr þessar eru kyrrar. Síðan fóru þeir eptir því sem faðir þeirra hafði þeim vísat, ok fundu jarðhúsit; var þar fyrir búit eptir því sem hann vísaði eikunum til. þarf þat ei með orðum at lengja, at þeir voru þar þessa 3 vetr at fárra manna vitorði.

18. Nú er þar til at taka, er Karl var gjörr keisari yfir öllu Saxlandi ok svo víða sem faðir hans hafði ríki yfir haft; hann var þá 18 vetra gamall. Hann var stjórnsamr, ok vildi hverjum manni gott gjöra, er fyrir

honum kærði sín mál, hvort sem hann var ríkr eða fátækr. Hann var vel kristinn, ok lèt svo vera alla sína menn; hann lagði þat víti á við hirð sína ok alla þá, er ekki áttu at starfa, ef þeir gengu úr kirkju um tíðir nauðsynjalaust, at hverr sá skyldi gjalda 6 silfrpenninga; skyldi þat sá taka, er fyrst yrði varr um þetta. Nú af því at fúss var hverr til fjárins, þá sat hverr um annan. Ubbi stjórnaði mest ríki með Karli, ok þótti öllum, sem var, at hann spillti um fyrir stjórn keisara. Ubbi mælti þá er úti var gröptr konungs ok svo veizlan, er staðit hafði: herra, segir hann, þat er mitt ráð, attú ríðir ei með færri menn, enn 100 riddara, ok finnir Ámunda jarl, ok heimtir þú at honum son hans, en föðurbana þinn, fyrir þat at hann mun hafa forsjá ok ráð fyrir þeim. Konungr kvað víst líkligt, at þeir hefði þar til hjálpar ætlat, er faðir þeirra var. Eptir þetta fara þeir heiman, er þeir voru búnir, ok var Ubbi í för með þeim; ríða alla sína leið til Buslaraborgar. Ámundi jarl fagnar þeim vel, Karli ok hans föruneyti. Konungr tók því heldr fáliga. Jarl mælti: hvat skal fjölmenni þetta, eða hvert ætlit þèr at ríða? Ubbi mælti: ek má vel segja þèr þat, því vèr ætlum, at þú skulir fram selja óhappamennina sonu þína; en ef þú vilt ei þat, þá muntu verða rannsakaðr sem óræðismaðr, ok muntu þá verða nauðigr fram at selja, þóttú viljr ei lostigr. Jarl mælti: engri nauðung þarftu mèr at heita, Ubbi, því at ek vænti, ef svo prófat er, attú skulir at öllum trúnaði verr reynast, enn ek, við konung; hefir ek ok aldri rannsakaðr verit sem þjófr, ok þess vænti ek, at Karl konungr ælti mèr ekki þá ódygð, at ek muni geyma föðurbana hans, því at þar til heldr mik öll skylda með vináttu við Hlöðver konung, at hefnda ek hans, ef við sonu mína væri ei at eiga, enn ek styrkta þá, er þetta it illa verk hafa unnit, ok heldr vilda ek hafa látit alla sonu mína með nokkrum sæmiligum

atburðum, enn þeir hefði þetta it illa verk unnit, því at af þeim mun ek hvortki hafa gaman nè nytsemd meðan ek lifi. En þat vil ek, Karl konungr, segja þèr með sönnu, at þegar ek frètti þetta verk, rak ek þá í brutt sem hina verstu ódáðamenn, ok bað ek þá aldri koma í mína augsýn, því at ek vildi engi ráð leggja til með þeim. Fèkk Ámunda jarli þetta svo mikils, at hann mátti eigi vatni halda. Konungr þagði ok hlýddi til er þeir töluðust við. Ámundi hafði fjölda manna heima, ok lèzt ei rannsakast mundu fyrir Ubba. Konungi þótti sem af því mundi verða vandræði, ef þeir þreytti þetta sín í milli. Karl konungr mælti: þat heyrða ek föður minn segja, at hann hefði aldri reynt hègóma eðr skrök at Ámunda, ok skal ek eigi sá föðurverringr[1]), at ek gruni sögu hans; sè ek, at honum fær þetta svo mikils, at hann mun satt segja. Ubbi mælti: tjá þikki mèr jarli at gráta fyrir augum þèr, [ef þú vilt fyrir þessu óbœttan[2]) hafa föður þinn; muntu þetta gjöra at vilja móður þinnar at elska Rögnvald ok þá brœðr fyrir þetta verk, enda skal ek ok aldri af láta, fyrr enn ek hefi drepit þá alla. þótt ek hafi öngvan styrk af þèr til þessa verks. Ámundi mælti: illt mun þar illan at hyllast, er þú ert Ubbi, því at þú munt þeim verstr, er þinn sóma gjörir sem mestan. Væri konungi ok mikil þarfleysa at þola hróp þín, hvortki fyrir sik nè menn sína. Konungr mælti: vel mun fóstri minn oss vilja; en ek skal nú ráða at sinni, ok skulum vèr snúa heim, ok gjöra Ámunda öngva óvísu, því at hann mun þessa verks ósakaðr. Snèri konungr þá heimleiðis. Ubbi mælti þá, at njósnir skyldi fyrir hafa, hvar þeir brœðr mundi komnir: en þat þikki mèr líkast, at þeir muni vera í Stransborg hjá

[1]) þannig A, C; föðrverstningr, B; verrfeðrungr, D. [2]) frá [ þannig D; er þú vilt fyrir þessu bœttan, A, B; þú vilt fyrir þessu bœttan, C

Mágus jarli. Konungr mælti: þar[3]) vilda ek at þeir væri sízt; en ekki mun Mágus halda þá á laun fyrir oss. Ubbi lá um þá síð ok snemma, ok gat þá ekki upp frètt, ok líða nú svo fram nokkrar stundir.

19. Áki er maðr nefndr; hann var auðigr at fè, en heimskr var hann ok grunnúðigr. Hann var maðr þjóðhagi. Hverr maðr, er hann átti kaup við, galt honum bæði seint ok illa. Hann átti fè at hverjum manni, er hann átti kaup við, ok kunni ekki at hafa, þótt hann fengi ei sem honum var lofat. Honum fór sem fleirum öðrum, at honum þótti þat líkast, at konungr mundi rètta hlut hans. Fór hann síðan á fund konungs, ok flutti sitt mál, en konungr lèzt skyldu gjöra honum lög sem öðrum þeim, sem þess þyrfti. Hann gjörði þeim manni orð, er Áki átti at fè [, ok fèkk konungr svo um stillt, at Áki fèkk alla sína penninga, þá er hann átti at heimta[1]). Var Áki þá auðigr. Hann brá þá ráðinu, ok bað sèr konu einnar, ríks manns dóttur. Var þetta at ráði gjört, því at mikill slœgr þótti til penninga Áka. þessi kvinna hèt Helga; hún var ung ok fríð yfirlits. Hún var mjök leikin ok ógáfull[3]); en þegar er hún talaði við aðra menn, þá þótti Áka sem hún væri fífld fyrir honum. Ei bar til betr enn svo, at hirðmaðr einn slóst á tal við hana. Áka þótti þat illa, er hún vandist á þat. Hún lèzt eigi þat mundu varast at tala við menn. þat var eitt sinn, er hann kom at máli við hirðmanninn, þá er þau höfðu talat. Hann segir, at hann kann ekki at varast slíkt. Áki mælti: þrjótliga horfir fyrir ykkr um þetta mál; ek hefi talat við hana, en hún vill ekki at gjöra. Nú vil ek heldr gefa þèr til fè, en þit látit af ykkru tali, því at mèr er þetta mikil raun. Hirðmaðrinn mælti: þat má vel vera, þótt ek vili ei gjöra fyrir þinn bœnarstað, at ek vili gjöra

[1]) þat, A. [2]) frá [ bætt inn í eptir D, og virðist þessari grein vera sleppt í hinum handritunum af ógáti. [3]) gáfull, B.

þetta at skapi þínu, ef þú gefr mèr penninga, en ekki mun ek mútu eina til taka. Áki mælti: ek skal þèr sýna víst, at mèr þikkir þetta miklu varða, ok mun ek gefa þèr þriðjung fjár míns. Maðrinn mælti: þat mun ek taka, ok þiki mèr þá mikil von, at ek geri þèr öngva raun at mínu tali, ef þú greiðir þetta vel. Áki mælti: þat eina skal ek játa þèr um þetta, at ek ætla at halda. Ok þessu kaupa þeir, ok lýkr Áki vel fèit sèr af hendi. Nú kemr Áki at máli við Helgu, ok mælti: þikkist þú ei vesul, at ek verð at bera út fè mitt fyrir þínar sakir? Hún svarar: þikkistú ei fól mikit, er þú ætlar at banna mèr tal við menn; nú skal þik kosta nokkut, ef þú ætlar við þat at keppast. Áki kvezt ei af skyldu láta at vanda um hennar fíflsku. þessi hirðmaðr segir, hversu með þeim hafði farit; ok þegar er aðrir urðu þessa varir, hvat hann hafði grœtt, þikkir þeim lítit fyrir at afla sèr svo fjár, ok verðr til hirðmaðr annarr at tala við Helgu. Áki talar enn um við hann, ok þeir skiljast at því, at hann gefr honum annan þriðjung; greiðir Áki þetta ólatliga, ok er allt sem samt segi. Til ferr hinn þriði, ok gefr Áki honum þat sem eptir er, svo nú er hann fèlauss. Enn verðr til hinn fjórði at tala við Helgu. þá mælti Áki: þau vandræði leiðir mèr af þèr, at ek þikkist trautt mega um þik tæla; nú er uppi allt fè, ok lætr þú ei af heimsku þinni; nú verð ek enn at sjá nokkut ráð fyrir þèr. Hann fœrir hana langt í skóg á brutt frá öðrum mönnum í einn myrkvið, ok gjörir henni þar skála. Hann var þar um nætr, en fór í hèrað um daga, ok smíðaði þeim til matar. þeir Ubbi ok Karl konungr leggja tvær merkr gulls til höfuðs þeirra brœðra, ok skyldi sá eiga, er þeim vísaði til þeirra. Áki hafði sett skála sinn skammt frá jarðhúsi þeirra brœðra, ok vissi hann ei, at þeir væri þar í nánd.

20. Nú er frá því at segja, at ei miklu síðar tekr

Ámundi jarl sótt. Hann sendir eptir Mágus jarli. Ok er hann er kominn til móts við Ámunda, þá biðr jarl, at Mágus veitti nokkurn styrk sonum hans, ok segir honum hvar þeir voru; þikkjumst ek vita, segir hann, at úr þessarri ánauð komast þeir aldri, nema þeir njóti við þinna vitsmuna. Mágus heitir góðu um þetta, sem hann beiddi. Ok því at Ámundi var þá mjök gamall, þá fellr honum þetta allt svo nærri, ok þat stríð, er hann bar fyrir misferli sona sinna, at ei lèttir honum[1]) fyrr sótt með harmi, enn hann fær bana. Mágus jarl lèt vegliga gjöra hans útferð. Ok þá er hann hefir á enda fœrt allar nauðsynjar ok beizlur Ámunda, ríðr hann með sínu föruneyti heim í Stransborg, ok sezt um kyrrt at ríki sínu. Ok er Karl konungr frèttir lát Ámunda jarls, vill hann fá nokkurn stjórnarmann fyrir þat ríki, er hann hafði haft; en því at menn vissu, at þeir brœðr voru á lífi, þá treystist engi at halda þetta ríki, at öllum þótti vísar þeirra ónáðir við hvern þann, er at óvilja þeirra tœki þessa ríkis stjórn. Þá mælti Karl konungr: veit ek þann mann, er vel mun hlýða at taka þetta ríki. Hverr er sá? segir Ubbi. Úlfr ráðgjafi vorr, segir konungr: hann er góðr vin þeirra brœðra. Ubbi bað hann honum skipa; kvað þar hvoriga þurfa at spara, þótt þeir ætti illt saman. Gekk þetta sem annat eptir tillögum Ubba. Tekr Úlfr þetta ríki til forráða, ok er þó tregr til, því at hann vildi ei svo gjöra, at þeim brœðrum mislíkaði.

21. Nú er þar frá at segja, at þeir brœðr hafa verit í jarðhúsinu, at mjök gjörðist á förum kostr sá, er þeir höfðu. Vígvarðr spurði þá Rögnvald, hvat þá skal til ráða taka. Rögnvaldr mælti: vit skulum reyna hvat Mágus mágr vorr vill muna af því, sem hann hefir oss játat, ok ek skilda á þá er hann fèkk systur vora. Vígvarðr svarar: vera má at hann dugi oss vel hèðan

[1]) hann, A, B.

frá, en alllítinn gaum hefir hann at oss gefit hingat til, enda skaltu þessa ferð fara. Rögnvaldr kvað svo vera skyldu. Rögnvaldr átti vopn betri, enn nokkurr maðr annarr í Saxlandi; hann átti hest alhvítan, hann hèt Flugarr, ok barðist í vígi með hinum firrum[1]) fótum, en stóð á hinum eptrum; hann hljóp á hvetvetna upp, hvat sem fyrir var. Einn morgin snemma, er Rögnvaldr klæddi sik ok leiddi út hest sinn, bar þat saman, at þá er Rögnvaldr var á bak kominn úti fyrir jarðhúsinu ok sólin skein á vopnin, at Áki hinn heimski var úti fyrir skála sínum, ok kenndi Rögnvald þegar. Nú skal fyrst segja frá Rögnvaldi. Hann ríðr nú þar til er hann kemr til Stransborgar. Mágus jarl fagnar honum ágæta vel. Þeir gengu í hallina, ok settust til drykkju, ok var Mágus hinn kátasti. Rögnvaldr spurði, hvat til tíðinda hafði gjörzt meðan þeir höfðu verit í jarðhúsinu. Mágus sagði mikil tíðendi væri at segja: lát Ámunda jarls; hefir hann látizt at[2]) því er flestir menn hugðu af stríði því, er þèr hafit verit útlægðir. Rögnvaldr mælti: hverir stjórna nú ríki voru brœðra? Mágus segir, at Úlfr stjórnaði. Hvert ráð leggr þú nú til með oss brœðrum? segir Rögnvaldr; hefir þú lítinn kostnað fyrir oss haft hingat til. Mágus segir: yðr þikkir sem ek hafi öngvan kostnað haft fyrir yðr hingat til, en mèr þikkir eigi svo; ek hefi annazt allan þenna tíma 80 smiða ok þrjú hundruð verkmanna, ok hafa allir yðr unnit. Rögnvaldr brosti at, ok spurði, hve svo mætti verða. Mágus segir: ek lèt þessa menn alla gjöra kastala einn til handa yðr; þar er í komin vist ok drykkr svo nógr, þótt þèr sitit þar við marga menn svo at vetrum skipti; hann er skammt á brutt frá borg vorri, svo at heyrir gjörla, ef hvellt er blásit í lúðr. Þar ætla ek, at þèr skulit vera ok verjast þaðan síðan; má hann með öngu vinna, utan með því, sem yðr er sjálfrátt, at þèr

[1]) fyrrum, A, B, C, rangt. [2]) af, A, B, C.

sèt ginntir á burt. Ek á einn lúðr, sem þú munt heyra; honum veit ek öngvan sambljóðan, því at hann er dvergasmíði; honum mun ek því at eins blása, nema ek þurfi liðs við, ok trúi ek yðr vel, at þèr munit veita mèr þá lið. Skal ek nú fara at sœkja brœðr þína, en þú skalt dveljast hèr á meðan hjá systur þinni. Rögnvaldr lèzt sjálfr vilja sœkja brœðr sína. *Mágus* mælti: þú munt ráða vilja, en hitt mundi þó eigi verr til vegar fara, at ek fœri. Rögnvaldr ríðr nú þar til er hann finnr brœðr sína.

22. Nú er at segja frá Áka, at hann kemr inn í skála sinn, ok mælti: mikill munr verðr hèr, Helga, tveggja manna, er við eigum í hlut, er þú starfar at síðr, nè gjörir neitt gott, en ek hefi mikit fè orðit at leggja fyrir ergi þína ok fíflsku; hefi ek enn mikils fjár aflat um litla stund, því at ek veit nú hvar þeir brœðr eru niðr komnir. Skal ek nú fara sem hvatligast, ok segja konungi, ok eignast þær þrjár merkr, er lagðar hafa verit til[1]) fundar[2]). Helga mælti: annat mundir þú nú til ráðs taka, ef þú vildir minn vilja gjöra; þœtti mèr þat ei óráðligt at segja ei til þeirra, *ok mundi* Rögnvaldr þèr þat góðu launa. Áki mælti: við mundir þú leita at eyða þessu sem öllu öðru, því sem mèr berr í hendr. Sè ek nú, hversu farit hefir. Rögnvaldr hefir glœpt þik ok lagizt með þèr, ok vildir þú en versta kerling liggja lengr til þessa óráðs, en þat skal nú ei vera, ok þikki mèr því betr, sem þeir brœðr eru fyrr drepnir. Helga mælti: löngu vissa ek þat, at ek var mannskræfu gefin, enda muntu nú þat birta, er þú vilt at hinir frægustu menn sè drepnir fyrir fleipr þitt ok tilvísun; enda skal ek segja Rögnvaldi til ef ek má. Áki mælti: opinbert er þat fyrir mèr, at þú hefir gjört þik at pútu, enda skal ek nú þat launa þèr; ok sló hana kinnhest, ok skelldi aptr skála-

[1]) bætt inn í eptir C. [2]) til fundingar þeirra, D.

hurðinni, ok læsti hana þar inni, svo hún mátti hvergi brutt komast. Áki ferr nú allt til þess, er hann kemr til Vernizuborgar; Ubbi jarl var þar. Ok er Áki kom fyrir konung, spurði konungr, hvar hann hefði verit: því at ek hefi eigi sèt þik á löngum tíma. Áki mælti: þèr vissut, herra, at ek fèkk fè mitt, en nú skal ek þat launa þèr nokkru, en þat er ei örvænt, at ek fái nokkur laun af yðr. Konungr spurði, hvat hann kynni at segja, þat er hann hugði til svo mikils. Áki segir: ek veit hvar þeir Ámundasynir eru niðr komnir, sökudólgar þínir; þeir eru í jarðhúsi skammt frá steinboga þeim, er á ánni er; hafa þeir þar verit allan þenna tíma; mun ek þar vel á hitta, því at ek hefi þat áðr markat. Ubbi jarl mælti: þetta er sú þjóðlygi, sem mest má vera; hefi ek þar svo kannat, at hèr er ekki satt í; værir þú ills fyrir þetta makligr. Konungr mælti: þó mun honum gott hafa til gengit, ok skal fá honum hálfa mörk gulls. Svo gat Ubbi um talat, at Áki varð því feginn, er hann komst í brutt með þat, er hann fèkk; ok er hans eigi lengr getit við þessa sögu. Ubbi mælti til konungs: þetta mun allt satt, er Áki hefir sagt. Konungr mælti: illa gjörðir þú nú, ef þetta er satt, er þú fèkkt honum ekki þær þrjár merkr silfrs, er vèr höfum lagt til höfuðs þeim bræðrum. Ubbi mælti: litla hríð mundi hann því eytt hafa, ok hefir meira eyðzt honum á skammri stundu; fór þetta sem von var skræfusamliga, er hann sagði til þeirra, ok vil ek aldri at hann grípi fè upp, því at þetta þikki mèr betr komit hjá þèr. Nú skal safna liði sem skjótast, ok fara til jarðhússins, sagði Ubbi. Konungr bað hann ráða. Ríða þeir nú við hundrað manna af borginni; lètta eigi sinni ferð, fyrr enn þeir koma til jarðhússins. Þann sama morgin höfðu þeir bræðr þaðan á burt riðit; en er þeir komu þar, fundu þeir jarðhúsit autt. Ubbi mælti: menn hafa hèðan nýriðit. Konungr mælti: þá munu þeir í morgin

hèðan hafa farit. Ubbi mælti: þeir munu hafa snúit til Stransborgar, ok ríðum vèr eptir þeim, sem vèr megum. þeir riðu þá þar til er þeir sáu; hvar þeir riðu. Konungr mælti: nú skal herða eptir þeim, sem vèr megum. Ubbi mælti: vèr skulum taka ráð annat, því at þeir eiga hesta svo góða, at þeir komast undan; nú skal velja 12 menn af liði voru, þá er fræknastir eru, ok skal ek vera þar með; skal hverr hafa tvo hesta, þá er beztir eru, ok skal sprengja hestana undir þeim. Svo var gjört. Rögnvaldr mælti við bræðr sína: hèr ríðr konungr eptir oss. Ubbi ríðr fram fyrir við 12 menn, ok hafa þeir hesta hálfu fleiri, ok mun þat duga mínum hesti, en ek kvíði yðrum hestum; eðr hvat er nú til ráðs? Vígvarðr svarar: þat at snúast við, ok taka í móti. Rögnvaldr mælti: þat mun vera úlíkligt ráð, eru þeir svo margir, þegar þeir koma allir saman; vèr skulum víkja af götunni fram fyrir hól einn, er hèr stendr oss hjá, ok mætti verða, at þeir riði um hjá oss. þeir gjöra nú svo. Ok er Ubbi kom fram um hólinn, mælti hann: nú hafa þeir mikit riðit undan, er þeir hafa horfit oss, er ek fær ei sèt þá. Konungr mælti: nú hefir Rögnvaldr orðit oss slægr, því at ek hygg, at þeir hafi vikit af götunni; mun hann hafa numit hèr staðar við hólinn, en Ubbi mun hafa riðit fram um; skulum vèr víkja hèr af götunni. Og er Rögnvaldr sèr þetta, mælti hann: hèr ríðr konungr at oss, ok mun ekki tjá at vera hèr; munum vèr snúa undan konungi, því at hann hefir fátt manna hjá sèr. Ubbi verðr brátt víss, at hann er um fram riðinn; snýr hann þá aptr í mót þeim. Rögnvaldr sèr þetta. Hann mælti: nú erum vèr komnir milli steins ok sleggju; skulum vèr þó heldr at Ubba snúa; mun ek ríða fyrst, þá Aðalvarðr, þá Markvarðr, þá Vígvarðr; skulum vèr þess mest gæta, at láta aldri slíta ferð vora í sundr, en ef einhverr vorr verðr fráskila, þá er sá þegar drepinn. Rögnvaldr ríðr

nú á fylkinguna, þar sem hann kemr at; hestr hans barði með hinum firrum fótum, svo at ekki stóð við. Rögnvaldr sat ei kyrr á hestinum. Rögnvaldr reið fram at liði Ubba, ok drap 10 menn; hann veik þá aptr hestinum; var þá Vígvarðr ok Markvarðr þar komnir, en Aðalvarðr varð handtekinn, ok færðr konungi; hann lèt setja hann upp á einn hest; varðveitti Ubbi jarl hann, ok mælti: förum vèr enn eptir þeim. þeir gjörðu svo. Rögnvaldr sèr þetta. Víkr þann þá af götunni, svo Ubbi gat ei sèt hann, því at hestar þeirra bræðra voru mjök þreyttir. Ubbi reið enn um fram. Konungr gat sèt, hvar þeir fóru, ok fór þegar þann veg. Rögnvaldr mælti: ekki mun oss tjá hèr at vera, ok verðr nú enn at ríða fram eptir Ubba. þeir gjörðu svo. Ubbi snýr enn snarliga aptr. Rögnvaldr mælti: hvat er nú til ráða? Vígvarðr mælti: at verjast karlmannliga, ok snúa í móti. Rögnvaldr mælti: þat man ek einn tíma, at ek reið þessa götu með feðr mínum; ek sá þá at haglkorn hraut af augum honum. Ek spurða, hví honum fengi svo mikils. Hann sagði, at hann sá fyrir ógiptu vora, ok munu þèr ríða götu þessa undan óvinum yðrum; hèr liggr af út götustígr lítill, hann mun þá forntroðinn mjök; hèr er skógr skammt í brutt; hann er þykkr, at þar má ei ríða meir enn 2 menn jafnfram; hann munu þèr ríða þar til er fyrir yðr verðr myrkviðr; þess get ek, at óvinir yðrir sœki ei þangat. Skulum vèr nú ríða, sem hann lagði ráð á. þeir gjörðu svo, ok fundu götustíginn; ríða hann þar til er þeir komu í myrkviðarskóginn; hann var svo þykkr ok þröngr, at limar lukust saman yfir þeim. Konungr mælti: engi er mèr minna manna svo falr, at ek vili at líf sitt eigi undir vopnum þeirra bræðra, þar sem vèr vitum aldri hvar þeir eru í skóginum; en þat skal Rögnvaldr heyra mega, at ek skal Aðalvarð pína láta öllum píslum, ok síðan drepa. Rögnvaldr svarar öngvu. Síðan reið konungr brutt. Ubbi

eggjaði, at þeir skyldi ríða á Mágus, ok drepa hann; kvað hann vera ráð ok styrkr þeirra brœðra, er hann var. Konungr lèzt ei þat mundu gjöra: því at ek veit, at hann mundi skjótt víss verða af sínum vísindum, þó at engi gjöri honum vissu af vorri fyrirætlan. Snúa þeir nú heim. Ámælti konungr mjök, hversu þeir brœðr höfðu farit undan, ok kvað hann slyttumannliga hafa eptir sótt. Nú er at segja frá þeim brœðrum; þeir ríða þar til er þeir koma fram úr skóginum, ok lètta ei fyrr sinni ferð, enn þeir koma til Stransborgar. Tók Mágus við þeim hit bezta, ok mundi enn glaðligar, ef Aðalvarðr hefði þar verit: ok mundi ei svo farit hafa, ef ek hefði þessa ferð farit. Bað Mágus þá brœðr fara í kastalann. Fær Mágus þeim bæði þjónustumenn ok marga vaska menn til fylgdar, ef þess þyrfti við. Ok er Rögnvaldr hinn ókátasti, því at hann var mjök hugsi, hvat gjört mundi. Nú er frá því at segja, at konungr kemr til Vernizuborgar, at Ubbi jarl beiddi, at konungr gæfi Aðalvarð upp í sitt vald, ok lèzt hann mundu pína hann. Drottning Ermenga mælti: Ubbi, þú talar ódrengiliga, er þú vilt pína saklausan mann, en þú hafðir eigi þorat til at ríða ok drepa þann, er vegit hafði herra þinn; vænti ek, at konungr geri þetta eptir makligleikum, ok geri vel við Aðalvarð, því at hann er saklauss af drápi bónda míns, ok bíði svo, ef sá mætti nást, er þetta illa verk gjörði. Konungr mælti: ei vil ek þeirri bleyði[1]) upp hefja í vora föðurhefnd, at níðast á þeim, er saklausir eru, en koma þar engu til vegar, er þessi hefnd ætti niðr at koma. Ubbi mælti: gera muntu í því vilja drottningar at elska alla brœðr Rögnvalds, en drepa skal ek hvern sem ek nái. Konungr mælti; mikil von þikki mèr, attú ríðir eigi óhræddari fyrir þeim, enn þeir fyrir þèr, ok þurfir þú ekki um þat at berkja. Skildu þá at þessu

[1]) þannig D; óhlýðni, A, B, C.

sitt tal. Litlu síðar hverfr Aðalvarðr svo á brutt, at enginn vissi, hvat af honum varð. Vígvarðr ok Markvarðr voru kátir í kastalanum. Rögnvaldr var löngum hljóðr, því at hann vissi eigi, hvat leið um Aðalvarð bróður sinn. Hann kemr at máli við Matthildi systur sína, ok kvezt þat á öngvan veg nýta mega, at hann viti ei hvat orðit er af bróður sínum.

23. Nú kastar Matthildr fæð á Mágus, ok fann hann þat brátt, ok frètttir hana, hvat hún gefi honum at sök. Hún svarar: því spyrr þú at þessu, þar sem þú heldr engan skildaga, sem þú hefir brœðrum mínum heitit. ' Mágus segir: allan þikkist ek halda; þeir væru nú allir hèr komnir, ef ek hefða ráðit, ok skylda ek þá halda sem sjálfan mik; en nú vildu þeir sín ráð hafa; sýnist mèr þetta vera mesta vandamál, en þar mun þikkja, sem opt verði óvænt at hætta, áðr vèr komumst úr þessum vanda, sem vèr erum nú í komnir; mun ek annars útvegar fyrr leita, enn berjast um Aðalvarð, ef mín ráð skal at nokkru hafa, því at oss mun þungt veita, því brœðr þínir hafa ill málefni; en ef þú vilt nokkurt gagn gera brœðrum þínum, þá mun fleira við þurfa, enn kapp þeirra eitt saman ok þverúð þína. Er nú enn sem fyrr, at annathvort sè at mínum farit, elligar legg ek ekki til þessa máls; ok er þat mitt ráð, attú kallir hingat alla brœðr þína, ok vil ek vita alla þeirra ráðaætlan. Hún gjörði sem Mágus mælti. Ok er þeir komu þar, mælti Mágus: þat var næstum, Rögnvaldr, attú vildir ei, at ek fœri at sœkja brœðr þína, ok vildir þú fara, ok dugði þat illa; en nú skal vera annathvort, at þèr skulut fylgja mínu ráði, ella mun ek ekki til leggja, ok kjósit þèr allir saman. Rögnvaldr mælti: því skjótara skal kjósa, sem kostr er ójafnari, at vèr viljum öllum vanda bjóða yðr á hendi. Mágus kvað þikkja vel vert. Skulut þèr þá fara heim í kastala

yðvarn, ok bíða svo þess, er at hendi kemr. Þeir gjörðu sem Mágus bauð.

24. Ok ei miklu síðar fara þeir heiman Mágus ok Einarr frændi hans; þeir hafa þrjá hesta. Ríða þeir leið sína, þá sem vissu at skemmst var til Vernizuborgar. Ok einn dag talar Mágus við Einar frænda sinn: nú vil ek birta fyrir þèr mína ráðagjörð: ek ætla einn saman at fara til Vernizuborgar, en ek ætla at þú skyldir bíða mín utanborgar í skógi þessum, er skammt er frá borginni; komi ek ei aptr til þín, þá er þrjár nætr eru úti, þá skaltu fara heimleiðis; mun ek annathvort koma öngu til leiðar. [eðr ok mun verða einn um at leika[1]), ok þó með nokkrum brögðum. Einarr bað hann ráða, ok lèt hann til nokkurs vinnings líkast, ef hans ráð væri höfð. Ríða þeir nú, þar til er þeir koma nær borginni, svo at þangat var ei lengra enn 2 mílur; þeir voru þá komnir í skóg einn. Mágus biðr þá stíga af hestum sínum, ok svo gjöra þeir. Jarl biðr Einar ofan taka töskur þær, er á voru þeim hesti, er hann reið. Höfðu þeir í annarri tösku vistir sínar. Þá mælti jarl: þèr mun forvitni á, Einarr, hvat er í annarri töskunni. Jarl gengr til ok lyptir upp, ok dregr þar út úr mikla flegsu[2]); þat skrapaði allt utan af skeljum ok kufungum. Þá sá Einarr, at þetta var gjört svo sem ein hekla; hún var svo síð, ok hvergi opin, nema taka mátti út höndunum tveim megin. Hattr var upp af bæði mikill ok síðr fyrir; gríman hattarins var gjör ásjóna, hún var mjök ellilig, með löngu ok síðu skeggi; þat var hvítt af hærum sem dúfa; þessi ásjóna var sköllótt, ok hafði hrukkur margar á enni. Einarr mælti: herra, hví berit þèr með yðr þenna ófagnað? Jarl mælti: ei má vita, hvat til gagns má koma; en ef þú vilt vita, þá ætla ek í þessu klæði at ganga fyrir konung, því at ek vil ei

[1]) frá [ þannig D; eðr mun verða einum at leika, A, B, C.
[2]) flæksu, D.

vera kenndr. Síðan leggr hann af sèr vopnin ok tignarklæði þat, er hann bar dagliga, ok fèkk Einari til varðveizlu. Síðan vafði hann sína arma allt á hendr fram meðr fornum ok óvendiligum rakningum[1]); síðan steypir hann yfir sik þessum búningi, en þat var honum hældrep, svo ekki sá fœtr hans; þessi hekla var svo um búkinn allt niðr í fald, at hón var gjör á mynd sem ólpa eða loðkápa, þá er önnur rögg fèll ofan yfir aðra, en þessar röggvar voru af skeljum, önnurhver rögg var af kúskeljum, en önnurhver af hörpuskeljum, svo þykkt sett, at hver tók aðra, en um hettuna var gjör rögg af kufungum, en önnur af krákuskeljum; framan um andlitit á hettunni voru skillingar ok olbogaskeljar, en á strútnum var hlaðit humarklóm, ok skrapaði þat einna mest, er hann veik sèr nokkur; höfuðbúnaðr hans var svo þungr, at trautt mundu óstyrkir menn ganga með. Ok er jarl var kominn í þetta klæði, var hann allókenniligr, því at hann var áðr hinn tignligasti í viðbragði, en nú leizt hann hinn förumannligasti. Eptir þat tekr hann tvo stafi í hendr sèr. Karl var heldr rauðeygr til at sjá. Síðan er hann þóttist búinn sem hann vildi, biðr hann Einar vel lifa, ok stefnir svo sem leið liggr til Verniznborgar; þat var á einn hátíðaraptan; hann kom svo í borgina, sem konungr ok hirð var til kirkju gengin. Konungr hafði í hjá sèr marga ríka boðsmenn. Ubbi jarl var með konungi. Nú sem at aptanssöng var verit, heyrðu þeir mikla hundgá, svo at hverr geystist fram fyrir annan hundanna. Hirðmönnum var mikil forvitni á, at hverju hundarnir mundu geyja, en engi vildi brjóta boð konungs, en hverr sat um annan, ef út gengi. En þegar er sunginn var aptansöngr, hljóp hverr út, er við komst, ok þóttust þó allir of seinir. En er þeir komu út, sáu þeir í miðri hundaþrönginni sem væri ein skeljahrúga mikil. Er aptansólin skein á þetta,

[1]) ræmum, D.

þótti þeim undarligt, ok fóru svo nær, at þeir sáu, at þat var karl einn gamall, með allmiklu skeggi. Karl studdi bakinu við strætinu, en hann hafði á lopti stafina, ok barði til hundanna; en þegar hann vildi upp standa, ok hann hrœrði sik nokkur, þá hlóðust hundarnir svo þykkt á hann, at hann gat með öngu móti upp staðit. Hirðmönnum þótti þetta mjök mikit gaman, ok siguðu fast hundunum. Konungr kom í því út á strætit. Hann sèr karl, hvar hann húkir, ok gerir ýmist, at hann berr með stöfunum, stundum grípr hann upp hundana, ok kastar svo á brutt, at víst fjarri komu niðr. Meiddi hann suma, en suma deyddi hann með öllu. Konungi þótti gaman at karli, ok hló at sem aðrir. Ok er karl var í þessi umvèsun, getr hann at líta, hvar konungr var. Hann mælti þá: þat er þó satt, sem mælt er, at „fár er vamma varr"; eða hvort mun frá þessum konungi mest logit? Mèr var sagt, at hann væri svo hugagóðr, at hann mætti ekki aumt sjá, ok rákumst ek hingat af því, at ek ætlaða at hann mundi við hjálpa eymd minni ok elli, ok hefi ek þolat mikit vos, ok farit margar langar torfœrur, en nú angrar hann svo hug minn, at hann hlær at þí, er hundar vilja rífa mik í sundr, svo sem aðrir angrgapar, en þat líkast, at ek fái af honum hrakning fyrir hjálp, ok megi ek þetta flytja. þá er ek kem fyrir knè öðrum höfðingjum, ef hann lætr ei með öllu deyða mik. Nú er konungr heyrði orð hans, hvat hann talaði, mælti hann: þetta er víst illa gjört at erta karl, ok takit þèr hundana af honum, ok vitit þá, ef karl komist á fœtr. þeir gjörðu svo; ok fœrir karl undir sik stafina, ok getr þá stirtlat[1]) sèr á fœtr, ok var orðinn mjök móðr af þessi róstu. Hann gengr fyrir konung, ok kvaddi hann vel ok kurteisliga, svo sem hann hefði vana til ríkismenn at kveðja. Konungr tók vel kveðju hans, ok spurði hann at nafni. Kárl mælti: þèr spyrit ófróð-

[1]) stritat, D.

liga, er þèr spyrìt nafns míns, því at svo em ek gamall maðr, at ek man alls ekki til, hvert nafn ek hafða, en þess þurfit þèr ekki at spyrja, hvat mitt nafn er nú kallat, því at þat máttu gjörla skynja, þegar þèr sjáit minn búnað, því at ek heiti ok Skeljakarl. Konungr mælti: þú munt vera maðr gamall, ok munt kunna margar frásagnir; eða með hverjum ríkismönnum hefir þú verit? Karl mælti: herra, hvar námut þèr þann sið at spyrja mann tíðinda, fyrr enn at bjóða mönnum mat ok drykk? nú mun ek segja yðr, herra, at engar frásagnir mun ek fyrir yðr tjá, fyrr enn ek fæ mat ok drykk, en færra munut þèr kunna at spyrja, enn ek kann at leysa úr; hefi ek ok opt talat við ríkismenn, en stundum leikit fyrir þeim einstaka gamanleika. Nú eru, herra, tveir kostir af minni hendi: vilìt þèr leyfa mèr, at ek fari inn í hall yðra, þá megit þèr spyrja þess, er þèr vilìt; ef yðr þikkir mikit gaman at smáleikum mínum, þá skulu þeir til reiðu, en elligar mun ek leita burt af borginni, ok flytja þá þat sem satt er, at öngvan fann ek svo vesalan, at mèr synjaði vetrvistar. Ubbi mælti: aldri heyrða ek fyrr jafnkyndugan karl í orðum sínum, sem þenna, ok mun því betr, at hann ferr lengra á brutt. Skeljakarl mælti: hvat heitir þessi maðr, er mèr sneiðir svo í orðum? ok verit mundi hafa minna daga, at öll þín atköst hefði ek launat þèr ótæpiliga. Ubbi svarar: ek vil eigi leyna þik nafni mínu, ok heiti ek Ubbi; ek em einn jarl, ok ræð ek fyrir Spíransborg, hingat kominn at boði konungs, ok em ek hans fóstri, ok held ek öll ráð með honum. Skeljakarl mælti: þèr mun meir gefit ragspeki, enn risna, ok þat mun mælt, at sá festi sitt ráð mjök við hundshala, er þangat leitar ráða, sem þú ert, því at þú munt þau ein ráð til leggja, at þá mun verr enn áðr. Jarl mælti: heyr hèr til endima, attú smár oss í orðum, ok skaltu fyrir þat hafa gilda refsing. Skeljakarl mælti:

greypiliga[1]) lætr greyit jafnan, ok er þat þó illt at reyna. Konungr mælti: þat sè ek, at þèr mun lítill vinningr at skattyrðast við karl þenna, því at hann vægir lítt valdinu, ok er þat mín tillaga, at karl í hall með oss fari, ok sýni oss svo gamanleika sína. Ok er karl heyrði þetta, fèll hann fast á sínar hœkjur; hann var bjúgr mjök í lendum, en keikr í hálsi; hann stumrar þegar til hallar. Hirð öll hló at honum ok at búnaði hans. Ok er hann kemr í höllina, kastar hann sèr niðr í hálm, þar sem aðrir stafkarlar voru. Konungr gekk til hallar með hirð sína. Síðan voru borð sett fram, ok vist á borin. Ok er menn höfðu nokkra stund etit ok drukkit, tekr skeljakarl stafi sína, ok berr á tvær hendr aðra stafkarla. Þeir taka nú í móti honum, ok verðr nú mikit hark í höllinni. Hlaupa nú til borðsveinar, þeir sem þjónuðu, at skilja þá. Skeljakarl fór á hœkjur sínar, ok ferr innar fyrir hásæti konungs. Hann mælti þá: litla gleði fæ ek af því, þótt ek sè kominn í þína hall, því at ek fæ hvortki mat nè drykk, en stafkarlar hafa stolit frá mèr þí enu litla silfri, er ek átti, en barit sjálfan mik. Konungr mælti: er eigi hitt, karl, attú berìr á öðrum, ok þú valdir þessi róstu? Skeljakarl mælti: verit mundi þat hafa minna daga, at ek mundi láta þeim verða gaman lítit at stela frá mèr, eðr gjöra mèr aðrar ónáðir, en nú geld ek þess jafnan, at mik gjörir hruman af elli; verð ek nú þat þola, þat er ek munda ei, ef ek væri yngri, ok vilda ek nú, herra, ei vera hjá þessum þorpörum; vil ek því biðja þik, attú leyfðir at ek lægi í hálmi hèr fyrir knjám þèr, því at ek má ei vera hjá leiðum stafkörlum fyrir þeirra ódygðum. Konungr mælti: róstumaðr mikill þikki mèr þú vera, en hví skaltu hèr ei vera, ef þú er hèr betr siðaðr. Sezt karl þá niðr. Litlu síðar tók karl í skikkjuskaut konungs ok togaði. Hann mælti þá: litla rausn

[1]) greppiliga, A, B.

má sjá í hall yðvarri, er þú lætr gamla veslinga liggja hungraða í hall þinni fyrir knjám þèr, ok ei gjörðu svo hinir fyrri konungar, at þeir lèti mik þurfa at snikja svo lengi eptir þeirri ölmusu, er ek skyldi hafa. Konungr mælti: hafa þjónustumenn vorir ekki gefit þèr at eta? Skeljakarl mælti: yðrir borðsveinar gjöra mèr illt, en eigi gott; þeir hlæja ok gabba at mèr ok mínum búnaði, ok þat sè ek gjörla, at ek fæ hèr ekki gott, utan þú gefir mèr af þeim krásum, sem yðr eru matbúnar. Konungr mælti: framfœrinn karl ertu, ok skal ek svo gjöra, sem þú biðr. Skeljakarl mælti: 'sá verðr at biðja, er bjóðendr á fá'.[1]) Konungr tók einn silfrdisk með fríðum matbúnaði, ok rèttir at karli. Hann tók við báðum höndum, ok hèlt upp yfir höfuð sèr, ok sezt síðan til matar, [ok fór at vel ok kurteisliga. Konungr mælti: sèt muntu fyrr hafa ríka menn, svo ferr þú með þínu athœfi. Skutilsveinn[2]) bar eitt stórt ker með gulli gjört at keisara. Skeljakarl mælti: lítinn hátt muntu kunna at þjóna, er þú gefr konungi fyrr at drekka, enn mèr, þar sem hann hefir áðr drukkit í kveld mörg ker, en ek ekki; hverr kenndi þèr þessa hœvesku,[3]) þar sem hann hefir tekit mik í sitt mötuneyti, svo at vit erum tveir at einum diski; hugða ek þat, ef þú kynnir nokkut at þjóna, attú ættir fyrst at gefa mèr jafnmörg kèr at drekka einum saman, sem konungr hefir áðr drukkit, en æ sitt ker hvorum okkrum þaðan frá, svo lengi sem hann vildi sitja, ok þikki mèr þá mikil von, at ek gangi þá óþyrstr af þessu húsi. Konungr brosti at orðum karls ok mælti: skil ek þat, karl, attú munt hafa verit nokkurn tíma at borði með dýrum höfoingjum, ok skulu vit drekka [kveldlangt sem

[1]) þannig D; í staðinn fyrir: á fá hafa hin handritin: fær.
[2]) frá [ þannig D; hin handritin hafa einungis: ok skutilsveinn.
[3]) óhœversku, D.

þú skipar.[1]) Hann bað skutilsveininn fá karli kerit. Hann gjörði svo. Karl drakk af í einu, ok gekk þat langa stund. Karl tók þá til orða: nú gjörumst ek vel mettr ok drukkinn, ok nú ef þèr vilit nokkurra hluta af oss frètta, þá megit þèr með gleði ok góðu samsæti skemmtan af fá, því at nú em ek búinn at leysa yðrar spurnir með kátligum keskimálum.

25. Konungr tók þá til orða: þú munt vera maðr gamall, ok muna margar frásagnir. Karl mælti: þat sagði ek þèr, herra, at ek var til reiðu at svara orðum yðrum ei sem einn þorpari liggjandi á gólfi, heldr hafa höfðingjar þeir, sem mik hafa vísinda frètt, ok af mèr viljat fá eðr heyra frèttir, sett mik á stól, ok búit um mik hœgliga[2]), svo at ek mætti vel líta á báða bekki, ok skynja yfirbragð manna. Konungi þótti gaman at hverju orði, því er karl mælti, ok lèt öllu haga sem hann vildi. Var nú drukkit fast, ok kneyfði skeljakarl hvert ker, sem at honum kom. Konungr mælti: þú munt verit hafa drykkjumaðr, þá er þú vart ungr. Karl mælti: rètt segi þèr þat, herra, en þeir einir eru hèr inni, at vel mundi mèr þat endast at þreyta bæði þat ok annat við þá, er mèr var sem lèttast um, en nú er ekki eptir [minna náttúrubragða[3]), utan orðaskrap ok augabragð, ef ek hugsa dyggleika manna, svo hefir ellin fyrirkomit mèr. Konungr mælti: ertu spámaðr, skeljakarl? Hann mælti: engan spádóm kalla ek þat, þó at ek geti nærri hreysti manna eðr drengskap, því at slíka hluti má ek marka af líkamsvexti eðr ásjónu, hvern veg sem er. Hirðmenn hlupu upp með hlátri, ok talaði hverr við annan: hvat mun karl segja um mína hreysti eðr vaskleik? Nú var mikill hlátr í höllinni, er hverr gabbaði á annan. Konungr var ungr, ok þótti

[1]) frá [ þannig D; í kveld svo lengi sem þú vilt, ok þú skipar, A, B, C. [2]) hógliga, D. [3]) frá [ þannig D; nema náttúrubragð á, A, B, C.

honum þetta hit mesta gaman. Skeljakarl gjörðist nú drukkinn ok ólatari til orða, ok hirti ei, þótt hlegit væri. Konungr mælti: þú munt víða hafa farit ríkja[1]) í milli, ok fyrir margan göfgan mann hafa komit, eðr frá hverjum höfðingjum kanntu oss at segja, eða hverir hafa mest tal haldit af þínum vísindum? Skeljakarl klökk[2]) þá, ok strauk ennit ok augun með hendi sèr, ok mælti: mikinn harm vekit þèr mèr, er þèr talit til hinna fyrri öldunga, þeirra er ek hefi til komit, því at þat má rètt segja, at þeir sem nú bera tignarnöfn, mega at rèttu svínfætr kallast hjá hinum fyrrum höfðingjum, ok er grátligt á at minnast [alla saman hörfan[3]) heimsins, einna mest á þat, er fyrst voru valdir til stjórnar hraustir menn ok hugprúðir, vitrir ok vel siðugir, en nú er hver skræfa tekin til valdsmanna, þegar er ríkr at fè, svo sem þèr, herra, skipit sumum jarlsstètt, sumum riddarastètt, eðr ýmsar þjónustur, þeir sem at rèttu mættu þorparar heita, ok öngvan fagnað kunna; en þar sem þú spurðir, hvort nokkurr hefði mark hent[4]) at mínum frásögnum, þá má ek þat ei á lítilli stundu greina, því at ek hefi náliga kannat öll Norðrlönd hingat ok norðrálfu heimsins, ok prófat hirð ok kempur margar. Ek fann Hrólf konung kraka áðr hann fór til Svíþjóðar, ok þar hafði hann ei fleiri menn með sèr til Uppsala, er hann sótti heim Aðils konung mág sinn, enn berserki sína, at ek sagði honum, at annat lið hans mundi illt í raun at fœra. Ek prófaða ok lið[5]) Haralds hilditannar, áðr hann barðist á Brávelli, ok fór þar sem mik varði, at hann hafði fáeina fullhuga með sèr, enda var þar við illan at eiga, því at Óðinn[6]) slóst í lið með Hringi kon-

---

[1]) ríkra, A, B, C. [2]) klaukk (=klökk = klökknaði), D; blauk, A, B; C sleppir því. [3]) frá [ D; alla höfðingja, A, B, C. [4]) D; markat heit, A, B; markat hátt, C. [5]) D; til, A, B, C. [6]) D; margr, A, B; í C er eyða fyrir 1 eða 2 orð.

ungi. Ek kom í herbúðir Agúlandus konungs ok Jámunds sonar hans, ok sagða ek þeim báðum, at þeir mundu báðir falla; ok því at þeir báðir voru afburðar hreystimenn, þótti þeim ólíkligt, at nokkurr mundi þá sigra; urðu þeir ok meir yfirstignir, at því sem ek ætla, með guðs láni,[1]) en ei fyrir þann mun, at ei væri þeir yfir flesta menn at hug ok hreysti. Ek kom ok síðan í höll Karlamagnús keisara, ok leit ek hans hirð alla, ok mætti mèr af slíku gjöra miklar frásagnir, því at hann hafði valdari kempur með sèr, enn aðrir menn, en sjálfr styrktr af guði, ok þar hefi ek svo komit, at ek sá hirðlið prúðast, ok mèr leizt at þat væri ósigranda, ef við jafnliða ætti at berjast. En þat fór, sem ek sagði konungi, at hans hirðprýði mundi aldri sigrast, utan með svikum. Ok því at ek þikkjumst hann fremstan konung sèt hafa, ok hans hirðsiðu, því berr ek þetta hvíta skegg í minning þess skeggs, er hann bar, ok man ek svo orði á lúka, at hans yfirbragð var langt um fram aðra höfðingja. Nú fór þat at getu minni, at Rollant, systurson hans, varð unninn ok margir aðrir jafningjar með vèl ok prettum. En nú vil ek segja yðr, herra, at marga konunga ok þeirra ríki hefi ek sèt ok kannat, ok vil ek ekki mœða tungu mína at segja frá þeim, er mèr þikkir öngrar frásagnar verðir, en nú er til reiðu, sem ek hefi áðr sagt, at ek renni augum yfir hirð þína, ok má ek yðr með sönnu segja, hvert traust er þú mátt á þinni hirð hafa; en þat vil ek, attú skipir í öndvegi á báða bekki, þeim er þú trúir bezt ok þèr þikkja mest háttar, ok skipa svo öðrum síðan at mannvirðingu þar út í frá. Konungr lèzt svo gjöra mundu, ok mælti: þú, Ubbi jarl, skalt sitja annat öndvegi, en annat þeir Sveinn ok Helgi, því at þeim trúi ek öllum vel; vil ek þat nú kunnigt gjöra öllum, at ek vil, at allir taki með gamni

[1]) af (með, C) guðs boði, C, D.

orð karls, þó at hann tali nokkut tvíslætt,[1]) því at mèr gengr meir til þessa leikr, enn ek trúi svo mjök á spásögur hans. Karl mælti: ek skal gera raun orða minna, ok má þá vera, at þèr leggit meiri trúnað á. Margir voru fúsir at heyra, hvat karl hefði í leikum, ok vildu gjarna sjá; þótti hverjum gott at heyra, ef öðrum væri ámælt.[2])

26. Sem hirðin var öll í sæti komin, þeir sem konungr bauð, stendr skeljakarl upp, studdr á hækjur, en glamraði mjök búnaði sínum: hann leggr niðr stafina fyrir fætr sèr; hann strýkr tveim höndum skalla sinn, síðan greiðir hann skegg sitt ok strýkr þat, ok lætr þat falla um alla bringu sèr, eptir þat hristir hann höfuðit nokkrum sinnum, ok varð af því mikit skrap. Þá tók konungr at hlæja ok öll hirðin. Hann gaf sèr ekki at því. Síðan tók karl annan staf í hönd sèr, en annarri hendi hèlt hann fyrir augu sèr; hann stiklar[3]) nú sem köttr með öðrum bekk utar, en öðrum innar; hann veifði stafnum annat skeið yfir höfuð mönnum, ok kvað lágt fyrir munni sèr:

Ek hefi vísindi
víst í brjósti
meiri miklu,
enn menn vita.
Sè ek, hvar húkir
hirð á bekkjum,
hjartadeigir,
ef herja skal.

At þessu varð mikill hlátr. Enn gengr karl í annat sinn með sama hætti um höllina, ok kveðr enn lágt fyrir munni sèr:

Sè ek hvar sitja
Sveinn ok Helgi;
þeir eru rógberar,
rekka á millum:

[1]) tvíslètt, D. [2]) D; varð nokkut á, A, B, C, í staðinn fyrir 2 síðustu orðin. [3]) stillir, C, D.

þykjast garpar
í gamanmálum,
[eru löskvir tveir
lymsku drengir.[1])

Nú er hlegit hálfu meir. Enn gengr karl í þriðja sinni fyrir hvern mann í höllinni, ok kveðr enn lágt fyrir munni sèr:

Veit ek í öndvegi
öðru sitja,
sá er í ráðum
reyndr at illu:
rigar þú í rúmi[2])
ragr ertu, Ubbi;
þèr er verst gefit
þat þik varðar mestu.

Nú var ei hlegit at eins, því at náliga mátti svo at kveða, at öll hirðin œpti með hlátri langa stund. Var karl þá kominn fyrir hásæti konungs. Ubbi vildi taka til vopna, ok mælti: mikil skömm er þetta, ef vèr skulum þola karli þessum hróp ok ámæli, ok skulum vit báðir ekki lengr í höllinni. Konungr mælti: ekki þurfi þèr at erta karl þenna, því at frið skal hann hafa í höll vorri, ok er þat ódrengiligt at gjöra honum nokkra svívirðu, svo gamall sem hann er. Karl mælti: ei þarftu Ubbi við mik at heitast, því at hèr munu allir illa rann gefa, ef konungr þarf nokkurrar fylgdar, en öngvir verr, enn Sveinn ok Helgi, ok þú, Ubbi, munt þó verst duga, sem þèr er vandast um, ok konungr hefir mest traust á þinni fylgd. Ubbi mælti: ek vildi at nú í stað mætti reyna mína fylgd við konung, ok skylda ek leggja mitt líf í hættu fyrir konung. Karl mælti: „er-at hlunns vant, kvað refr, [dró hörpu at ísi.“ [3]) Kon-

[1]) frá [ þannig D; en eru lostugir, ok lymsku drjúgir, A, B, C. [2]) í staðinn fyrir í rúmi hefur A og B: írung. [3]) frá [ D; um hörpu missi, A, B, C, rangt.

ungr mælti: ómæt látum vèr ómagaorð, þar sem skeljakarl er. Ubbi mælti: má skítkarl þinn gjöra nokkra tilraun vors trúnaðar, þá gjör þú, ef þú þorir. Karl mælti: ei er örvænt, ef konungr lofar, at ek mega gjöra eina litla tilraun. Konungr mælti: þat er mín tillaga, Ubbi, at ekki biðir þú þessa svo mjök, því at þat er satt sem mælt er, at „margt er þat í húsi karls, er ei er í konungs ranni"; má ok vera, at karl þessi hafi fleiri brögð, enn vèr ætlum, en illt er illa raun at sýna. Ubbi mælti: sè ek nú, herra, at þú leggr næsta átrúnað við karl þenna, ok hans hrópan, ok vilda ek því nú gjarna gefa mèr raun. Skeljakarl mælti: „skömm hundum, skitu refar í [brunn karls[1])". Konungr mælti: aldri mun þèr, jarl, verða vinningr í þessu, ok vil ek samþykkja at karl freisti, ef þèr þikkir einsætt. Ubbi kvazt þat gjarna vilja; hirðin bað ok öll, at skeljakarl sýndi þeim nokkra leika. Ok at fengnu orlofi af konungi, ferr skeljakarl á mitt hallargólf, ok heykist þar niðr, ok fœrir knèn upp hjá eyrunum, ok þylr í gaupnir sèr. Þá mælti Ubbi: illr karl ertu, ok kannt ekki at leika, ok hefir þú gabbat alla þá, er inni eru, ok skal þik út reka skjótt, því at þú vildir nú at öngvu verða fyrir þá lygi, er þú hefir at konungi logit. Konungr mælti: bíð þú enn vel, Ubbi, þíns hlutar, þótt karl sè eigi jafnskjótt búinn, eðr svo fljótr í leikum, sem þá hann var ungr. Skeljakarl lèt sem hann heyrði ekki hvat talat var, ok þuldi niðr í gaupnir sèr.

27. Ok er minnst varir, sprettr karl á fœtr sem hann væri ungr orðinn. Hann vindr undan heklu sinni einum tálknsprota svo skjótt, at varla mátti auga á festa. Hann hleypr framan at öndveginu, þar sem Ubbi sat, ok lýstr sprotanum á hallarveggin at baki honum; var þetta högg svo skjallt, at öllum þótti undr, þeim sem heyrðu. Ok þegar í stað skýzt karl um þvert gólfit, ok lýstr

[1]) frá [ D; brunna, A, B, C.

sprotanum á hallarvegginn at baki þeim Sveini og Helga; varð þat högg at öngu óskjallara. Urðu þeir þegar felmsfullir, því at hèr bar til undarliga, at hvorutveggi hallarveggrinn fèll inn í höllina um margar álnir, þar sem karl hafði á lostit; því fylgdi undarligr hlutr, því at í hvorumtveggja stað fèll ok geystist inn ógurligr foss með stríðu vatnsfalli, svo at skjótt fyllti höllina; hèr með fylgdi fáheyrðr hlutr, því at inn um hvorutveggja forsinn renndu mörg herskip; þeir menn, sem á voru, höfðu bjarta hjálma, brugðin sverð ok stinna skjöldu; hèr fara hverir í mót öðrum; þeir hefja sinn bardaga með stórum höggum ok sterkum atlögum, svo at hèr af varð mikit glamm. Ok er Ubbi jarl sèr þetta, kallar hann hárri röddu: ek bið alla menn undan flýja. Þat sèr hann, at skeljakarl er kominn upp í hásætit at baki konungi, og heldr báðum höndum um herðar honum, ok biðr at konungr hjálpi honum fyrir guðs sakir. Svo er skeljakarl hræddr, at honum sýnist konungr skjálfa á beinum. Konungr mátti hvergi hræra sik fyrir þessum sama þunga, er skeljakarl lá á herðum honum. Konungr kallar nú hátt á Ubba jarl ok Svein ok Helga, ok bað þá til fara ok duga sèr: ok takit af mèr meinvætti þessa, er ek má mik hvergi hræra fyrir. Ubbi mælti ok þeir bræðr báðir sem einni tungu: hvat munu vèr, herra, þèr duga, er vèr getum ei borgit oss sjálfum; er þat ok ekki at borgnara, þótt vèr deyjum hèr allir í þessum háska. Síðan kallar Ubbi jarl á þá bræðr ok mælti: gjörum vèr fyrir guðs sakir, ok leggjumst á brutt, ok vitum, ef vèr náum hallardyrum, ok hjálpum svo lífi voru. Kastar Ubbi sèr nú fyrst til sunds, ok leggst á brutt, ok þeir bræðr þegar eptir honum, ok þar eptir hverr at öðrum hirðmanna. Ubbi jarl, ok allir sem honum fylgdu, hlupu upp í þau herbergi, er voru í hæstum turnum borgarinnar, því at þeim sýndist allr staðrinn fullr af vatni, ok hvert þat hús, er í borginni var, ok ei voru á

hinum hæstum turnum, þá sýndist þeim allt í kafi; þat fylgdi ok hèr með, at þann sama skipaher, er þeir sáu í höllinni, þá sýndist þeim því meiri þessi bardagi, sem rúmit var meira í borginni; er nú miklu meiri skipafjöldi, enn áðr. Þar máttu þeir sjá mörg stór högg, er hverr klauf annan í herðar niðr; sumir hálshjuggust, svo at höfuðin hrutu langt í brutt. Eitt þótti þeim þó undarligast, at þeir börðust ákafliga ok hjuggu sem einna mest, sem höfuðlausir voru; engi var svo klofinn í herðar niðr, eða með hverju móti er hann var særðr, at þá börðust allir sem hraustligast. Ubbi jarl mælti: ei má [ ek skynja[1]), hverjum kynjum sætir[2]) þessi bardagi, en þat veit ek, at aldri á æfi minni hefi ek orðit svo óttafullr, ok er þat mitt ráð, at vèr lúkum aptr þessi herbergi öll, svo at engi maðr sjái út, þar til er dagr er ljóss, ok vita þá, ef þessi ódœmi[3]) væri þá horfin. Þetta þótti öllum þjóðráð, ok gerðu svo sem jarl beiddi, ok voru nú mjök óttafengnir.

28. Nú er at segja frá konungi, at hann sèr, at allir menn eru í bruttu úr höllinni frá honum, nema skeljakarl einn. Hann tekr til orða: hvat er nú til ráða? Skeljakarl mælti: þat þikki mèr, herra, ráðligast, attú standir á hrygg mèr, en ek mun standa á knjám ok á höndum, ok [ munu þèr þó votir[4]) verða, en ei skiptir, hvat illt er ek þoli, því at ek hefi opt verit í miklu vosi; munu þeir Ubbi jarl, Sveinn ok Helgi skjótt koma at hjálpa þèr til sængr þinnar. Konungr mælti: þat ætla ek, karl, at mèr verði sein þeirra þjónusta í kveld. Karl mælti: hví mun þat sæta, eðr er nokkut sem mèr sýnist, at þeir sè á bruttu? en svo em ek óskyggn, at ei má marka, hversu mèr sýnist. Konungr mælti: víst lízt þèr þá rètt, at þeir eru á bruttu, ok hvert mannsbarn

[1]) frá [ D; enn skýra, A, B, C. [2]) C, D; hèr er, A, B. [3]) D; ódaunn, A, B, C. [4]) frá [ D; mun þèr þetta lèttir verða, A, B; mun þèr þá, og svo kemur lítil eyða, C.

annat, svo at vit erum tveir einir eptir í höllinni, en hana fyllir alla með vatni, því at báðir hafa fallit hallarveggirnir. Skeljakarl mælti: mikit er at bíða ellina, er maðr skal svo óskyggn vera, at hann sèr ei, hvat um er at vera[1]); hefi ek einatt ætlat, at reykr mundi í höllinni, en þar mun reyndar þetta hit mikla vatn, er þèr segit frá; hugða ek, at því munda ek öngvan mann sjá, at þykkr reykr mundi valda. Konungr mælti: líttu ekki á þat, karl minn, ok mun skjótt þurfa til ráða at taka, ef hlýða skal. Karl mælti: þá þikki mèr líkast, at vit tökum til sunds, ok tökum þat ráð sem aðrir, ok vita, ef vit komumst með sundi á burt, ok í þessa höll hefði ek aldri komit, ef ek hefði þat vitat, at þèr vildut drekkja mèr; mun ek nú svo þungr á mèr, bæði af elli ok þungum búnaði, at ek veit, at heðan kem ek aldri lifandi, nema þèr hjálpit mèr. Konungr mælti: til sunds mun ek leita, ok svo bað hann skeljakarl gjöra; en ekki kvikindi þóttist konungr hafa sèt fara ófimligar at sundi, enn skeljakarl, því at hann barði bæði höndum ok fótum, svo at konungi þótti allt hvítfyssa, er í nánd var, en honum kleif hvergi áfram; stundum hrauð upp úr honum miklu vatni, er hann hafði drukkit, at honum þótti þá fádœmi, er hann hafði eigi sprungit. Einn hlut undraði konung mjök, at hann hafði aldri svá á sundi verit, at [ honum hefði jafnerfitt veitt[2]), því at æ jafnan, er hann [ dreifði vatninu[3]) með höndunum ok fótum, þóttist hann kenna, at urð var undir knjám honum ok olbogum; þat fylgdi ok, at hann fann eigi dyrr á höllinni, ok kom ávallt niðr innar fyrir hásæti, ok veitti honum mjök erfitt sundit. Skeljakarl var jafnan skammt frá konungi; hans sund var því líkast sem þá hundr er vitlauss, ok hann er

[1]) þessum tveimur orðum er bætt inn í eptir D. [2]) frá [ D; hann hefði jafnvotr verit, A, B, C, rangt. [3]) frá [ drap vörrinn, D.

kaffœrðr. Hann mælti: herra minn, hvat veldr, at vit komumst hvergi úr höllinni? Konungr mælti: ei má ek þat skilja, hvat því veldr, en hitt veit ek, at aldri hefir mèr sund veitt jamerfitt, því at ek sè gjörla, at þetta má mèr litla stund hlýða. Skeljakarl mælti: ei mun þat skipta, herra, þótt þèr verðit nokkut móðir, þar sem Ubbi jarl fylgir yðr svo vel, ok þeir brœðr. Konungr mælti: gabba mik ei, karl, því at enga hjálp fæ ek af þeim í þetta sinn. Karl mælti: mun ei svo fara, herra, sem ek sagða, at þá mundi þeir verst duga, er mest lægi á, ok þat munu fáir ætla, at ek fátœkr ok ellibjúgr ölmusa[1]) mundi þèr betr fylgja enn þeir, því at mèr sýnist sem skræfur þær sè brutt skriðnar, ok er illt ódreng at elska. Konungr mælti: hvat má mèr at þèr gagn vera, þar sem þú getr eigi borgit sjálfum þèr. Karl mælti: vant er slíkt at sjá. Konungr mælti: fyrir guðs sakir, gjör at, ef þú mátt, því at þrotin von er, at nokkrir dugi mèr aðrir í þessum háska. Ok ei miklu síðar sèr konungr at karl er kominn þar, sem mest er fossfallit, ok lýstr niðr sprotanum á vatnit. Nú sýnist konungi undarliga, því þegar ríss upp veggrinn þar sem fallinn var, ok svo skjótt ferr hann í lag, sem hann hefði aldri sprungit, ok svo fór hann við hvorntveggja vegginn. Litlu síðar sá konungr, at höllin var þur, en skeljakarl stóð á miðju gólfi, ok mælti: herra, hvat vilit þèr nú at hafast? Konungr mælti: til svefns viljum vèr nú ganga; eða muntu nokkurn hressleika til hafa at fylgja mèr? Karl lèzt á þat hætta mundu; hefi ek opt verit með ríkum mönnum, þá er ei hefir annarra kostr verit. Gengr síðan konungr til skemmu þeirrar, er hann var vanr at sofa í, ok varð hann við öngva sína menn varr, því at allir höfðu svo orðit felmsfullir, at enginn treystist út at ganga, síðan þeir komust út úr höllinni. Sem kon-

[1]) ölmusi, D.

ungr var kominn í þat herbergi, sem hann var vanr at sofa í, ok skeljakarl með honum, mælti konungr: muntu nokkut kunna at þjóna oss til sængr? Karl mælti: á þat munum vit nú hætta, [við þat er Ubbi er ei[1]) kominn. Konungr mælti: gettu hans at engu. Afklæðist konungr nú, ok dró karl klæði af honum, ok svo þjónaði hann at öllu, sem hann hefði þat æfinliga gjört at þjóna ríkum mönnum. Konungr mælti: þjónat muntu fyrr hafa ríkum mönnum? Karl svarar: langt hefir nú síðan verit, ok nýt ek at þessu, herra, þíns lítilætis. Konungr stè þá upp í hvíluna; hann var í silkiskyrtu, ok hafði einn linda um sik, ok var þar á einn lykill; þat þóttist hann vita, at hann mundi þann lykil leyniliga varðveita. Hann vildi fá karli lykilinn, en hann vildi eigi við taka, ok mælti: drukkinn ertu nú, herra, ok skulut þèr varðveita þenna lykil, því at hann mun nokkut þat eiga at geyma, er þèr vilit einir varðveita. Konungr mælti: þú munt vera trúlyndr karl. Síðan kastaði hann lindanum á höfðalag sèr ok sofnaði brátt.

29. Skeljakarl gengr nú innar um herbergit; þar kemr hann, at hurð er felld í stokk, ok var hún læst. Hann bregðr enu sama tálkni undan heklu sinni, ok vindr í lokit, ok hraut þegar upp lásinn. Hann gengr í hús þetta; var þat af steini gjört, ok vel um búit. Þar var gjört eitt hásæti; þar hèkk uppi eitt tafl ágætt; þat hafði átt faðir konungs. Þar sá hann eina hvílu vel búna ok at öngu óvirðuligri, enn sú, er konungr svaf í. Hann brá upp forfalli[2]) ok sá, at þar lá maðr; hann var sofnaðr. Hann brá þá af sèr heklunni, ok var Mágus jarl þá auðkenndr; hann kenndi þann mann, er svaf, at þat var Aðalvarðr. Mágus tók þá hendi sinni á honum. Hann vaknaði ok mælti: hvat viltu nú, fóstri minn, eðr hefir þú nokkur tíðindi at segja? Mágus mælti: hèr er kominn

[1]) frá [D; fyrst U. er ei, C; svo er U., A, B. [2]) út á spássíunni stendur í D: fortjaldi.

Mágus, mágr þinn, en ei konungr. Aðalvarðr spurði: með hverjum hætti komtu hingat? Mágus segir honum af hit ljósasta. Aðalvarðr þakkaði honum, er hann hafði ekki mein gjört konungi, þótt hann hefði kost á átt. Mágus segir: ei vilda ek honum heldr gjöra mein, enn sjálfum mèr. Hve gott þikki þèr í þessu húsi? Aðalvarðr svarar: fyrir allra hluta sakir má mèr hèr gott þikkja, því at konungr sitr hèr löngum á daginn, ok teflir við mik jafnan, er hann hefir tóm til, ok segir mèr allt þat, er í nýjungu verðr; kvezt hann öngvan vorn brœðra eiga meins at kunna, utan Vígvarð. Mágus mælti: hvárt viltu nú heldr vera hèr hjá konungi, eðr fara heim til Rögnvalds bróður þíns? Aðalvarðr mælti: heldr vil ek fara til Rögnvalds, því at ek ann honum allra mest. Þá skulum vit nú búast, ok verða á bruttu. Þeir gjörðu svo Bjó Mágus um húsit sem áðr. Fara þeir þegar um nóttina út af borginni, allt þar til er þeir komu til móts við Einar; hann fagnar þeim vel. Síðan stíga þeir á hesta sína. Ríða nú þar til er þeir komu til Stransborgar. Fór Aðalvarðr í kastalann til brœðra sinna. Þeir fögnuðu honum vel, ok kváðu Mágus hafa vel farit, ok voru nú hinir kátustu. Matthildr hófupp alla blíðu við Mágus.

30. Nú er þar til at taka, at konungr vaknar um morguninn, ok hugsar nú, at hann hefði marga keski at segja fóstra sínum. Hann stendr upp, ok ferr til steinhússins; hann gengr inn í húsit ok at hvílunni; en er hann sá, at Aðalvarðr var í bruttu, þóttist hann nú vita, at þetta mundi verit hafa Mágus ok hans ráð. Hann lèt vera kyrrt, ok gerði ekki um, ok gekk til kirkju, ok var þar fátt manna. Nú er at segja frá því, at Ubbi jarl vaknar, ok þeir Sveinn ok Helgi, ok þóttust skammliga hafa orðit svívirðir af skeljakarli. Ubbi mælti: vèr skulum fara allir saman, ok taka þenna karl, áðr konungr verðr varr við, ok drepa hann, svo at sú fýla gabbi aldri

dugandi menn. þeir ganga nú um borgina, ok leita at karli, ok finna hann ei. þetta þótti þeim enn undarligt, því at þeir þóttust vita, at hann mundi skammt á brutt skriðinn sakir ófrœkleika; en þó finna þeir hann hvergi. Ubbi mælti: vèr skulum fara allir til móts við konung, ok skulum vèr allir falla til fóta honum, ok biðja af oss reiði. þeir taka nú þetta ráð, ok falla allir fram fyrir konung. Hann var mjök reiðr, ok var búit, at þeir mundu allir skemmdir, en öngum var hann þó reiðari, enn Ubba; sagði, at sá mundi sannast frá honum herma, er verst talaði við hann. Ubbi lèzt betr mundu reynast. En þar kom þó, at konungr gaf þeim upp þessa sök. Er nú allt kyrrt. Ferr Ubbi jarl heim í Spíransborg. Litlu síðar kemr sú frètt til Ubba, at þeir brœðr eru komnir í þenna sterka kastala, er Mágus hafði gjöra látit: þat frèttir hann ok, at Aðalvarðr er þar kominn heill til brœðra sinna, ok þar með, at þeir skyldu aldri ganga eðr ríða út af kastalanum, nema þeir heyrði blásit í lúðr þann, er Mágus átti. Ubbi liggr nú löngum andvaka um þat, hversu hann skyldi lokka þá af kastalanum.

31. þat var eitt kveld[1]), er hann reið heim at borg sinni af skógi einn saman, er hann fór af dýraveiðum, sèr hann fram fyrir sik einn dverg, er hann gekk frá steini eptir vatni. Sem Ubbi leit hann, hleypr hann af hesti sínum, ok fyrir steininn, svo at dvergrinn náði eigi sínu herbergi. Hann tekr dverginn höndum, ok mælti: þat er vel, er ek hefi þik tekit; þú skalt fara með mèr heim í borgina Spíram., Dvergrinn mælti: ekki hœli ek þí, þóttú hafir fengit vald á mèr, ok ekki mun þèr þat til vinnings verða at flytja mik frá heimili mínu, því at mikil von þikki mèr, at lítit smíði ek þèr, eðr gjöri ek þèr annat til gagns, ef ek má ei við hjálpa hyski mínu; en ef þú vilt, at ek nái heimili mínu, þá má vera, at ek

1) í staðinn fyrir eitt kveld hefur D: á síðkveldi.

verði þèr at nokkru liði[1]) í mínum handaverkum. Ubbi mælti: heldr vil ek gefa þèr upp þín hýbýli, ok smíðir þú við góðan hug þat sem ek beiði. Dvergrinn mælti: hvers beiðist þú? Ubbi segir: ek vil attú gjörir mèr einn lúðr samhljóða við þann, er Mágus á. Dvergrinn mælti: þat má ek vel gjöra, því at ek hefir hans lúðr gjörvan; ok skaltu vitja þessa smíðis er þrjár nætr eru liðnar. Síðan lèt Ubbi lausan dverginn, ok ferr nú heim. Dvergrinn varð þessu allfeginn. Ok er þessar þrjár nætr eru liðnar, ferr Ubbi at finna dverg. Ok er hann kemr at steininum, verðr hann ekki varr við dverginn. Hann klappar á steininn; ok ei miklu síðar opnast steinninn, ok gengr dvergr at dyrum. Hann mælti: ei þarftu, jarl, at berja á hýbýli mín, ok hræða svo börn mín, því at þar at eins munum vit koma, at ek mun betr halda minn trúnað, enn þú; en nú mun ek ei optar út ganga í greipr þèr[2]), ok mun ek hèðan fyrir mælast; en nú muntu taka við lúðri þessum, er ek hefi gjört. Hann rètti þá at honum lúðrinn, ok mælti: nú máttu blása í lúðr þenna, ok prófa rödd hans. Ubbi gjörði svo, ok mælti: aldri sá ek líkari lúðra. Dvergrinn mælti: nú munum vit skilja, ok lifi ek aldri [svo lengi[3]), at þú skulir fá vald á mèr. Síðan lýkst aptr steinninn; en Ubbi ríðr nú heim, ok þikkist vel leikit hafa. Hann ferr nú til móts við konung ok segir honum, hvat hann hafði at árnat: ok skaltu safna mönnum ei færum, enn þrim hundruðum, en ek skal fá önnur 3 hundruð með okkr; skulu fara báðir synir mínir, Erlingr ok Erlendr. Konungr lèt svo gjöra sem Ubbi sagði. En þat skulum vèr mest varast, at Mágus verði ei varr við, ok skulum vèr hvata ferðinni. þeir fara þar til er þeir koma[4]) í nánd kastala

---

1) getgáta; leiti, A, B, C; at þèr verði nokkurr lèttir at m. h., D. 2) þessum þrem síðustu orðum er bætt inn í eptir D. 3) frá [sá vesalingi, D. 4) þannig, C, D; eru, B; vantar í A.

þeirra brœðra. Konungr mælti þá: nú skal skipa[1]) liði, ok skaltu Ubbi fara á veginn milli kastalans ok Stransborgar með þrjú hundruð manna; ok ef þeir brœðr ríða út af kastalanum, ok verði varir við lið yðvart, ok ætli aptr í kastalann, þá skal ek með mínu liði koma á milli þeirra ok kastalans[2]), svo at þeir nái eigi þessu vígi. Ubbi jarl lèzt svo gjöra mundu. Mun ek, segir jarl, blása lúðrinum svo at á leið heyri til Stransborgar þessi lúðrblástr; er þá líkara, at þeir gruni síðr, ef þangat heyrir þetta hljóð.

32. Þeir brœðr eru nú glaðir í sínum kastala, ok ugga nú ekki at sèr. Þeir lögðust niðr á þessu kveldi mjök drukknir, ok sofnuðu fast. Sem morgna tók, vöknuðu þeir við þat, at lúðr gall hátt. Vígvarðr mælti: stöndum upp hvatliga, því at nú þarf Mágus manna við; er hann þess makligr, at vèr dugum honum vel. Rögnvaldr mælti: víst var í lúðr blásit, en þó blès Mágus eigi í þetta sinn, ok ef ek skyldi geta til, þá þeytti Ubbi lúðr þenna. Vígvarðr mælti: aldri hefi ek fundit hugleysi á þèr fyrr enn nú; skal ek fara, þóttú þorir ei. Vígvarðr tók vopn sín ok hest ok allar herfórur; bjóst sem til bardaga. Reið hann þá út af kastalanum, ok Markvarðr bróðir hans; en Aðalvarðr var eptir hjá Rögnvaldi. Þeir riðu alls út hálft annat hundrað, en helmingr liðs var eptir í kastalanum með Rögnvaldi. En er Vígvarðr var skammt kominn með liði sínu, þá kom fram merki Ubba. Vígvarðr mælti: nær hefir bróðir vorr getit, en þó mun ekki til saka, ok snúum aptr í kastalann. Ok er þeir snèru aptr, kemr í mót þeim merki keisara. Vígvarðr mælti: dugi nú hverr sem drengiligast, ok sœkjum þar at sem konungr er fyrir, ok mun hèr verða skjótt umskipti annathvort. Tekst þar bardagi. Konungr gekk vel fram, ok kvazt þá skyldu hefna föður síns: því at hèr munu

[1]) skipta, D. [2]) D; staðarins, A, B, C.

verða skjót umskipti, ef Rögnvaldr kemr ei til. þeir ríðast at konungr ok Markvarðr. Konungr lagði svo fast til hans, at hann fèll þegar af baki. Lèt konungr þegar taka hann ok varðveita.

33. Nú er at segja frá Rögnvaldi, þá er þeir brœðr voru riðnir út af kastalanum með sínu liði, bað hann alla taka vopn sín ok hesta út at ríða, ok fylgja bróður sínum: ei fyrir þann mun, at Mágus muni þurfa liðs við, en illt þikki mèr þat at heyra, at ek þori ei at fylgja brœðrum mínum, ef þeir þurfa liðs við, ok má vera, at Ubbi hafi gjört nokkurn prett, ok vili svo sitja um líf þeirra, ok mun þá betra til umráða, ef vèr erum allir saman. þeir gjörðu svo. Ok er þeir höfðu skamma stund riðit, sáu þeir þenna bardaga. Koma þeir konungi mjök í opna skjöldu. Rögnvaldr ríðr fram af mikilli hreysti, ok þar at, sem fyrir var Erlendr son Ubba, ok lagði til hans svo fast, at Erlendr fèll þegar af baki. Hann lætr þegar taka hann ok varðveita. Síðan höggr Rögnvaldr á tvær hendr, ok fellir marga menn; slíkt hit sama Vígvarðr bróðir hans. Ok er konungr sèr þetta, kallar hann á sína menn, ok biðr þá ei berjast: ok vil ek ei at lið mitt drepist niðr; en þat skal Rögnvaldr heyra mega ok Vígvarðr, at ek skal alla vega pína Aðalvarð, sem mèr kemr í hug. Rögnvaldr segir: vèr munum kunna at gjöra svo við Erlend. Ok skildu þeir at því. Fór konungr nú heim til Vernizuborgar, en þeir brœðr fara í kastala sinn. Mágus ávítaði þá brœðr mjök fyrir þetta: sagði at auðvelt mundi at drepa þá, ef þeir lèti Ubba ginna sik úr kastalanum. Líða nú stundir, ok er nú kyrrt allt. Ermenga drottning spurði konung, hve farizt hefði. Konungr lèt illa yfir: Rögnvaldr hefir drepit niðr margt lið mitt, en lamdi Erlend Ubba son ok tók hann, enda fèkk ek nát í móti Markvarði. En drottning mælti: þèr munut gjöra vel til hans eptir makligleikum; er hann einkis at

kunna[1]), því at þú átt allar sakir við Vígvarð. Konungr gaf sèr fátt[2]) at orðum hennar, ok gekk á brutt við svo búit. Litlu síðar hverfr Markvarðr á brutt, svo at engi vissi, hvat af honum varð. Þat var einn dag eptir bardagann, at Vígvarðr mælti: nú mun oss vel til gefa at skemmta oss í dag; mun mik ei skorta ráð til at pína Erlend á marga vega. Rögnvaldr mælti: annars staðar muntu verða at reyna ráðspeki þína, því at við Erlend skal ek at öllu vel gjöra, svo sem ek vil at konungr gjöri við Markvarð. Vígvarðr mælti: illa mun við hann gjört. Víss skal ek þess áðr verða, enn Erlendr fái nokkut illt af mèr, ok skal svo sitja ok standa sem hann vill. Vígvarði líkaði þetta illa, en allir vildu svo gjöra, sem Rögnvaldr vildi. Erlendr kunni sèr þat vel í nyt at fœra, ok sitr hann nú þar í góðu yfirlæti.

34. Þat var einn tíma, at Vígvarðr kom at máli við Matthildi systur sína, ok kvezt einkis njóta mega, fyrir því at hann vissi ei, hvat orðit var af Markvarði bróður hans: þikki mèr Mágus engi heit efna við oss brœðr. Matthildr kastar enn fæð á Mágus. Hann fann þat brátt, því at lengstum var blítt með þeim. Hann frètti, hví hún hefði fæð á honum. Hún svarar: því attú efnir engi heit við brœðr mína, þau er þú hèzt þeim, er þú leitar ekki eptir Markvarði. Mágus svarar: allt enda ek betr við brœðr þína, enn ek hefi lofat, en mèr ekki jamhœgt sem fyrr, því at konungr hefir áskynja orðit alls þess kyndugskapar, er ek gjörða, þá er ek sótta Aðalvarð, ok þarf ek ei þat at mèr taka, at mèr gangi þat optar, en ek vildi, at engi manndráp leiði af mèr, ok em ek því tregr at safna liði, enda ætla ek, at oss veiti öll skipti við konung þungliga[3]), þau er vèr skulum hamingju reyna, því at brœðr þínir hafa ill málefni. Hún mælti: ei þyrfti

1) D; A, B, C, kenna. [2]) bætt inn í. [3]) bætt inn í eptir B.

þeir þín at þessu, ef þetta lægi laust fyrir. Mágus mælti: mjök sækir þú þetta; sè ek at þú sparir mik ei til hrakfara. Hún mælti: ei er þat, herra, at ek vilda yðr týna, en ef þreyta skal, þikki mèr þú líkastr til hamingju. Mágus jarl mælti: nú mun enn fara sem fyrr, at ek mun við leita, at ek nái bróður þínum, ok þikki mèr lítil von, at ek komi því til leiðar; mun ek nú fara, ok Einarr frændi, at safna liði, en ek vil attú segir bræðrum þínum, at þeir sitì kyrrir, þar til ek gjöri þeim nokkur orð. Matthildr lèzt svo gjöra mundu. Skilja þau nú tal sitt, ok var hún nú en kátasta, ok vænti at Mágus mundi þessu fram koma.

35. Nú er at segja frá Mágus ok Einari; þeir ríða tveir saman út af Stransborg, ok ríða svo sem leið liggr til Vernizuborgar. Ok er þeir áttu þangat ei dagreið, mælti Einarr: ekki þikki mèr þú safna liði, sem þú lèzt, en ek vildi ei, attú sæir þat [1]) þínu ráði, attú ríðir í hendr úvinum þínum. Mágus mælti: ei vilda ek gjöra konungi illt; nú ætla ek, at í þessu þorpi, er fyrir oss er, skulir þú bíða, ok gjöra ei vart við þik, hvat manna þú ert, en ek ætla at leita heim til borgarinnar, því at "tveir eru í hættu hverri"; mun ek ekki á dag [kveða, nær ek kem [2]) á móts við þik, en ei mun ek skemr vera enn mánuð. Nú ferr Mágus leiðar sinnar, ok er ekki getit, at hann skipti búningi sínum. Hann kom í þann tíma, er konungr við hirð sína var til borðs genginn; en þeir er úti voru, sáu mann ganga at höllinni; þessi maðr var svo mikill vexti, at þeir þóttust engan slíkan [3]) sèt hafa; þessi maðr var mjök gamall, ok þó hraustr til at líta. Hann gekk at hallardyrum, ok beiðði orðlofs til inngöngu. Honum var þat lofat. Hann gekk fyrir konung, ok kvaddi hann kurteisliga. Konungr tók því vel, ok spurði hverr

1) at, C, D. 2) frá [D; koma, A, B, C. 3) bætt inn í eptir D.

hann væri. Hann sagðist Víðförull heita. Konungr mælti: þú ert maðr hraustligr, ok muntu þó vera mjök gamall. Víðförull svarar: herra, rètt segir þú þat, at ek em víst mjök gamall, en þó hefi ek verit miklu ellri, ok enn mætti þat skjótt til bera, at mèr væri ekki ellin at meini. Konungr mælti: hversu má þat vera, at þú hafir ellri verit, enn nú, eða svo hit sama, attú verðir yngri, enn nú ertu? Víðförull mælti: þat má ek vel fyrir yðr greina; ek hefi tysvar kastat ellibelg, ok orðit ungr í hvort sinn. Hirðin hljóp öll upp með hlátri, ok kváðu öngvan mann mundu svo djarfan, at slíkt mundi þora at tala með alvöru, ok segja svo dýrum höfðingja, sem konungr var. þá tók konungr til orða: segir þú þat, attú hafir tysvar ellibelg kastat? þat segi ek satt, herra, sagði Víðförull. Konungr mælti: ætlar þú enn at þat muni verða hit[1]) þriðja sinn? Víðförull mælti: víss em ek í því, at á þessum mánaði, er nú er kominn, mun ek ellibelg kasta, ok munu fáir einir dagar þar til. Konungr mælti: hve gamall maðr ertu vanr at verða, áðr þèr berr þetta til handa? Víðförull mælti: ei hefir þat við eina fjöl fellt verit; enn fyrsta tíma, er ek lèt minn ellibelg, hafði ek áðr lifat þrjú hundruð ára ok 30, ok þá, eptir er mèr hafði þetta til handa borit, var ek ei ellri enn þrítugr; voru mèr allir fimleikar, þeir sem ek hafði í æsku numit, þá svo hægir sem ek hefði ekki gamall orðit. Á þessum aldri mínum bar margt til tíðinda, þat er nú mundi þikkja vert mikillar frásagnar. Nú, herra, ef yðr er forvitni á at líta æsku mína, ok at sjá þat, er ek kasta ellibelgnum, þá megut þèr vísa mèr til sætis, ok mun ek bíða með hirð yðarri þá eina fá daga, er þar til eru, því at þat hefi ek jafnan gjört, þá er ek hefi fundit á mik, at þetta mundi til bera, þá hefi ek gjört sem nú, at ek hefir farit margar torfærur til þeirra höfðingja, er ek

1) D; í, hinar.

hefir spurn af at frægastir eru, því at þat byrjar, at slík eða önnur fáheyrð æfintýr sýnist í þeim stöðum, sem flestir sœkja til, ok mestr orðrómr má af fara. Konungr mælti: þat mun mikil skemmtan at heyra þær frásagnir, er þèr hefir fyrir augu borit. Víðförull mælti: engar frásagnir mun ek segja, hvortki þèr nè öðrum, fyrr enn mèr er fenginn sess, ok ek hefi setit þrjár nætr, því at þat hefir verit siðr hinna fyrri konunga at henda lítit tal af standanda stafkarli. Konungr mælti: vel segir þú, at þat er siðr vitra manna at hugsa sèr viðrkvæmilig orð ok úrlausnir þeirra hluta, sem fyrir ríkum mönnum skal segjast. Nú vil ek, attú sitir þar sem mœtist hirðmenn ok gestir. Víðförull mælti: vera skal ek hèr heldr öngva nótt, enn ek hafi þorpara sess; vil ek ei utar sitja, enn hjá yðrum öndvegismanni, ella geng ek veg minn. Hirðin hljóp upp öll með hlátri, ok báðu allir, at Víðförull hefði þann sess, er honum líkaði. Konungr bað þá ráða. Gekk Víðförull þá til öndvegis.

36. Vilhjálmr er nefndr öndvegismaðr konungs, ok var einn fremstr í ráði með konungi, annarr enn Ubbi, síðan er Úlfr fór burt. Vilhjálmr frètti margs, ok svo hirðin. Víðförull mælti: aldri hefi ek verit þræll þrælsins, ok skal enn svo vera; segi ek yðr engin frœði, ok skulit þèr þess gjalda, at þèr hafit minna numit enn ek. Vilhjálmr segir: [þóttú sèrt svo stoltr[1]), attú vilir mèr ekki segja, þá muntu segja vilja[2]) konungi. Víðförull mælti: ei þikki mèr [þat at sè eitt[3]) at eiga spakrœðu við hann, [eða þá aðra[4]), sem lítils eru verðir. En er Víðförull hafði dvalizt þar með hirðinni nokkrar nætr, lèt konungr kalla hann fyrir sik. Sem hann var kominn fyrir hásæti konungs, kvaddi hann konung vel, en konungr tók honum

1) frá [D; hvort ertu svo stolz, A, B, C. 2) bætt inn í eptir D. 3) frá [D; illt, A, B, C. 4) frá [D; heldr enn þá, A, B, C.

mjök vel. Konungr mælti: nú forvitnar oss af þèr at heyra fróðligar frásagnir, ok at sjá nokkra þína leika; eða ertu gamall maðr? Víðförull mælti: þar verði þèr grein úr taka, sem ek sagði, at þèr máttut heyra ena fyrstu elli mína; en ei nú heldr enn þá segi ek yðr fleira standandi; hefi ek ok fyrr meir setit hit næsta slíkum höfðingjum, sem þú ert, einkanliga þá er ek var vísinda frèttr. Konungr brosti at, ok kvað svo vera skyldu. Hann bað þá þoka, er næst honum sátu, ok bað Víðförul niðr setjast. Hann gjörði svo. Hann þurfti rúm tveggja manna, svo var hann digr. Hann var 7 álna hár, ok mjök ellibjúgr, ok þó hinn þrifmannligsti. Víðförull mælti: ei er ellin jafnill í sínu lagi, sem margr kallar, því at víða má þat sýnast, at henni fylgir manvit ok athugi; nú em ek settr á aðra hönd konungi þessum, ok ætlar hann at heyra af mèr nokkrar skemmtiligar frásagnir; nú er hann svo ungr, [ok hann heldr[1]), at ek gamall maðr hafi brjóstmegin til at hefja upp langar frásagnir, svá at mèr sè ei áðr gefit at drekka; vil ek nú, herra, ef þèr vilìt spakmæli af mèr heimta, at þèr gefit mèr at drekka þat eitt hit sterkasta horn, er þèr eigit, ok vil ek þar með yppa mínu máli[2]), svo at vel megi heyra hinn yzti sem hinn innsti mínar frásagnir. Konungr brosti at orðum hans. Var nú fœrt Víðförli eitt stórt horn, fullt af hinu bezta víni; hann drekkr af í einu. Síðan lætr hann af hendi hornit. Hann hreykist[3]) þá í rúmi ok hristir sik, ok mælti: nú tekr vel at at fara; þikki mèr ok mikil von, at nú vanti ei úrlausnir hverra frásagna, sem þèr vilìt nú frètta. Mun ek ei optar segja yðr frá því, er ek kastaða ellibelgnum hit fyrsta sinni. Eptir þat varð ek at lifa 200 ára ok hálfan þriðja tug ára, ok þá er ek fann með sjálfum mér, at ek mundi

1) frá [bætt inn í eptir D. 2) yppta mínu málrófi, D. 3) hreygist, A, B, C; hreifðist, D.

ellibelg kasta, sótta ek um langan veg til Rómaborgar. Þar rèð þá fyrir ríkr konungr, er hèt Ermenrekr; hann var ríkr ok mikill höfðingi, ef hann hefði ei orðit svo tældr ok svikinn af sínum ráðgjafa, þeim er Sifka hét, því at fyrir hans vèlræði[1]) missti Ermenrekr þriggja sona sinna. Konungr mælti: á hvern hátt bar þat til, er þú kastaðir ellibelgnum. Víðförull mælti: hinn fyrsta tíma bar þat til heldr undarliga; ek var þá maðr miklu hraustari, þótt ek hefði þá lengr lifat, ok kom þat þá til, at mannsaldrar voru meiri enn nú, ok hrörnuðu menn seinna, ok þótt ek hefði 300 ára, var ek maðr hraustr ok vel herfœrr, ok reið ek opt á dýraveiðar einn saman; ok sem ek elta mjök einn dag til nætr einn vísund, er ek vildi veiða, varð ek þyrstr mjök, ok lögðumst ek niðr at vatni, ok ætlaði at drekka, en þá fló yfir mik einn dreki, ok gleypti mik allt upp at höndum; hann fló með mik í eina bratta fjallshlíð, þar sem hann átti bœli, ok því at ek var þá mjök þroskabetri sakir afls ok vaxtar, varð honum um megn at bera mik langa leið; ok er hann kemr at bœlinu, slær á hann nokkurri kligju, ok því næst spýr hann mèr brutt með miklu eitri, ok valt ek ofan fyrir hlíðina á einn fagran völl; ok því at mèr var þat lagit[2]) at bera eigi lengr þunga ellinnar, þá raknaða ek við af ómegni, er ek hafði fengit af þessu volki, ok þar fór af mèr enn fyrsti ellibelgr; litlu síðar styrknaða ek, ok var ek á afl ok allan þroska sem þeir er þrítugir voru, en þó veitti mèr mjök erfitt þetta volk, en lètti mjök af mèr þunga ellinnar. En af hinum fyrsta aldri mínum mun ek yðr ekki fleira segja, því at yðr, herra, mun þikkja ótrúligt ok mjök með býsnum ganga, þótt þar væri satt frá sagt, ok mun ek því heldr segja frá þeim atburðum æfi minnar, er yðr má vera skiljanligra.

37. Nú skal segja yðr frá því, er ek kastaði annat

1) D; vandræði, A, B, C. 2) C; lagat, A. B; tegat, D.

sinn ellibelgnum, ok ek hafði litla hríð dvalizt í Rómaborg, þá var mèr þat tját í svefni, at ek munda aptr taka œsku mína; var ek þá nokkrum tveim álnum hærri enn áðr, enn nú þar eptir munaði ok um digrleik, at ek var þá at[1]) öllu meiri, enn nú; hafði ok áðr at því hófi þorrit minn þroski hit fyrra sinn, þá er ek var ungr; ok því at konunginum[2]) þótti ek þroskamikill á vöxt, þá þótti honum sem þar mundi eptir fara aðrar mínar íþróttir. Þá lèt hann sínar kempur freista at leika við mik íþróttir þær, sem þeir þóttust kunna, ok þótt ek væri mjök gamall, þá voru öngvir þeir í hans hirð, at til jafns gengi við mik. At lyktum vildi hann at vèr freistuðum sunds, ok var ek þess ófúss, því at ek þóttumst vita, at þat mundi mèr verða ofboðit, en þó vilda ek gera boð ok vilja konungs, ok fór ek á sund; ok því at langt hafði verit síðan ek fór á vatn, en allir þeir sem á sundi voru vildu mèr fyrirkoma, lögðust[3]) margir at mèr, ok fyrst meðan ek var ómóðr, fœrði ek hvern í kaf; ok því at ek mœddist skjótt, þá báru þeir mik ofrliði, ok fœrðu mik opt í kaf, at ek mátta eigi sunds orka, ok sökk ek því til grunna, ok þar lá ek nær allan dag. Ok því at mèr var [tegat, at elli hyrfi mèr[4]), þá vaknaða ek við þat, at mik rak at landi; þá var því líkast sem þá maðr skolar klæði, ok varð ek þá ungr í annat sinn, ok var ek þá sem þrítugr, ok at öllu var mèr þá lèttlíft sem öðrum œksumönnum, ok gekk ek þá fyrir konung, ok dvöldumst ek með honum nokkra hríð. Keisarinn mælti: þú munt marga muna hina fyrri menn? Víðförull mælti: marga víst, segir hann; ek man Þiðrek konung ok alla kappa hans, Gunnar konung ok

[1]) bætt inn í eptir D. [2]) þannig C, D; kynjum, A, B. [3]) lögðu, A, B, C. [4]) frá [D; tefat af elli, A, B, C, með öllu rangt. Sögnin tega finnst annars einungis í skáldskap (sbr. jartegn).

Högna bróður hans, Ísung konung ok alla sonu hans. þú munt víst vera gamall maðr? segir konungr; eðr sáttu nokkut Hálf konung? Margan dag sá ek hann, sagði Víðförull. Konungr mælti: hvernig var Gunnarr konungr at sjá? Víðförull segir: hann var ljóss á hár, ok hrökk vel, breiðleitr ok ljóst skegg ok ljóslitaðr, herðibreiðr ok hár, kurteiss í öllum vexti, sterkr ok allgóðr riddari, ok vel kunni hann við skjöld ok sverð, frèttinn ok forsjáll og grimmr, en glaðr í máli, ágjarn ok harðr við óvini sína; hann hafði vopnapróf þat: örn var markaðr á skildi hans, ok hafði kórónu á höfði. Högni bróðir hans hafði hár svart og sítt ok sveip í, auglèttr[1]) ok nefmikill, brúnsíðr ok dökkt skeggit, ok allr er hann dökklitaðr; bæði er hann mikill ok sterkr, ok gott hjarta hefir hann; hann er hugprúðr; hann hefir sama vopnapróf[2]) ok Gunnarr bróðir hans á skildinum, [nema hans örn er ei kórónaðr[3]), af því at hann var eigi konungr. Konungr mælti: hvat kanntu at segja mèr af Þiðreki konungi, eðr Virga[4]) hinum sterka. Víðförull mælti: ekki mun ek segja yðr svo margt af sèrhverjum höfðingja; en ef þèr geymit minna orða, þá máttu með vísu skynja, hversu tiguligir þessir menn voru.

38. Þiðrekr konungr af Bern var mikill vexti, svo varla fannst hans jafningi, þess er hann var þó ei risi; hann var langleitr ok rèttleitr, eygðr manna bezt ok nokkut skolhrúnn; hár mikit ok fagrt ok liðaðist í lokka; á honum var ekki skegg, svo gamall sem hann var; hans herðar voru svo miklar, at tveggja álna var yfir at mæla; hans armar voru svá digrir sem mikill stokkr, en harðir sem steinn; fagra hönd ok fót hafði hann; [um miðjan sik var hann mjór, ok vel vaxinn[5]); kálfar hans voru svo miklir sem á risa; afl hans var svo mikit, at engi maðr

[1]) C; baugleitr (= langleitr?) A, B; lèttr D. [2]) D; nafn, A, B, C. [3]) frá [D; ok er ei giptr, A, B, C. [4]) Viðga, D. [5]) frá [D.

veit, því at hvergi hefir honum aflfátt orðit, svo menn viti; glaðr ok lítilátr, mildr ok stórgjöfull af gulli ok silfri við vini sína, ok hefir leó kórónaðan á sínum skildi.

39. Virga, son Vèlenz, var á þá leið sýnum: hvítr á hár sem gras þat, er lilja heitir; þat var þykkt ok liðaðist í lokka; bjart andlit hafði hann, ok allan líkam bjartan sem snjá; hans augu voru svo snör, at varla mátti sjá í móti, ef hann var reiðr; engi maðr mátti kalla hann breiðleitan nè langleitan, því at allr var hann við sik; hans andlit var þó mikit ok fagrt, ok harðligt þá hann var reiðr ok rautt sem blóð ok grimmligt; allra manna [var hann hæstr þeirra er ei voru risar kallaðir[1]); hann var herðimikill ok þykkr, miðmjór ok allra manna bezt limaðr, rèttvaxinn, ok engan þóttust menn sèt hafa kurteisara mann; hann var kyrrlátr ok spakmálugr, er hann var í fjölmenni, en optast glaðr ok málreitinn. Þegar hann kom í vopn sín, ok hann var með her, þá var hann svo grimmr, at engi þorði honum í gegn; at flestri atgerfi var hann fyrir flestum mönnum. Virga hafði alla hvíta herneskju; hann hafði á sínum herfórum[2]) hamar ok töng ok þrjá karbunklssteina; þat var hans vopnapróf. Konungr mælti: vel ok fróðliga segir þú af þessum mönnum, ok þat líkara, at þú hafir alla þá sèt, því at svo hefir oss áðr af þeim sagt verit af þeim spekingum, sem vèr höfum áðr heyrða. En nú vil ek attú greinir, hvorr þèr þótti meiri háttar, Þiðrekr konungr eðr Ísungr. Víðförull mælti: herra, þar megit þèr grein úr taka; annarr þeirra valdi náliga sinn mann af hverju landi, er hann fèkk frœknastan, en annarr tók einn mann annan enn sonu sína, ok mundu hinir þó allir hafa skömm beðit, ef Mimmungr, sverð Virga, hefði dugat þeim. Konungr kvað þat satt, ok mundi þat vera mikil skemmtan at sjá nokkra mynd gerva eptir þeim. Víðförull strauk þá ennit, ok

1) frá [ bætt inn í eptir D. 2) herfœrum, D.

hreifist í rúminu, ok mælti: verit mundi þat hafa um skeið, herra, þá er ek hafði kastat ellibelgnum um sinn, at mèr mundi lítit fyrir at gjöra nokkra líking[1]) þeirra leika, svo at þèr mættut nokkut af ráða, hverir hreystimenn slíkir hafa verit; en nú meðan ek bera slíkan þunga ellinnar, at mèr verðr um allt torvelt, þat er ek skal at hafast, þá mun ek ekki svo búit við þetta leita; en þá síðan, er ek hefi aptr tekit æsku mína, þá má verða, at nokkurra bragða verði at leitat. En öll hirðin hljóp upp með hlátri, ok báðu konung gefa orðlof til, at Víðförull dveldist þar, til þess er þeir mætti sjá hann ungan, ok þeir mætti sjá nokkut af hans athœfi ok hinna fyrri manna. Konungr bað hirðmenn ráða; var hann þeim jafnan eptirlátr; þótti honum at mörgu gaman, því at hann var ungr. Dvelst Víðförull þar nú nokkrar nætr. Konungr lætr gjöra eptir Ubba jarli boð ok mörgum öðrum, þeim sem hann vildi þessa forvitni sýna. Ok ei miklu síðar hverfr Víðförull brutt svo at engi vissi, hvat af honum var orðit. Ubbi mælti: hvert mun sjá horfinn? en þat er líkast, at hann sjái sik at lygi sinni, ok hafi ei þorat at bíða, því at hann mun vita þikkjast, at þetta gabb hans ok lygi mundi opinbert verða [skamms bragðs [2]). Konungr mælti: þat er öðruvís, enn vèr ætlum; hann mun aptr koma, ef hann ætlar oss at finna.

40. Nú hefir konungr stofnat veizlu mikla, ok víða til boðit ríkum mönnum. Þetta var einn hátíðisdag um morgun, sem konungr við hirð sína gekk til kirkju, sá hann, at eitt stórt trè var komit undir hallarvegginn; þar í hjá sá hann at Víðförull var aptr kominn, ok gekk fyrir konung ok kvaddi hann, ok var svo kátr, at hann lèk við fingr sèr. Konungr mælti: hvat er nú í brögðum, Víðförull, er þú ert svo kátr? Víðförull mælti: herra, ei mun nú yðr þat undarligt þikkja, ef þèr vissut þat, er ek

1) D; minning, A, B, C. 2) frá [ bætt inn í eptir D.

veit, því at nú er sá dagr kominn, er ek mun ellibelg kasta; vil ek nú attú, herra, ok öll þín hirð sjái á þetta æfintýr, með hverjum atburð at þetta verðr. Hirðin varð öll glöð við þetta, ok hló sem mest mátti. Konungr brosti at ok mælti: til kirkju munu vèr fyrst ganga, ok heyra tíðir, ok mun oss þá síðr missýnast þetta tilfelli. Víðförull kvað þat vel, þótt þeir gjörði svo. Ok er öllum tíðum var lokit, hljóp öll hirðin út úr kirkju; var ok öllum mikil forvitni at sjá þenna atburð. Konungr gekk út sem aðrir, ok heim til hallar sinnar, ok þar með öll hirðin. Ok er hann kom at höllinni, gekk Víðförull fyrir hann, ok fèll á knè; hann mælti: nú vilda ek, herra minn, attú næmir staðar ok öll hirðin, og sæir upp á þat, at aptr kœmi œska mín, því at nú hefi ek svo lengi beðit enn um sinn þunga ellinnar, at ek vilda gjarna verða ungr, ef þèr vildut gefa mèr orðlof til, at þetta mætti verða, eptir því eðli, er ek hefi áðr haft. Konungr mælti: vel má ek sjá, hversu til berr um þenna hlut. Víðförull spratt þá á fœtr ok mælti: mikit er elli at bíða ok hrörnan heims þessa, ok henni mundi margr feginn kasta, ef kosti ætti, ok svo skal ek; tekr þá allt af höfði sínu, ok strýkr armana ok allan kviðinn ok svo búkinn ok öll sín bein, síðan bregðr hann feldi þeim, er hann var í, at höfði sèr, ok leggst niðr fyrir trèsendann, ok mælir lágt fyrir munni sèr: firrist mik elli, en ek fái œsku. Nú hlær öll hirðin sem mest má, en hann liggr nokkra stund, svo at hann hrœrir hvergi á sèr. Ok er minnst varir, dregr[1]) hann at trènu, ok því næst inn í trèit at höfðinu, ok eigi lýkr[2]) fyrr við, enn hann er horfinn inn í trèit, ok þat lýkst aptr fyrir neðan fœtr honum. Konungr gekk þá til ok öll hirðin ok hugði at, ok var trèit heilt sem áðr. Þeir töluðu þá um, hvat af honum mundi orðit. Ubbi jarl mælti: þetta mun tröll

1) dragnar, A, B. 2) D; lýkst, A, B, C.

verit hafa, ok mun horfinn í jörð niðr. Því næst heyrðu þeir braukun mikla í trèit. Þat þótti þeim undarligt, at trèit var stundum miklu digrara, enn stundum. Ok er þessu hafði gengit um stund, sáu þeir, at úr hinum trèsendanum komu út mannsfœtr ok svo maðrinn upp til miðs. Þat sáu þeir, at trèit dró stundum saman, því líkast[1]) til at jafna, þá kona hefir jóðverk, ok at lyktum dró svo trèit saman í einn knút; þá skaut Víðförli langt á braut frá trènu; hann lá þá sem dauðr væri; ok er minnst varir von, sprettr hann upp ok bregðr feldinum af höfði sèr, gekk fyrir konung ok kvaddi hann. Þá brá undarliga við; þeir sáu þá, at hann var eigi ellri, enn honum var sprottin grön, og fríðr sýnum. Víðförull mælti: herra, nú hefi ek sótt mikla heill til yðar, er þessi hin þunga elli er frá mèr horfin, en nú vil ek prófa, hvárt mèr hefir at vanda farit um vöxt, því at þar eptir mun fara um annan minn þroska ok atferð. Konungr lèt þá prófa, ok var hann þá fimm álna hár. Hann mælti þá svo sem af harmi: mikil frásögn mundi mèr þótt hafa hit fyrsta sinn, er ek var fullþroskaðr, ef nokkurr hefði mèr með sönnu sagt, at ek skyldi eigi hærri vera, enn 5 álna, þar sem ek var þá á þessum aldri vel mæltra 12[2]) álna; má ek nú, herra, með vísu segja þèr, at nú hefi ek vetr 20. Nu hafit þèr sèt ok skynjat, at þat er satt, er ek sagða yðr um mitt aldra skipti; er mèr ok nú nokkru líkara til, at ek mega sýna yðr nokkra mynd þeirra höfðingja, er fyrrum voru. Konungr mælti: nú með því at ek ok allir vorir menn hafa sèt þenna atburð, þá þikki mèr meiri líkindi, at þat sè efanarlaust, attú sýnir oss hina fyrri konunga með þeirri mynd, sem þeir hafa verit. Víðförull mælti: herra, ei skulut þèr þat þurfa heldr at mistrúa, enn þetta, er þèr hafit nú sèt á; nú skulut þèr, herra, ganga í dag út af borg yðarri, ok

1) bætt inn í eptir D. 2) 9, D.

hirð þín; vil ek ok ganga með yðr, ok líta á landsleg; berr ek nú svá lèttan líkam fyrir æsku sakir, at ek má vel göngu þreyta við hvern yðvarn mann. Konungr kvað svá vera skyldu. Þeir gengu þar til er þeir kvomu at dal einum djúpum; þar var þykkr skógr umhverfis, en slèttr völlr ok grœnn, Víðförull mælti: ekki munum vèr fara víðara, því at á þenna dal lízt mèr ekki utan vel. Konungr snýr þá heim með sínu föruneyti.

41. Því næst hverfr Víðförull, svo at engi vissi hvat af honum varð, ok er í bruttu eigi skemr enn 3 vikur, ok hugsuðu allir, at hann mundi eigi aptr koma. En er sá tími var úti, kemr hann til hirðarinnar. Konungr spurði, hvar hann hefði verit, en hann lèzt þat ei í einu orði segja mega: hefi ek nú nokkut hugsat um þat, sem þèr báðut. Konungr mælti: ertu kominn nú at sýna oss þat, er vér báðum. Lítil mynd mun á verða, herra, en þó skulut þèr fara með mèr í dag, ok yðrir menn, þeir sem þèr vilit til þessa kalla, ok semmtan þikkir þetta at líta, því at mèr þikkir því betr, sem fleiri sjá þetta. Öll hirðin fagnaði þessu gamni. Konungr sjálfr gekk þá til steinhússins, þess er Markvarðr var í. Hann fagnaði vel konungi ok spurði, hvat hann vildi. Konungr mælti: ek vil þèr kunnigt gjöra, at einn vísindamaðr skal leika fyrir oss í dag. Markvarðr mælti: ek vildi vera með yðr til leiks þessa. Konungr mælti: ek vilda, at þú fœrir, ok hagaðim vit svá til, at sæi þik eigi þínir óvinir, svo sem er Ubbi, og skaltu ganga undir mínu skikkjuskauti. Markvarðr bað hann ráða Nú ferr konungr ok öll hirðin með honum. Víðförull ferr fyrir. Þar til er þeir koma at þessum djúpa dal; þar var þá orðin nokkur nýbreytni; yfir þenna dal var kominn þunnr glerhiminn. Þetta undrar konung, ok alla þá, er þar höfðu komit. Þar var kominn múgr manns, því at þetta hafði víða frètzt; þar var Ubbi. Undir þessum glerhimni

stóðu fimm stólpar upp úr dalnum; þat þóttist konungr skilja, at þessir stólpar allir mundi holir innan. Víðförull sat þá kyrr, ok hafðist ekki at. Konungr mælti: þessi dalr hefir tekit mikla skipan sem þá vèr vorum hèr. Víðförull mælti: herra, ei má þat undrast, þótt jafnfrægir menn, sem þiðrekr konungr, Gunnarr, Ísungr, Hálfr ok allir hans kappar vilì eigi á berri jörð ríða ok mœtast, ok gera moldugar þær dýru herfórur, er þeir báru um alla sína daga, því at ef svá ferr, sem ek vilda, þá koma þessir menn allir yðr í augsýn, ef ek mætti ráða, ok þat lítit, sem þèr megit sjá af þeirra hreysti, þá samir betr, at þeir mœtist á þessum glerhimni, heldr enn á óhreinni jörðu, þar sem mold ok leir má saurga þeirra hlífar. Því næst heyrðu þeir braukun mikla í þann stólpa, er til austrs var í dalnum. Víðförull mælti: hvaða hávaða heyrit þèr, eðr man nokkut fara? Konungr mælti: eigi veit ok þat, segir hann, en þó þikki mèr líkast til at heyra, sem ríði ei allfáir menn á svelli hestum járnuðum. Víðförull mælti: ok þar ríða þeir nú ok ei allfáir saman. Konungr leit þat; hann sá menn ríða upp á glerhimininn; þeir höfðu bjarta hjálma ok stinna skjöldu, hvítar[1]) brynjur ok bitrlig sverð; tveir menn voru hèr miklu víg-ligastir ok tiguligastir. Þessir tveir höfðu þat vopnapróf, at örn var á skildi hvorstveggja þeirra, ok hafði annarr örninn kórónu á höfði. Þeir stíga af baki, ok binda saman hesta sína; þeir settust niðr allir, ok sat sá í mið, er kórónaðan örn hafði á skildi. Víðförull mælti: herra, hverìr munu þessir menn, eðr berit þèr nokkut kennsl á þá? Konungr mælti: kenna þikkjumst ek þessa menn at frásögn; hygg ek, at hèr sè komnir Niflungar: Gunnarr ok Högni bróðir hans, ok er þat mikil undr, at svá þunnt gler skal halda þeim upp. Víðförull mælti: þess mundi þurfa, at glerhiminn þessi hèldi enn meira þunga, áðr þeir

[1]) harðar, D.

slíti þetta mót. Því næst heyrðu þeir braukun miklu meiri enn fyrr í þann stólpa, er í vestr var í dalnum. Víðförull mælti: til hvers mun nú heyra? Konungr mælti: svo heyrist mèr, sem ríði menn eigi fáir, ok heyrir gný til vopna þeirra. Víðförull mælti: eigi ætla þeir at verða of seinir, er þar ríða. Konungr lítr nú til, ok sèr upp úr þeim stólpa ríða 12 menn upp á glerhimininn, ok sátu hvorir móti öðrum, ok lètu hit yppimannligasta. Tveir af þessum mönnum voru þó langt fram yfir hina á allan vöxt ok vopnabúnað; annarr hafði vopnapróf á skildi sínum sem einn dreki dökkblár lægi um þveran skjöldinn; þessi maðr var meiri ok sterkligri, enn hverr annarr; annarr[1]) þessi maðr hafði allan konungligan búnað, ok var bæði mikill ok sterkligr. Víðförull mælti: herra, megit þèr nokkut kenna þessa menn? Konungr svarar: þá má ek vel kenna at frásögn, ok mun vera Ísungr konungr, ok synir hans allir; en sá enn mikli maðr, er drekann berr í skildinum, mun vera Sigurðr sveinn. Víðförull mælti: svo er herra, sem þèr segit. Því næst kemr braukun svo mikil, at ei hafði fyrr slík verit, svo at Ubba þótti œrit um. Hann mælti: sýnist yðr, herra, ei betra at vær farim heim aptr frá þessum ólátum? Konungr mælti: sjá munum vèr áðr, hvat þessir menn hafast at. Víðförull mælti: hvat mun hark þetta vera? Konungr mælti: enn heyrist mèr mannareið í þann stólpa, sem í suðr er. Víðförull mælti: allvel væri, þótt þessir kœmi eigi eptir þenna leik, er þaðan er at von, enda hleypir þar nú hverr fram fyrir annan. Konungr sèr nú, at upp á glerhimininn hleypa 12 menn, allir gráir fyrir járnum; þeir stíga af baki, ok setjast niðr í suðrætt. Þessir voru allir stórir ok sterkligir, en þó báru enn tveir langt af öllum þessum. Annarr þeirra hafði á sínum skildi fyrir vopnapróf einn leó með kórónuðu höfði; annarr hefir hamar,

[1]) bætt inn í eptir D.

steðja ok töng í sínum skildi, ok 3 karbunkúlussteina. Víðförull mælti: herra, kunnit þèr nokkra grein á þessum mönnum? Konungr mælti: gjörla kenni ek at frásögn þessa menn; þetta er þiðrekr af Bern, ok á aðra hönd honum Virga hinn sterki, ok er þat satt at segja, at aldri sá ek slíka kappa, sem þessar 3 sveitir. Víðförull mælti: víst voru þeir vígligir menn. Því næst kom ógurligt brak með stórum brestum í þann stólpa, er í norðr var. Víðförull mælti: til hvers mun nú heyra, er svo lætr gríðuliga? Konungr mælti: enn hygg ek at til manna heyri, ok miklu fleiri enn áðr hafi heyrt. Víðförull mælti: vel væri, þó þessir kœmi eigi eptir þenna leik, því at gaman mun at þeim vera, ef þeir neytast eptir þroska; ok þar hleypir hverr fram fyrir annan. Konungr sèr nú, at úr þessum stólpa, er í norðr stendr, ríða upp á glerhimininn 60 manna. Víðförull mælti: vel er nú orðit, at þèr erut hèr allir komnir. Þessir menn stíga af baki, ok setjast niðr í norðrætt. Þessir menn eru allir gráir fyrir járnum. Einn maðr sitr sjá í miðjan flokk, er miklu er meiri enn aðrir, ok þá eru aðrir tveir menn stórir á sína hönd hvárr. Víðförull mælti: herra, kennit þèr nokkut þessa menn? Konungr mælti: kenna þikkjunst ek at annarra frásögn; þetta mun vera Hálfr konungr ok rekkar hans, ok mun á sína hönd hvorr Innsteinn ok Útsteinn. Víðförull mælti: rètt er enn, herra, ok er mikil yðar glöggþekkni. Konungr mælti: ei þikki mèr ofsögum mega segja frá þessum mönnum, hversu sterkligir þeir eru. Víðförull mælti: þat mundi yðr þikkja mikit gaman, ef þeir sýndi yðr nokkur högg með þessum hinum hvössum sverðum, er þeir hafa á linda? Konungr mælti: þat mundi víst frásagnarvert, ef þat bæri við. Víðförull mælti: herra, þess get ek, at yðr þikki þat verða harðr róstuleikr, er þeir höggvast til, enda veit ek ei, at sólin gangi svo hátt í dag hèðan frá, at þeim þikki nóg ljós bera á þeirra

hlífar. Konungr lítr til sólarinnar, ok þeir allir. Ok er þeir líta aptr, sjá þeir at Víðförull er bruttu. Þeir sjá at hann er kominn upp á glerhimininn. Ei ferr hann nú góðmannliga: róg berr hann nú millum Gunnars konungs ok Ísungs konungs; svo ferr hann um allt, at þeir taka til vopna ok berjast; slær þar í bardaga svo mikinn, at braka tekr í glerhimninum. Skýtr nú skelk í bringu öllum þeim, sem minnst voru hugaðir. Svo gjörðist nú braukun mikil, at Ubbi jarl flýr ok margt lið með honum. Konungr sitr eptir, ok horfir á bardagann. Hann sèr þat, at þótt Ísungr konungr hefði lið minna, at Gunnarr konungr ok hans menn hrukku undan ok þangat eptir glerhimninum, er Þiðrekr sitr. Ok er hann sèr þetta, biðr hann upp standa alla sína menn, ok veita lið Gunnari konungi. Þeir gjöra svo. Nú gerist eigi all-lítit um; lætr Ísungr konungr undan við sína sveit. Hann hörfar þangat eptir glerhimninum, er sat Hálfr konungr. Hálfr mælti: Hrókr hinn svarti, segir hann, Útsteinn ok Innsteinn ok allt lið mitt, stöndum upp ok veitum lið Ísungi konungi. Þeir gjörðu svo. Nú tóku þar til svo stór högg ok ákaflig, at áðr, þat er var, þótti ekki hjá þessu vert; ok nú ætlar konungr at þá ok þá muni glerhimininn niðr brotna. En er þessi bardagi gekk sem harðast, þá kemr þat er yfir bregzt um allt þat, sem áðr hafði verit. Hann sèr þá, at úr miðstólpanum koma upp fjórir risar; þar þóttist hann kenna at frásögn fyrstan Aspilían risa ok Aventroð, síðast Viðólf mittumstanga, ok hafði stöng sína í hendi, ok allir hans brœðr slógust í leikinn. Þeir kölluðu svo með ógurligri röddu, at konungr þóttist aldrei fyrr slíkt heyrt hafa. Ok nú er þat jafnsnemma, at konungr tekr hlaup á hönd sèr, því at þá voru allir hans menn á bruttu, ok Viðólfr lýstr stönginni á glerit svo fast, at svo mikill brestr varð af þessu, at konungi hèlt við, hvort hann mundi standast eðr ei.

þat sèr hann, at ofan fellr glerhiminninn, ok allir brotna stólparnir; minnkar konungr eigi ferðina við slíkt. Ekki geymir hann at um Markvarð. Verðr hann nú þar eptir einn saman, en konungr með öllu sínu liði skundar til Vernizuborgar.

42. Þá er konungr var í brottu, sèr Markvarðr hvar gengr einn maðr; hann kennir, at þat er Mágus. Hann gengr til móts við jarl, ok fagnar honum vel. Mágus mælti: nú skaltu vera í ferð með mèr heim til brœðra þinna. Markvarðr kvað svo vera skyldu. Þeir fara nú þar til er þeir koma heim til Stransborgar. Líkar þeim brœðrum nú vel við Mágus ok Matthildi. Ferr Markvarðr nú í kastalann til brœðra sinna. Nú er í annan stað at segja frá konungi, at hann hefir skammt farit, áðr hann saknar, at Markvarðr var eptir orðinn; hann snýr þá aptr. Ok er hann kemr þar sem leikrinn hafði verit, sèr hann ekki líkindi til, at þar hafi nokkurr leikr eðr nýbreytni verit. Markvarðr er ok þaðan í bruttu. Þikkist konungr nú enn skynja, at þetta mun verit hafa af ráðum Mágus jarls. Ferr konungr nú heim, ok lætr sem ekki sè at orðit, ok er um þetta, sem margt annat, heldr fátalaðr. Nú er mjök fjölrœtt af mörgum mönnum, hversu þessi Víðförull muni verit hafa. Ubbi jarl þikkist nú vita, at þetta hefir verit Mágus jarl, ok allra helzt, er hann spyrr, at Markvarðr er kominn heim til brœðra sinna. Líðu nú nokkrir vetr, ok er nú allt kyrrt milli þeirra ok tíðindalaust.

43. Þrim vetrum síðar kemr sú frètt til Karls konungs, at Mágus jarl hefir tekit sótt mikla, ok þat með, at hann væri banvænn. Ubbi jarl varð glaðr við þetta, en konungr heldr fár. Ubbi mælti: verit ei óglaðir, herra, því at ef Mágus deyr af sótt þessi, þá er sem unnir sè allir Ámundasynir. Konungr hafði fátt um. Rögnvaldr ok brœðr hans voru í Stransborg allir, ok sátu yfir Mágus mági sínum. Matthildr berst lítt af, ok grèt mjök. Þat

var einn dag, er Rögnvaldr sat yfir Mágus, at hann tók til orða ok spurði: hvar er Einarr frændi minn? Rögnvaldr lèt kalla hann til máls. Hann spyrr, hvat hann vill honum. Mágus svarar: ek vil senda þik til Vernizuborgar við tólfta mann, ok seg Karli keisara orð mín, at hann komi hingat, ok heyri tilskipan mína, er ek gjöri fyrir mèr ok Matthildi húsfreyju minni; vænti ek góðs af honum, at hann muni ei undir höfuð leggjast þessa ferð. Einarr lèzt þetta ok annat vilja gjöra, sem Mágus bauð. Ok sem hann var búinn, fór hann leið sína, þar til hann kemr til Vernizuborgar. Hann gengr fyrir konung, ok kveðr hann kurteisliga. Konungr tók því vel, ok spyrr hann eyrinda. Einarr segir vanmátt Mágus ok þat, at hann bað yðr at koma á sinn fund, áðr enn hann andaðist, því at honum þikkir víss sinn dauði. Konungr mælti: er Mágus svo viti borinn, at mikil líkindi eru á því, at hann geti nærri sínum dauða, ok er mannskaði mikill um slíka höfðingja, ef skammæir skulu verða. Ubbi mælti: þat er mitt ráð, at þèr farit ei þessa ferð; þikki mèr þat meiri von, at Mágus sè þat meir undir ferð þessi, at hann vili attú játir griðum Ámundasonum, heldr enn hann hafi þá sótt, at banvæn sè; máttu ok sjá, hversu hann ætlar at ginna þik til þessa, ok þú gengr sjálfr í hendr honum. En þó er þat tillaga mín, attú sendir mann á fund hans, ok vitir, hvárt þetta er nokkut nema hègómi. Ok ei lauk hann fyrr sinni rœðu, enn konungi þótti þat ráðligast. Þat mun vera ráðligast, sagði konungr, at Úlfr fari; hann er vin allra þeirra, en hann mun oss þó satt af segja um mátt Mágus. Litlu síðar lætr konungr kalla Einar á tal við sik, ok mælti: þú hefir hermt mèr orðsending Mágus, at vær skyldim hann hitta, ef vèr vildim hans vilja gjöra. Nú því at vèr höfum annat at starfa, þá munum vèr senda Úlf, er verit hefir ráðgjafi vorr áðr, at heyra þá

hluti, sem hann vill oss gjöra í[1]) kunnleika. Einarr fór nú í brutt, ok kemr til móts við Úlf; hann segir honum tilskipan konungs, en Úlfr bregðr við skjótt, ok ferr með Einari í Stransborg, ok koma síð dags. Þeir ganga til þess húss, er Mágus lá í. Úlfr gekk inn í húsit; þar sat Rögnvaldr ok brœðr hans. Matthildr var þar ok grèt. Þau heilsa vel Úlfi. Hann mælti til Rögnvalds: hvort er Mágus mjök fram kominn? Rögnvaldr mælti: mèr lízt stundarbið eitt-at[2]) um hans mátt, en þó máttu vel ganga til, ok tala við hann, því at hann hefir haft mál sitt til þessa. Úlfr gekk at sænginni, ok spurði: ertu máttlítill, Mágus? Rögnvaldr mælti: þú verðr miklu hærra at tala við hann, því at hann er máttlítill ok daufr, svo at drjúgum verðr þú at œpa at honum. Úlfr mælti þá sem hann mátti næsta hæst[3]): Mágus, hvort er máttr þinn lítill? þá hraut upp orð við hixta: „lítill.“ Úlfr mælti: hvort muntu úr sótt þessi stíga fram?[4]) Þá hraut upp orð við hixta: „fram.“ Eptir þetta andast hann. Þetta fèkk drottningu sáran harm með miklum gráti. Rögnvaldr mælti: nú hefir systir mín fengit þann óbœtanligan skaða, at aldri mun hún bœtr bíða. Nú er þat minn bœnastaðr, at þú Úlfr gangir af þessu herbergi ok allir þínir menn ok systir vor; bið ek, at þit Einarr talit um fyrir henni, at hún berist af sem bezt, úr því sem nú er at ráða, en vèr brœðr skulum allir eptir vera, ok búa um líkam hans, því at vèr viljum hans útferð gera sem virðuligast. Úlfr gerði sem Rögnvaldr beiddi, ok gengu þau öll saman í þá höll, er Mágus hafði átta. Þar mátti heyra mikinn harm um alla borgina, er allir hörmuðu fráfall Mágus. Ok er nóttin leið, en dagrinn kom, var líkaminn jarlsins borinn til kirkju með fögrum yfirsöngum.

[1]) til, A, B, C. [2]) D, ɔ: eitt þat, að sínu leyti eins og lítt-at; eitt, hinar. [3]) C, D; hátt, hinar. [4]) bætt inn í eptir C, D.

Úlfr gekk til drottningar, ok mælti: frú, segir hann, ek vil taka orðlof af yðr til heimferðar, ok segja þessi tíðindi, því at ek þikkjumst vita, at [þú munt Mágus jarl láta flytja til Vernizuborgar.[1]) Drottning mælti: eigi vil ek þat, en vita þikkjumst ek, at konungr mun vel gera hans útferð, en ei vil ek, at Ubbi jarl eðr aðrar mannskræfur, þær sem áðr hafa hrópat hann við konung, hafi yfirgang um hans leiði. Úlfr mælti: viltu þá at hann sè hèr grafinn í Stransborg? Drottning mælti: fjarri ferr þat; kemr þat mest til, at ek hefi unnat svo mikit Mágus, at [ek má ei sjá dagliga upp á hans leiði[2]) fyrir gráti.[3]) Úlfr mælti: hvert ráð hefir þú þá helzt fyrir ætlat? Matthildr svarar: skip vil ek búa láta, mikit ok skrautligt; þat skal hlaða af öngvu nema gulli ok silfri, ok skal Mágus flytja til heilagra staða í útlönd, ok gefa þar fè til graptrar honum eptir útlendum sið; en gjarna viljum vèr gefa þèr gott orðlof til heimferðar, svo at konungr frètti fyrr enn síðar þessi tíðindi. Var nú gör kista at líkinu, ok valdir menn til úr ríkinu at fara þessa ferð; en ei er staðr greindr, hvert drottning lèt fara með líkam Mágus, en hitt er sagt, at þeim fórst vel ok greiðliga, ok eptir boði drottningar; komu með heilu aptr í Stransborg eptir svo langan tíma, sem þeir máttu vel fá þessu orkat. Nú þessu jafnfram býst Úlfr til heimferðar með sínum mönnum, ok lèttir ei sinni ferð, fyrr enn hann kemr til Vernizuborgar. Konungr fagnar honum vel, ok spyrr hann tíðinda. Hann segir honum andlát Mágus. Konungr mælti: þar varð mikill höfðingjaskaði; eðr hverja tilskipan hafði hann fyrir sèr, áðr hann andaðist? Úlfr mælti: þat fór öðruvís, enn margr mundi ætla, því at hann gjörði fyrir öngu ráð, áðr

[1]) frá [ D; konungr mun vel ok sœmiliga gjöra hans útferð, A, B, C, og hafa afskrifarar þessara handrita auðsjáanlega hlaupið yfir svo sem hálfa línu. [2]) leg, D. [3]) frá [ ek græt mèr allri, ef ek kem til leiðis hans, E.

hann stè fram, ok sögðu þat vinir hans, at þat olli, at hann vænti, herra, yðar þangatkvomu, en nú leið svo skjótt at honum.[1]) Sagði hann þá konungi allan atburð um hans dauða. Ubbi mælti: hann mun eigi dauðr, ok mun þetta sem annat hans prettr, enda skal ek þat prófa, ef hann er hingat fluttr, hvárt þetta er hans líkami. Konungr mælti: lengi heldr þú á öfund þinni, en þó er mèr nú mikil von, at hann elti þik eigi optar svo hræddan sem fyrr. Ubbi mælti: eigi mun langt bíða, áðr enn þú munt sjálfr at raun komast, ok muntu þá ei hræzlu minni þurfa um at kenna. Konungr spurði, hvar Mágus mundi grafinn. Úlfr segir hversu fór með þeim Matthildi ok honum. Konungr varð fár við þetta. Ermenga drottning kvað þat von, þótt Matthildi væri hugstœðr þessi harmr, þó at Mágus væri langt á brutt fœrðr, ok kvað slíkt gjört vitrliga. Líða nú langar stundir. Ubbi jarl eggjaði opt konung at fara at Ámundasonum, ok drepa þá alla; kvað nú mundu lítil ráð þeirra. Konungr lèzt kyrru mundu fyrir halda.

44. Nú ei miklu síðar lætr Matthildr búa eitt skip á laun. Ok er þat skip var búit, fær hún til mikinn fjárhlut ok frítt mannval, ok skal Einarr vera formaðr skipsins. Á þessu skipi fór maðr, mjök mikill, ok líkr á vöxt við Mágus. Sá maðr tók upp einn buðk, ok þar tók hann úr því líkast sem væri smyrsl nokkur, ok rýðr því á annat sitt auga ok á allt sitt andlit öðru megin. Þessi maðr verðr undarligr við þetta yfirlits. Ok er hann hafði á sik borit, var hann rauðr ok illiligr þeim megin, sem þetta kom á. Hann mælti til manna sinna: þèr skulut kalla mik Hálflita-mann,[2]) ok skal ek vera formaðr yðarr, en þú Einarr skalt nefnast Brynjarr. Síðan láta þeir í haf, ok sigla til Danmerkr. Þar rèð fyrir sá konungr, er Eysteinn hèt, ok var mjök við aldr; hann var vinsæll

[1]) bætt inn í eptir D. [2]) víða ritað: Hálfi-maðr.

ok stjórnsamr. Hann átti sèr eina dóttur, er Helga hèt; hún var væn ok vinsæl. Þat er sagt, at einum vetri fyrr höfðu þar komit tveir berserkir; hèt annarr Gyrðir en annarr Atli. Þeir voru svo miklir kappar, at öngvir víkingar reistu rönd við þeim. Þeir höfðu gert Eysteini konungi tvo kosti: at hann skyldi ganga á hólm við Atla, eðr gipta honum dóttur sína. En með því at konungr var maðr gamall, ok varla vopnfœrr, þá rèðu þat vinir hans, at hann skyldi ei berjast. Beiddi konungr á þriggja vetra frest, ef hann fengi nokkurn mann fyrir sik, ok þessu játar berserkrinn, með því móti, at þeir skyldi koma hvert haust til Danmerkr, ok skal konungr leysast af þrim mörkum gulls til kostar þeim á hverju hausti. Þetta hefir frètt hinn Hálfliti-maðr. Eysteinn konungr fèkk öngvan til móts við Atla; ok at lyktum kom því máli svo, at hann heitir at gipta þeim manni dóttur sína, er þetta leysir[1]) fyrir hann. Nú spyrr konungr, at skip er komit við land, er mikils háttar menn stýra, ok eru þó friðmenn. Konungr sendir menn til skips, ok lætr bjóða þeim til veizlu. Ok er þeim koma þessi orð, fara þeir á konungs fund. Tók konungr vel við þeim. Ok er þeir höfðu þar skamma hríð verit, gekk hinn Hálfliti-maðr fyrir konung með sína sveitunga, ok kvaddi hann. Konungr tók honum vel, ok spurði, hverir menn þeir væri. Þeir segja, at annarr heiti Brynjarr, en annarr Hálflitimaðr. Brynjarr mælti: hèr vildum vèr, herra, þiggja vetrsetu með yðr fyrir fulla penninga, því at fè skortir okkr ei. Konungr mælti: lítit er mèr um ókuuna menn[2]); en ef þèr vilit frelsa ríki mitt, ok berjast við berserki þá, er fá vilja dóttur mína fyrir utan minn vilja, þá mun ek játa ykkr hirðvist. Brynjarr lèzt því játa mundu, at annarrhvorr þeirra reyndi við Atla, hversu sem til tœkist. Fara þeir nú til konungshirðar, ok voru þar um vetrinn.

[1]) D; gjörði, A, B; leysti, C. [2]) kynjamenn, D.

Var hinn Hálfliti-maðr löngum hljóðr, ok lengstum skapillr, en Brynjarr virðist vel jafnan. Spurði konungr at Ámundasonum, en Brynjarr sagði frá þeim margt, ok flest frá Rögnvaldi. Konungr mælti: hví mun hinn Hálfliti-maðr vera svo ókátr? Brynjarr svarar: honum líkar þat illa, at aðrir leiða illum getum um hagi hans, at hann þikki undarligr; en vera má, konungr, at hann segi yðr, hvat honum býr í skapi, þótt hann vili eigi öðrum segja, ef þú spyrr at. Konungr kvezt þat prófa skyldu. Þat var einn veðrdag góðan, at konungr hafði látit leika fyrir sèr úti; þá var hinn Hálfliti-maðr svo kátr, at hann lèk við fingr sèr. Konungr fann þat brátt, ok kallaði á hann ok mælti: hversu líkar þèr hinn Hálfliti-maðr hèrvistin? Vel, segir hann. Konungr mælti: en hvat veldr fáleikum þínum? Hálfliti-maðr svarar: þat hafða ek öngvum manni ætlat at segja, ef leynast mætti; en fyrir þat þèr hafit vel gjört til mín, þá skal ek segja yðr; eðr er þèr nokkut kunnigt af sonum Ámunda jarls? Konungr lèzt marga merkiliga hluti af þeim hafa heyrða, en þó mest af Rögnvaldi. Hálfliti-maðr svarar þá skjótt: þat munu öngvir tala, nema öfundarmenn Vígvarðs, því at hann er langt fyrir alla þá, en víst er Rögnvaldr fríðastr sýnum, en Vígvarðr styrkr, ok um flest atgervimaðr. Hafði hann ok spurt, at þeir Gyrðir ok Atli gjörðu þèr nauðungarkosti um dóttur þína; hafði hann ætlat hingat í Danmörk at ráða þetta kvonfang í hendr sèr, en drepa berserkina. Ok er ek spurða þetta, fyrirmunaða ek Vígvarði þessa kostar; fór ek til Saxlands ok skoraða ek Vígvarð á hólm; þóttist ek hafa ráð hans í hendi mèr, en þat var öðruvís, því at í fyrsta höggi veitti hann mèr þat slag, er ek varð óvígr; varð ek með því at leysa mik af hólmi, at ek skyldi fara hingat til Danmerkr, ok ganga á hólm við Atla, ok taka festar af þèr, herra, til handa Vígvarði, um dóttur þína.

Konungr mælti: verit mundi þat hafa, meðan Vígvarðr var sáttr við konung, at ek mundi ei hafa móti mælt at gipta honum dóttur mína; en vel líkar mèr þóttú berist við berserkinn. Hálfliti-maðr mælti: með því at þú ert maðr gamall, þá skal Vígvarðr fara hingat, ef mægðir takast, ok styrkja svá yðvart ríki, ok er hann þá ór höndum konungs, því at ei sœkir hann Vígvarð hingat við barðfengi hans; en ekki þikki mèr of ætlat til við Gyrði, þótt yðr þikki hann mikill firi sèr. En því, herra, hefi ek verit hljóðr, at ek vissa ei, nema þèr vildut sjálfir þetta einvígi heyja. Vil ek nú þegar taka festar af yðr, ef þú vill, at ek gangi á hólm við berserkina. Konungr kvað svá vera skyldu: þikki mèr betra at gipta röskum manni dóttur mína, þótt hann hafi unnit eitt verk illt, enn at hin verstu illmenni fái hennar firi utan minn vilja. Hálflitimaðr kvað hann rètt á líta. Nú líðr á sumarit, ok er hausta tók, koma berserkir eptir vana. Ok er hinn Hálflitimaðr spyrr þetta, mælti hann: þat er mitt ráð, at vit Brynjarr frændi minn sèum eigi firi augum þeim, er þeir koma; man þeim þá minna þikkja at leggja hólmstefnu við þik. Konungr kvezt þat vel líka. Fám dögum síðar koma þeir Gyrðir ok Atli, ok ganga firi konung, ok heilsa á hann. Konungr tók þeim heldr fáliga. Gyrðir mælti: nú munu þèr vilja festa mèr konuna, því at engi er sá maðr með yðr, at við mik þurfi at berjast. Konungr svarar: ei mun verri minn kostr, enn sá, at ek gangi á hólm, ok ef ek fell firi vopnum þínum, þá er mèr engi raun, at dóttir mín fái þetta gjaforð, en aldri skal hún at mèr lifanda vera gipt slíku illmenni, sem þú ert; en fá mun ek mann fyrir mik. Gyrðir reiddist þá, ok kvezt leiða skyldu smákonungum at draga dul á sik, ok berjast í móti mèr. Snúa berserkirnir þá í braut; en hólmstefna var þegar lögð um morguninn eptir. Þeir búast snemma

um morguninn, Brynjarr ok Hálfliti-maðr. Konungr ferr ok at sjá upp á þeirra viðskipti.

45. Þegar um morguninn er ljóst var orðit, búast þeir Gyrðir ok Atli til hólmstefnu. Ok þegar sem þeir litu enn Hálflita-mann, mælti Gyrðir: hèr hefða ek aldri komit, ef ek hefði vitat, at þetta hit illa skrípahöfuð skyldi við mik berjast, því at aldri fyrr sá ek jafnleiðinligan mann. Hálfliti-maðr mælti: gjörla finn ek nú, attú ert hræddr, en ei at heldr skaltu nú undan hvika, því at nú skal ek verja konungsdóttur, svo þú skalt aldri hana fá. Þeir kasta nú feldi undir fœtr sèr. Segir Gyrðir upp hólmgöngulög. Hann hafði sverð svo gott, at hvergi nam í höggi stað. Brynjarr hèlt skildi fyrir Hálflita-mann, en Atli firi Gyrði. Hálfliti-maðr höggr til Gyrðis ok reiðir hátt. Atli bregðr upp skildinum, ok vill hlífa bróður sínum. Hálfliti-maðr lætr síga sverðit skjótt, ok slæmir undan Atla báða fœtrna. Gyrðir reiddist nú, ok höggr til Hálflita-manns, ok klýfr skjöld hans í tvau. Hálfliti-maðr hrindr Brynjar frá sèr, veðr fram ok höggr með tveim höndum. Gyrðir hafði öngvan hjálm, ok atti fram skallanum. Höggit kom í höfuð Gyrðis, ok beit ekki á, en sverðit stökk á öxlina ok beit brynjuna ok búkinn, svo at sèr fèll hvorr hlutrinn. Konungr varð glaðr við þetta, ok sagði hinn Hálflita-mann afreksmann. Hálfliti-maðr kvað sik ei minna skorta við Vígvarð, enn Gyrði við sik. Konungr kvað hann þá um fram alla menn aðra. Þeir drápu Atla ok flest fólk þeirra annat, þat er með þeim hafði farit, ok þeir náðu. Fara nú heim með mikit fengi, ok hefir hinn Hálfliti-maðr tekit firi hönd Vígvarðs festar. Síðan búa þeir skip sitt, ok ætla aptr til Saxlands. Þeim gaf vel byri, ok þóttust vel vegit hafa.

46. Þat var einn veðrdag góðan, at þeir Brynjarr sigldu fram með eyju nokkurri. Þeir sáu at lágu firi þeim tvö skip við eyna. Þeir sáu þat ok, at flestir menn af

skipunum voru uppi á landi ok lèku, ok gáfu eigi gaum at skipunum. Hálfliti-maðr mælti: ekki þikkjast þessir litlir firi sèr, er gefa ekki gaum at siglingu vorri; ok skal hèr at leggja. þeir gjörðu svo. Ok er þeir höfðu land tekit, þá taka hinir vopn sín, ok fara at engu hart; gengu síðan til skipa sinna. þeir fundust, ok spurðust tíðinda, ok hvat formenn skipanna hèti. þeir Brynjarr sögðu til sín, ok spurðu, hvat hinir hètu, er af landi fóru. Annarr þeirra nefndist Tosti, en annarr Ingimarr. Tosti spurði, hvar þeir hefði fengit skip þau hinu góðu, er þeir Gyrðir ok Atli höfðu átt. Brynjarr segir allt sem til hafði gengit. Ingimarr mælti: hèr mun vel til bera; þèr munut vilja berjast við oss. Hálfliti-maðr lèzt við öngan bila mundu; en hvert hafit þit ætlat? Ingimarr kvazt þá hafa ætlat til Saxlands. Höfum vèr frètt, at Ámundasynir sè svo frœknir, at engvir sè þeim jafnir, ok ætlum vit brœðr at reyna við þá brœðr, Vígvarð ok Rögnvald; eða hvert ætlit þit? Brynjarr mælti: vit ætlum til Saxlands, ok reyna við þá Ámundasonu, ok er því vel, at vèr reynum með oss, ok fari þeir, sem sigrast. Eptir þat búast þeir til bardaga. Skulu formenn skipanna reyna tveir með sèr í hvorum stað. En frá viðskiptum formanna er flest sagt. Berjast þeir Tosti ok Brynjarr; er þar vel á komit, því at þar sparir hvorrgi annan. Í annan stað berjast þeir Ingimarr ok Hálfliti-maðr; mátti þar sjá harðan atgang, er hvorr veitti öðrum. Enn Hálfliti-maðr hafði vopn góð, en ei þótti mönnum sem Ingimar skortaði atsókn ok harðfengi. þeir börðust til kvelds, ok var ei þá vísara, hvorir at sigrast mundu, en fallnir voru nokkrir menn af hvorumtveggjum; var þá brugðit upp friðskildi. Fóru nú hvorir til skipa sinna. Börðust þeir annan dag til nætr. þá mælti Hálfliti-maðr til Ingimars: hèr er vel á komit með hvorumtveggjum. Nú þikki mèr mikill mannskaði, ef lið vort drepst niðr, eðr vilit þit

brœðr taka sáttum? Ingimarr kvezt þess búinn, ef þeir sverðist í fóstbrœðralag, ok fœri síðan til Saxlands ok reyndi sik við Ámundasonu. Eptir þetta binda þeir saman lag sitt, ok sverjast í fóstbrœðralag eptir fornum víkingalögum. Sigla síðan með öllum þessum skipum til Saxlands, ok lètu þrjú skip sín í leyni. Hèldu þeir til Vernizuborgar, ok vildu fyrst finna konung. Skal nú hèr fyrst standa.

47. Heinrekr hèt konungr, er rèð firi Englandi; hann var son Aðalráðs konungs Vilhjálmssonar; hann er ríkr ok stórlátr. Hann á tvö börn; son hans hèt Lais,[1] er vèr köllum Löðurr. Þóra hèt dóttir hans. Lais var grimmr ok harðr, ok ekki má hann heima vera í ríki föður síns sakir óeirðar. Konungr hefir sent hann út í Franz til biskups þess, er Trajanus heitir. Hann er ágætr klerkr, ok hinn mesti meistari á alla hluti, því at hann vissi firi af náttúrubragði sínu marga óorðna hluti, ok af honum verða allir meistarar. þeir sem í hans skóla nema. Ok þá er Lais hefir verit fimm vetr með Trajanó biskupi, þá sagði hann, at hann vill finna föður sinn ok vita, ef hann vill fá honum herskip. Biskup sagði, at honum væri betra at fara hvergi; en Lais vill fara, ok býr skip sitt, ok siglir til Englands; gengr heim til hallar til föður síns, ok kveðr hann, ok sagði honum kveðju Trajanus biskups. Konungr tók því vel, ok bað hann þar vera með sèr. Lais mælti: þat vilda ek, attú fengir mèr herskip nokkur, ok vilda ek vita, hve þat veitir. Konungr mælti: ekki mun ek þik fyrr efla, enn ek veit, hverr maðr þú vilt vera. Lais mælti: þá mun ek aptr hverfa til fóstra míns, ok má vera, at hann styrki mik eðr frændr mínir, þóttú vilir ekki gott mèr gjöra. Lais gikk brutt, ok fann fèhirði föður síns, þann er Björn hèt. Hann beiddi Björn fá sèr fè nokkut. Björn svarar: þá er allilla, ef ek kasta svo

[1]) víða ritað Laus.

í eld gulli eða silfri föður þíns, attú hafir nokkut af því, ok mun þat allt at illu verða, ok gjör þik aldri svo djarfan, attú talir þetta. Lais reiddist, ok brá sverðinu, ok hjó á hálsinn svo af tók höfuðit, ok mælti: far þú fyrr fagnaðarlauss, enn þú ráðir mínu lengr. Nú svá sem konungr varð þessa varr, kveðr hann þings, ok leggr Lais útlaga um allt England firi dráp Bjarnar. Siglir Lais nú til Frakklands, ok finnr fóstra sinn, ok segir honum, hversu farit hafi. Biskup svarar: þat hefir þú ei vel gjört, er þú drapt Björn, ok gerðir þik útlægan frá öllu gózi þínu; en þó skal ek fá þèr þrjú skip, ok prófa, hversu þèr tekst. Lais þakkar honum sem hann kann, ok býst nú í hernað við þessu föruneyti, ok liggr hann í hernaði um sumarit, ok verðr illt til fjár; eyðist honum fèit, en lèt skipin í stórveðrum, ok mennina; kemr aptr um haustit til biskups, ok var þar um vetrinn. Um sumarit býst hann í víking, ok fèkk biskup honum enn þrjú skip, ok fór sem samt væri. Þriðja sumar fèkk biskup honum 3 skip, ok með stórfè. Týndi hann enn 2 skipum, en lèt fèit. Lais þikkist nú ekki vita, hvat hann skal til taka; hugsar, at þetta er mikil sneypa, er svo vill at farast. Þat var eitt kveld, at hann gengr einn samt á land frá skipi sínu. Hann finnr einn mann firi sèr; hann hafði girzkan hatt á höfði. Hann kvaddi Lais með nafni. Hann tók því vel, ok spurði, hverr hann væri. Ek em einn gyðingr, ok heiti ek Barus, ok ræð ek hèr firi. Lais spyrr: ertu mjök ríkr? Hann svarar: ek em svá ríkr, at mik mun aldri fè skorta, því at ek á tvo gripi þá, er mèr verðr aldri fèfátt, meðan ek held þeim: þat er einn sjóðr, en annat hella. Lais mælti: viltu selja annanhvárn gripinn? Hann svarar: þat spari ek ei, ef þat er til unnit, sem ek vil. Lais mælti: mun ek nokkut þat hafa, sem þú vilt móti taka? Barus mælti: ekki skaltu kaupa dýrra, enn koma til mín at ákveðnum degi,

ok vinna þat litla stund, sem ek vil, ok vera kyrr, þá er ek vil. Lais mælti: þessu skulum vit kaupa. Lais gekk nú með honum, ok þar til er þeir koma til húss eins lítils. Barus gekk inn, ok Lais eptir. Hann sèr þar alls konar dýrgripi. Barus tók upp einn silkidúk; þar var í vafin ein hella af gulli, lófavíð. Barus mælti: tak nú við hellu þessi, en því játa ek þèr, at þik skal aldri fè skorta, meðan þú hefir hana; henni fylgir þat nafn, at hún heitir Fègæfa, en ekki hirði ek, at Trajanus sjái hana; mun hún þèr at öngu haldi koma, ef hann má ráða, því at alls mun illa njóta þess, er hann hefir með höndum. Síðan fór Lais til skips, ok hafði helluna, svo at engi vissi. Aldri gekk Lais svo á torg eðr kaupstaði, at eigi hefði hann helming ágóða. Varð hann nú svo auðigr, at varla kunni hann at telja, ok siglir heim til biskups at hausti; þikkir nú allvel gengit hafa. Nú var eigi sem fyrr, at biskup gekk nú ekki í móti honum, en hann var vanr hvern tíma at ganga í móti honum með fagnaði. Lais gekk heim til hallar biskups, ok kvaddi hann. Biskup var heldr fár, ok spurði at ferðum hans. Lais lèt vel yfir. Biskup mælti: ei mun vera sem þú lætr; en sjá skal ek fjárhluti þína. Gekk biskup þá til skips, ok sá yfir, ok þótti ekki ofsögum mega segja frá fjárvöxtum hans. Ok þá er Trajanus biskup hafði allar hirzlur kannat, sèr biskup eina forna kistu litla. Biskup spyrnir til ok mælti: hvat er í þessarri kistu, er svo lítt er varðveitt? Lais svarar: aldri veit ek hvar lykill er. Biskup mælti: ek veit lykilinn; vindr öxi undan kápu sinni, ok höggr á vættit, ok beit ekki á, firi því at stálslár voru um alla þvera kistuna. Biskup mælti: rammliga er hèr um búit, en þó skal upp ganga. Biskup blessar yfir kistuna, ok gekk hún þegar upp. Hann kannar hana, en þar var ekki í fèmætt. Lais mælti: nú hefir þú allt kannat. Biskup tók upp dúkinn, ok mælti: nú hefi ek

fundit, þat er ek leitaða at, en ek veit, hverju þú hefir keypt við Barus gyðing; skaltu nú gefa guði helluna til kaleiks, ok haf síðan ráð mín, ok mun þèr þá duga, ok er nú lokit úgæfu þinni; en allt skaltu halda við Barum, utan þú hlaup sem þú mátt, þá er hann biðr þik bíða; vit þá hversu ferr síðan. Eptir þat skaltu fara til mín, ok mun ek þá sjá um með þèr. Er Lais þar nú um vetrinn með biskupi.

48. Nú er frá því at segja at líða nokkrir vetr, at þat bar til með nokkru móti, at skip kom við Vernizuborg, sem vant var, en því var nú meir at orði gjört, enn áðr, at mönnum þótti mikit undarliga. Keisari fór til skips við birð sína. Ok er þeir höfðu skammt gengit, gekk í móti þeim mikill flokkr manna frá skipi. Í þeim flokki sáu þeir mann, er nokkut var undarligr. Þat þóttist keisari skilja, at sá mundi vera formaðr þeirra, því at hann var auðkenndr frá öðrum. Auga hans var annat blátt ok svart, ok at öllu vel fallit, en annat auga var mórautt sem í ketti, ok at öllu illiligt. Önnur kinn hans var hvít sem snjór, ok hafði fagran roða; hálft hans nef ok enni ok haka hafði fagran hörundslit. Önnur hans kinn ok allr öðrum megin var hann mórauðr, ok svo mátti at kveða, at þeim megin var hans andlit ljótt ok leiðiligt, ok allr hans líkamr, en öðrum megin var hann ljóss ok fagr, sem kjósa mátti. Þessi maðr gekk fyrir Ubba jarl, ok kvaddi hann með keisaranafni. Jarl mælti: þú munt vera maðr ekki mjök glöggr, er þú ætlar mik keisara, því at ek em jarl einn, en þat er keisari, er stendr þar hjá mèr. Enn komni maðr mælti: mèr sýnist þú svá tiguligr, at í þessum flokki sè ek öngvan þinn maka, ok þœtti mèr, sem þú mættir vel bera tignarnafn; en þat verðr mèr stundum, at ek lít enu mórauða auganu fyrr til, en ek sè þá ei jafngjörla tignarbragð manna, ok má vera, at þat hafi nú til borit. En sá mun þó betr hafa, er þik sœmir í orðum; ertu svá virðuligr maðr. Þessi

maðr gekk síðan firi konung, ok kvaddi hann vel ok kurteisliga. Konungr tók því vel, ok spurði hann at nafni. Hann svarar: auðsèt er nafn mitt, ek heiti Hálfliti-maðr; hefi ek aldri annat nafn haft á æfi minni; en skjót eru vár erindi til yðar: ek vil, herra, biðja yðr hirðvistar, ok dveljast með yðr nokkra stund; hefi ek langan veg sótt á yðvarn fund, ok er mikit af sagt yðarri frægð. Konungr tók því heldr seinliga: hafa mèr illa gefizt allir kynjamenn. Enn Hálfliti-maðr svarar: engi skapar sik sjálfr; eru mèr úsjálfráð mín yfirlit, ok má þá ekki kyn kalla, því at náliga er engi öðrum líkr í ásjónu, en prófa megit þèr mitt athœfi, hvárt yðr sýnist þat með nokkrum kynjum. Hefi ek ok mínir sveitungar þjónat mörgum tignum manni; væri mèr þat helzt hent at stjórna því ríki, sem ekki þœtti öðrum aldæla, eðr vinna nokkur þau þrekvirki, annathvárt í ráðum eðr mannaaftektum, sem aðrir gæti ei til vegar komit. Hefi ek ok alla mína æfi vanizt í stríði, í burtreiðum ok einvígum, ok drepit niðr illvirkja ok sem útlaga hafa gervir verit. ok enn, herra, vil ek til þess bjóðast at hreinsa yðr ríki, því at afl ok áræði bilar mik ekki; svo ok ef nokkrir kastalar eða borgir eru undan gengnar yðru valdi, þá má ek vel aptr vinna yðr til handa. Konungr mælti: þú munt ganga fyrst til hallar með oss, ok munum vèr þá tala slíka hluti. Hálfliti-maðr kvað svá vera skyldu. Fóru nú heim allir saman. Var Hálfliti-maðr settr í öndvegi. Fann konungr þat brátt, at hann var vitr maðr ok ráðugr. Ubbi jarl mælti til konungs: þessi maðr mun vera ráðugr, er kominn er til yðar, ok væri þat mín tillaga, attú skipaðir honum ríki þat, er Ámundi jarl hefir átt; þikki mèr þar hvoriga þurfa at spara, at þeir eigist við. Ynni þessi maðr þèr mikinn sóma, ef hann drepr alla Ámundasonu. Nú er þat mín tillaga, attú gefir honum Buslaraborg, því at ef jafnöruggr maðr sitr þar, þá má hann veiða alla

Ámundasonu; fara þeir ok jafnan óvarliga[1]). Síðan lætr hann kalla Hálflita-mann á tal við sik. Konungr mælti: ef þat er satt, sem þú sagðir, attú hafir hreinsat lönd ok ríki af útlögum ok ofstopamönnum, þá vil ek skipa þèr til yfirsjónar þat ríki, er átt hefir Ámundi jarl, því at þat ríki hefir engi treyzt at halda fyrir sonum Ámunda. Enn Hálfliti-maðr mælti: hèr hafa menn þó verit huglausir, er allir hafa gengit[2]) hræddir fyrir brœðrum þeim; skal mèr ok þat ei vera; en þess vil ek biðja yðr, at þèr gefit mèr Buslaraborg, en ek heiti þèr því í móti, at koma Rögnvaldi á yðvarn fund, ok er sem þeir brœðr sè þá allir unnir. Ermenga drottning mælti: því skaltu ei, son minn, Ubba jarl láta ráða þessu; hefir hann þá af veg ok vanda, hversu sem til tekst. Konungr mælti: firi ráð Ubba jarls ok tillögur móður minnar, gef ek þèr hinn Hálfliti-maðr Buslaraborg, með þeim skilmála, attú skalt koma Rögnvaldi einum saman oss í augsýn. Enn Hálfliti-maðr þakkar konungi, ok hèt því í móti. Ferr nú hinn Hálfliti-maðr til Buslaraborgar, ok allir hans menn. Tekr nú borgina undir sik. Tveir riddarar eru nefndir með Hálflita-manni: hèt annarr Ingimarr, en annarr Tosti. Þeir voru báðir burtreiðarmenn miklir, ok riðu hvern mann af baki í landinu, þann sem við þá reið. Þetta spyrja þeir brœðr. Vígvarðr mælti: hèr er mikit af sagt af burtreið þessarra manna, ok er forvitiligt at reyna, hvort þetta er svo mikils vert. Aðalvarðr mælti: ek skal fara fyrst, ok reyna mik. Hann ríðr nú, þar til er hann kemr til Buslaraborgar. Sem hann er þar kominn, kallar hann hárri röddu: ef nokkurir menn eru þar innanborgar, at vana hafi til burtreiðar, ríði hann út við mik, ok prófi hvorr annan ríðr af baki. Enn Hálfliti-maðr gengr í vígskörð við sína riddara. Hann spyrr: hvat riddara er þetta, er oss býðr burtreið? Hann segir: ei vil

[1]) D; ójafnaðarliga, A, B, C. [2]) verit, A, B, C.

ek leyna nafni mínu: ek heiti Aðalvarðr; ek em son Ámunda jarls, er þessa borg átti. Nú ef þèr kallist eiga borg þessa, þá ríði einhverr út við mik. Hálfliti-maðr mælti: efanarlaust kalla ek borg þessa mína eign, því at konungr sjálfr gaf hana í mitt vald, ok allt þat ríki, er faðir þinn átti, ok ætla ek þessa borg firi öngum manni upp at gefa, hvortki þèr nè þínum brœðrum; en ef þú vill reyna þik í burtreið, þá skaltu víst vita, at ek skal fá einn riddara þèr í móti, ei sem til einvígis, heldr sem til skemmtanar, ok at sá leysi sik þrim mörkum silfrs, sem af baki fellr, utan hann ríði annan riddara af baki, þá skal þat jafnt. Vil ek, attú játir af hendi brœðra þinna, at þeir komi allir í þessa burtreið, áðr lýkr, því at vèr erum útlendir, ok viljum annathvárt orka oss penninga, eðr týna. Aðalvarðr kvað svá vera skyldu: ok skulum vèr þá saman reikna, er vèr höfum út riðit, hvárir þá eiga útlausnir at öðrum. Enn Hálfliti-maðr kvað svá vera skyldu. Kvaddi hann þá til útreiðar þann mann, er Tosti hèt, mót Aðalvarði. Ok er þeir mœttust, ríðr Aðalvarðr svo fast at Tosta, at hann fellr af sínum hesti. Ok er þetta sèr Ingimarr, tekr hann vopn sín, ok hleypr á bak hesti sínum. Ríðr nú at Aðalvarði. Ok er þeir ríðast at, fellr Aðalvarðr af baki. Eptir þat skiljast þeir. Ríðr Aðalvarðr heim til kastalans, ok segir sína ei slètta. Markvarðr svarar: ek skal ríða þangat á morgun, ok freista, hversu mèr tekst. Líðr nú af nóttiu. Ok er hann kemr til Buslaraborgar við sína menn, kallar hann hátt, ok biðr Ingimar út ríða: því at ek ætla at hefna bróður míns, ok ríða á burt við þik. Ingimarr lèzt þess albúinn. Tekr sín vopn ok hest, ríðr nú út ok mælti: sagt mun bróðir þinn þèr hafa, at 3 merkr silfrs liggr við burtreiðina. Markvarðr mælti: ekki vil ek þat minnka, ok veit ek allan skilmála yðvarn. Nú ríðast þeir at, ok kemr hvorrgi öðrum af baki. Ingimarr mælti: þetta er mikil skömm,

at ek skal svo lengi þurfa hest minn at mœða af þessarri reið, ok sjá þú svo við, at annarrhvorr okkarr skal nú af baki falla. Síðan spennir hann sín hjálmbönd, ok ríðr at Markvarði með miklu afli, ok bar hann langt af hesti sínum. Hljóp síðan af baki, tók hann ok mælti: á þenna hátt afla konungsmenn sèr penninga. Nú geri ek þik liðugan heim at ríða til bróður þíns, ok reiknit báðir með drengskap ykkrar útlausnir. Markvarðr mælti: ei þarftu at hœlast; koma mun sá á morgin, attú munt þurfa báðar hendr í móti at rètta, ok er þó ei víst, hversu þat veitir. Ingimarr lèzt þess mundu bíða. Eptir þetta ríðr Markvarðr til kastalans, ok segir brœðrum sínum öll þeirra viðskipti. Vígvarðr mælti: ek skal ríða á morgin, ok finna þenna riddara. Hann býst snemma, ok ferr til Buslaraborgar. Hann fann Ingimar, ok býðr honum burtreið. Hann játar því. Þeir ríðast nú at, ok lýkr svo þeirra viðskiptum, at Vígvarðr ríðr Ingimar af baki. Þetta sèr Hálfliti-maðr, ok eirir honum illa. Biðr nú taka vopn sín ok hest, ok hleypr á bak; ríðr síðan út á völlinn. Hefir hvorrgi orð við annan. Ríðast at af miklu kappi, svo fast, at hvorr brýtr annars stöng. Hálfliti-maðr mælti: þetta er mikil skömm, er ek skal kveljast svá lengi við einn mann; eðr hvat má ek hreinsa ríki konungs, ef ek skal þetta lengi þola? Ríðr at með miklu kappi; ok er hestarnir hlaupa hvorr fram hjá öðrum, hefr hinn Hálfliti-maðr upp hnefann, ok lýstr við eyra Vígvarði svo fast, at hann tumbar út af hestinum öðrum megin, en Hálfliti-maðr hleypr af hesti sínum, og grípr Vígvarð, áðr hann kemst á fœtr. Lítiliga hefir þú þinna brœðra hefnt, er þú lætr sjálfr hrekjast. Vígvarðr mælti: koma mun sá á morgin, er þèr mun þetta ótorvelliga[1]) launa. Hálfliti-maðr mælti: búinn mun ek bíða. Síðan skilja þeir. Ríðr Vígvarðr nú til kastalans, ok segir Rögn-

[1]) ótæpiliga, D.

valdi sínar herfarar. Hann svarar: ei má mèr verr farast, ok skal ek nú freista ens Hálflita-manns, hvorr okkarr má meira orka. Snemma um morguninn ríðr Rögnvaldr til Buslaraborgar. Sem Hálfliti-maðr sá hann þar kominn, mælti hann: svá er mèr sagt, attú sèrt fremstr af yðr brœðrum á allan riddaraskap, ok því vil ek bjóða þèr til einvígis, at sá okkarr hafi sigr sem verða má. Rögnvaldr svarar: œrin nauðsyn skyldar mik þar til at bila ei, sakir brœðra minna, ef ek mætta þeirra hefna. Þeir ríðast nú at lengi. Rögnvaldr reið Flugar hesti sínum, þeim er bæði var fimr, fljótr ok sterkr. Leggr nú hvorr til annars af miklu afli, en báðir sátu þeir svá fast á baki, at hvárrgi gekk úr söðlinum, en hestr ens Hálflita-manns fèll á eptri fœtr, en söðulgjarðir hvárstveggja gengu í sundr, ok renndu svá báðir aptr af hestunum. Hálfliti-maðr mælti: úþökk hafi sá maðr, er mèr fèkk slíkan hest, því firi þat lèt ek minn sóma. Rögnvaldr hleypr þá at honum, því at hann varð þá fljótari á fœtr, at hestr hans hafði eigi fallit, en þó hafði hann [reikat í saur.[1]) Hann þrífr í hjálminn tveim höndum svá fast, at sundr gengu hjálmböndin. Hálfliti-maðr mælti: ei þarftu at kippa svá fast; allan tíma höfum vit áðr jafnir kallaðir verit. Þá bar hjálminn frá andliti honum. Kenndi Rögnvaldr, at þar var Mágus. Enn Hálfliti-maðr gefst þá upp, ok leysir sik miklu fè. Síðan talast þeir við, svo at öngvir heyrðu. Ek vil, Rögnvaldr, segir Mágus, attú komir hèr á morgun, ok leikir hèr á vellinum, því at ek hefi játat konungi, at koma þèr í augsýn honum. Rögnvaldr kvað svá vera skyldu. Mágus menn höfðu farit at sjá reið þessa. Þeir skiljast nú. Ríðr Rögnvaldr aptr í kastalann, en Hálflitimaðr ferr inn í borgina. Þeir spurðu hinn Hálflita-mann, hví hann gæfist svo snemma upp. Hann svarar: ek sá at Rögnvaldr mátti þegar drepa mik, er hann vildi, því

[1]) frá [ fengit tvö sár, D.

at hann hafði af mèr hjálminn, en ek prettaða hann þó heldr, ok hèt hann mèr at koma hèr á morgin. Skal ek nú senda eptir konungi, at hann komi hèr ok taki hann. þeir kváðu þat hit ráðligsta. Fara nú sendimenn ok segja konungi, hvat títt er. Hann bregðr við skjótt, ok Ubbi með honum, ok höfðu alls 200 manna.

49. Nú er at segja frá Rögnvaldi, at um morgininn tekr hann vopn sín, ríðr nú leið sína til Buslaraborgar, ok býðr sik til burtreiðar, ef nokkurr treysti við hann at ríða; en engi var svá djarfr, at treystist við hann at þreyta. Hann hrósar sínum íþróttum, ok leikr þar marga fimleika. En er hann varir minnst, sèr hann at hringr er sleginn um hann. Var þar kominn konungr ok Ubbi jarl með öllu liði sínu. þar var ok Erlendr[1]) Ubbason, ok enn Hálfliti-maðr með 100 manna. þeir höfðu slegit hring um Rögnvald. Hann mælti þá: þar ertu Karl keisari, ok man ek ekki þar at ríða; þar ertu Hálfliti-maðr, ok mun ek ekki þar at ríða; þar ertu Ubbi jarl, ok bú þú þik við vel, því at þar mun ek at ríða. Nú höggr hann Flugar sporum, en Flugarr barði svo með hinum firrum fótum, at allt stökk undan. Rögnvaldr hjó á báðar hendr, ok lýkr svo, at Rögnvaldr kemst í brott; hann hafði þá drepit ok hestr hans 12 menn. Ubbi jarl mælti: þar[2]) strauk Rögnvaldr oss nú, ok þikkist hann kominn úr höndum oss; en honum skal ekki at því verða. Ek skal nú ríða eptir honum, ok Erlendr son minn, ok 10 menn, þeir er frœknastir eru; hverr vor skal hafa tvo hesta, ok sprengja svo Flugar undir honum. þeir gera nú svo [sem Ubbi gjörir ráð firi. Maðr[3]) er nefndr Framarr; hann var bróðurson Ubba jarls. Hann var vin mikill Rögnvalds. Hann sèr nú, at þeir ríða eptir; Erlendr son Ubba jarls, hafði skjótastan hest, ok reið hann mest; þar

[1]) í ýmsum handritum er hann kallaðr Erlingr. [2]) D; því, A, B, C. [3]) frá [ Firimaðr, A, B, C.

næst Ubbi jarl, ok var þó hríð löng í milli þeirra. Þá bar hæð nokkra á milli þeirra Erlends. Röngvaldr sèr, at maðr gengr í móti honum; hann kennir, at þar er Framarr. Rögnvaldr heilsar honum ok mælti: þú þikkist opt hafa vel til mín gjört, en ek hefi þèr þat engu launat. Nú vil ek gefa þèr Flugar ok öll mín herklæði, ok skaltu nú ríða aptr í móti þeim, og seg attú hafir ginnt af mèr hestinn ok vopn, ok mun þeim þú þá þikkja meiri maðr enn áðr. Framarr þakkar honum gjöfina. Herklæddist hann skjótt, ok hleypr á hestinn, en Rögnvaldr snýr í mörkina, er skammt var frá honum; en Framarr ríðr liðugr aptr í móti Erlendi; hefir hjálminn á höfði sèr, en skjöld á hlið. Erlendr ríðr í móti honum, ok sýnist sem Rögnvaldr ríði. Hann mælti: nú mun Rögnvaldr feigr, er hann ríðr einn í móti oss. Hann höggr hestinn sporum, leggr sitt spjót til lags, ok ríðr at Framar; en hann vissi sèr engis ótta vonir, ok þóttist ei vita, hví Erlendr lèt svá vígliga. Ok þegar er Erlendr kemr at honum, rekr hann spjótit í gegnum hann, ok kastar honum dauðum á völlinn. Nú þóttist hann Rögnvald drepit hafa; hleypr af baki, ok tekr skjöld Rögnvalds, sem tíðast hlaupandi upp á Flugar, ok ríðr í mót feður sínum, ok þikkist eiga at hrósa miklum sigri. Ubbi jarl ríðr nú móti honum. Hann þikkist kenna Rögnvald, ok hyggr at hann mun drepit hafa Erlend son sinn. Hann reiðir upp sverðit, ok vill ei seinni verða, ok höggr Ubbi Erlend til bana, svo at af tók höfuðit. Ubbi snýr þegar aptr, ok hrósar sigri sínum, ok þikkir vel hafa at farit. Konungr kom þá eptir, ok allt liðit. Ubbi mælti: nú mun enn reynt, herra, hverr yðr hefir bezta fylgd veitt. Nú liggr Rögnvaldr hèr dauðr á þessum velli, ok hefi ek nú nokkut at unnit at hefna föður þíns, ok skal ek nú ei fyrr við skiljast, enn Ámundasynir eru allir drepnir, því at lítilsvert þikki mèr at vinna þá sem eptir

eru. Lagðist nú ok lítit firi Rögnvald, þegar ek náði sverði mínu til hans. Konungr mælti: ekki þakka ek þèr þetta verk, ok allt hefir þetta farit öðruvís, enn mik varir, ef þú einn skalt Rögnvald drepit hafa; eðr hvar er Erlendr sonr þinn? Ubbi mælti: ei veit ek þat, en þikki at þikki mèr líkast, at hann hafi riðit fram lengra. Konungr mælti: ríðit þèr þá eptir honum, ok má vera, at hann þurfi manna við. þeir gjörðu svá. Ríða nú, ok finna mann firi sèr lagðan í gegnum. þar þikkjast þeir kenna Rögnvald. þetta þikkir undarligt. þeir taka þenna mann upp, ok reiða þar til er konungr var, ok segja honum svo búit. Konungr mælti: má enn vera, at vèr sèum enn við brögðum beittir, ok gangit til ok skoðit[1]), hversu þetta má vera. þeir taka af þessum manni skjöldinn, er Ubbi hafði drepit, ok jafnskjótt sem af honum var skjöldrinn, kenndu þeir Erlend. þeir fœra hinn úr brynjunni, ok kenna þeir þar Framar. þeir segja nú konungi. Hann mælti: nú fór at getu minni, at nokkur önnur brögð mundu við vera, enn Ubbi hefði Rögnvald drepit, ok kallit mèr Ubba jarl, ok skal hann nú sjálfr sjá, hvert frægðarverk hann hefir unnit. Sem Ubbi kom, mælti konungr: kennir þú nokkut þenna mann, er þú hefir hálshöggvit. Jarl mælti: ei veit ek, hvat hèr skal at marki hafa, en mèr sýnist nú, sem þetta sè Erlendr son minn. Konungr mælti: þikki mèr mikil von, at nú sýnist þèr rètt, því at vísu er hann þetta, en hèr í hjá honum er Framarr, frændi þinn. Nú er sem ek þóttist vita, at ei mundir þú Rögnvald drepit hafa; hefir þú gert mikinn glœp með fullri svívirðing, er þú hefir drepit son þinn. Sem Ubbi sá, hvat hann hafði gjört, varð hann mjök hryggr, ok vildi drjúgum at öngu verða firi sitt slys, er hann hafði hent. Konungr bað þá aptr snúa. þeir gjöra svo. Ekki verða þeir varir við hinn Hálflita-mann.

[1]) C, D.

Ok er þeir höfðu ei lengi riðit, sjá þeir fram koma merki; þar fylgir ei færra lið, enn 500. Fram kemr annat merki, ok ei færra lið með, ok hit þriðja kemr í mót þeim; þessu merki fylgir ei færra lið, enn hinum báðum. Þessar fylkingar voru grár firi járnum. Þeir fara mikinn. Konungr spyrr, hvaðan herr þessi mundi kominn: hefi ek ei spurt bersögu neina. Þeir lètust ei vita. Ok er þessi herr nálgaðist, sló á þá miklum ótta, því at þeir þóttust þar kenna sína úvini. Einn mikill maðr var í þessarri ferð, er í mót fór konungi. Þótti þeim sá líkr Mágus jarli. Í annarri fylking þóttust þeir kenna Rögnvald. Þessi maðr, sem þeim þótti Mágus mundi vera, ríðr firi framan liðit, ok stöðvar, ok svá biðr hann allar fylkingar staðar nema. Keisari við öllum sínum mönnum hljóp af baki, ok bað sem bezt við taka, ef þessir menn vilja oss á hendr. Þeir gjörðu svá. Sem sá hinn mikli maðr hafði stöðvat allar þessar fylkingar, ríðr hann einn fram frá sínum mönnum. Ok er hann kemr mjök at fylking konungs, stígr hann af hesti sínum; hann tekr af sèr vopnin, gengr firi konung, fellr á knè firi honum, ok mælti: allt yðvart ríki, herra, í friði ok náðum af öllum vorum mönnum; ek gef mik í yðvart vald, sem aðrir yðrir trúir þjónustumenn. Konungr bað hann vel kominn; eðr hverjum eigum vèr hèr at fagna? Hann svarar: gjörla megit þèr kenna, at hèr er kominn Mágus jarl af Stransborg, yðvarr þjónn trúlyndr. Konungr brosti ok mælti: hversu máttu þat sanna, því at nú hafa liðit vel 4 vetr, síðan mèr var sagðr þinn dauði? Mágus mælti: aldri hefi ek dáit til þessa, ok aldri sjúkr verit, en annarr maðr lèzt í því herbergi, sem minn dauði var sagðr, ok lagða ek málstein undir höfuð honum, en þat er þess steins náttúra, at hann svarar með dvergmála hverju hinu síðasta orði, ef svá hátt er talat, at rómr verði at, ok þat hugði Úlfr ráðgjafi yðarr, at ek

hefði þessum orðum svarat, sem dvergmálinn lèt í steininum. Konungr mælti: mèr sýnist sem Rögnvaldr sè í liði þínu, enda leizt sumum vorum mönnum, sem hann lægi hèr dauðr á vellinum, eðr því mátti svo sýnast? Mágus mælti: í vorum flokki er Rögnvaldr, en því sýndist svá, at þèr hefðit hann drepit, at ek reist rúnir á hans skjöld þær, at hverr skyldi með hans mynd lítast, er hans vopn bæri, ok þat til marks, þótt þèr leggit nú skjöldinn á hinu dauðu aptr, þá munu yðr enn svo sýnast, ok vitit þèr þá, at Rögnvaldr er lifandi í vorum flokki. Konungr lèt þetta prófa, ok sýndist svo sem Mágus sagði. Síðan skóf Mágus af skildinum þetta letr, ok missýndi öngum þaðan af, hvar sem sá skjöldr var yfir lagðr. Í annat sinn fèll Mágus á knè firi konung, ok bað af sèr reiði firi þat, er hann hafði haldit Ámundasonu firi utan orlof konungs: ok ek vil, herra, yðr þat kunnugt gjöra, at ek var sá skeljakarl, er lèk í hall yðvarri, þá er ek sótta Aðalvarð; svá ok hit sama var ek sá Víðförull, er yðr sýndi bardaga milli hinna fornu konunga, ok var þetta leikit með list ok kuklaraskap; ok allt þat, herra, sem yðr þikkir hèr of gjört í, vil ek eiga undir þínu umdœmi. Ek var ok sá Hálfliti-maðr, er þèr gáfut Buslaraborg. Nú vil ek, herra, gjöra yðvarn sóma í öllu því, er ek orka; höfum vèr ok þetta lið ekki saman dregit, at vèr ætlum við yðr at stríða, heldr til þess, at vèr viljum, at þeir Ámundasynir, er þèr þikkist sakir við eiga, fari á brutt úr þínu ríki, því at vèr viljum þá ei lengr halda firi utan þinn vilja. Konungr mælti: þat er þó satt at segja, attú ert mikill bragðamaðr, ok þú ert fám mönnum líkr; má oss ok verða mikill styrkr at yðr til ráðagjörðar, ef þèr vilit oss trúliga þjóna. Nú vil ek þik með því í frið taka, attú sverir oss trúnaðareið. Mágus mælti: þat vilda ek, at fleiri festi þèr þenna trúnaðareið, ok vilda ek, at vèr gengum allir jafnsnemma til at trúlofa yðr fylgd. Nú er yðr at segja, hvern hlut þèr gerit

Ámundasonum, en svo er sem ek þikkist þat vita. Konungr mælti: vel má ek heyra, hvers þú getr til.

50. Þá tók Mágus til orða: þèr munut gefa Rögnvaldi Buslaraborg, ok allt þat ríki, er faðir hans hefir átt; hèr með muntu gefa honum drottninguna, móður þína, því at þú fær henni engan frægara mann í þínu ríki. Markvarði muntu gefa Spíramborg ok þat ríki, sem þar fylgir, ok fá honum kvonfang sœmiligt, ok er ríkit þá betr komit, enn áðr. Aðalvarð muntu gera þinn landvarnarmann ok ráðgjafa, ok fá hánum sœmiligt kvonfang; má yðru ríki, herra, verða mikill styrkr at þeim brœðrum, ef þú breytir svá; eðr hversu líkar þèr þessi útvegr? Konungr mælti: hvat ætlar þú Vígvarði. Mágus mælti: hvat mun hann, nema fara útlægr af landi brutt. ok vera dræpr ok til tœkr, hvar sem hann verðr staddr í þínu ríki. Konungr kvað svo vera kyldu; vil ek ei, at brœðr hans gjaldi þess úhapps, er Vígvarðr gjörði, ef þeir vilja mèr trúnað veita; en hvat ráð skulum vèr gjöra firi Ubba jarli? Mágus svarar: firi sakir fóstrs þess, er hann hefir veitt þèr, muntu ei nenna at láta drepa hann. ok skal hann vera á bruttu úr þínu ríki, en ek veit, at hann mun fara at rœgja þik við móðurbrœðr þína, Hrólf ok Hálfdan. Eptir þetta lætr Mágus Rögnvald ganga til sættar við konung, ok segir honum allan samning þessa máls. Rögnvaldr tók því vel; gengr firi konung, ok sverja þeir Mágus trúnaðareiða með því sáttmáli, sem Mágus hafði áðr upp sagt. En Ubbi jarl var rekinn úr landi, ok varð því feginn, er hann komst á brutt. Eptir þetta fór Mágus heim til Stransborgar, ok segir þeim brœðrum Markvarð ok Aðalvarð alla þá sátt, sem gjör var. Líkaði þeim þetta mjök vel. Vígvarðr mælti: en hverjum sættum tóktu firi mik? Mágus mælti: þat var bæði, at ek tók engin grið firi þína hönd, ok ek kunni engra griða at biðja firi þín illvirki; sá ek at þat mundi

ekki tjá. Vígvarðr mælti: þat þóttumst ek vita þegar í fyrstu, er ek frètti til þín, at ek mundi þar illan mág eiga, er þú ert, ok haf þú alls vesall[1]) ráð firi mèr gert; skaltu ok þess von vita, at þegar ek kemst í brutt, skal ek safna liði ok drepa þik, ef mèr gefst fœri á; skal ek ok jamnan[2]) herja á þitt ríki. Mágus mælti: slíks var mèr at þèr von; en nú mun ek segja þèr, at þá tvo vetr, er ek var úr mínu ríki, var ek í Danmörk; þar bað ek dóttur Eysteins konungs til handa þèr, ok hún er þín heitkona, ef þú vilt hana eiga, ok þar með skaltu taka konungdóm í Danmörk, því at Eysteinn konungr er nú mjök gamall maðr. Nú ætla ek, attú skulir með því hèðan brutt fara, attú sœkir þessa veizlu til Dana, er konungr giptir þèr dóttur sína; ætla ek þessa ferð at fara með fríðu föruneyti, ok ei við þik skiljast, fyrr enn þú ert orðinn konungr í Danmörk. Vígvarðr mælti: satt er hit fornkveðna, at „gott er at eiga tvo hvopta, ok flytja sitt með hvárum"; vissa ek jafnan, at ek var vel mægðr, en þat vissa ek aldri, at þú værir slíkr afreksmaðr, attú hefðir hugsat mèr þennan sóma allan, ok af öngum ráð til tekit, utan sjálfs þíns vizku. Síðan lætr Mágus búa 3 skip með vegligu föruneyti; þeim sigla þeir Vígvarðr til Danmerkr. Sem Eysteinn konungr frèttir þat, lætr hann búa eitt hit sterkasta festaröl, og at þessarri veizlu gengr Vígvarðr at eiga Helgu, dóttur Danakonungs. Fór þessi veizla vel fram; ok sem hún var enduð, gefr Eysteinn konungr Vígvarði allt sitt ríki, og er hann til konungs tekinn með ráði Mágus um alla Danmörk. Vígvarðr konungr biðr Mágus þar dveljast með sèr; hann gefr honum eina borg firi at ráða, og heldr hann þar alla menn, er honum höfðu þangat fylgt. [ Karli keisara[3]) þótti mikill skaði, at Mágus ferr í brutt.

[1]) D; allvesall, hinar. [2]) einart, D. [3]) frá [ D; Konungi, hinar.

51. Nú er þar til at taka, at Ubbi jarl ferr á brutt úr Saxlandi með einu skipi, ok 12 menn með honum, ok hættir ei fyrr sinni ferð, enn hann kemr til Miklagarðs. þár er tekit við honum vel, ok þó ómakliga. þá var Húgon konungr dauðr, en þeir brœðr, synir hans, voru konungar. þeir spurðu, hvárt Karl konungr hefði hefnt föður síns, ok drepit Ámundasonu? Ubbi jarl svarar: ei var þann veg með öllu; þeir brœðr eru þar nú stjórnarmenn ríkis hans, ok setr hann þá yfir hvern mann fram. Hefi ek þat til sanns frètt, at þeir brœðr ætla at vinna Saxland, en drepa konung; er þetta allt ráð Mágus. Konungr hefir ok gipt drottningu, móður sína, systur yðra, Rögnvaldi, ok kann ek ei annat at ætla, enn þat sè þvers í móti hennar vilja at eiga þann mann, er var at drápi bónda hennar, ok mun þessarrar svívirðu aldri hefnt verða, nema þit farit með her manns, ok takit Ámunda sonu höndum ok drepit þá. Er nú frá þeim hinn mesti styrkr, því at Mágus jarl er nú úr landi farinn. þikki mèr ok mikil líkindi, at systir ykkar þikkist fulllengi gráta, ef þit dvelit við þessarri ferð. Við þetta verða þeir brœðr reiðir ákafliga, og svo gat[1]) Ubbi jarl talat firi þeim, at þeir safna liði, ok setja fram skip sín. Ok er þeir eru búnir, fara þeir leið sína, þar til er þeir koma við Saxland, svo at engi frètt fór[2]) af þeim. Konungr verðr ei varr við, fyrr enn þeir eru komnir við land nær borginni. Ubbi jarl var í ferð með þeim. Var þeim kunnigt til allra hafna, og ganga þegar á land, því at Ubbi gjörði svo ráð fyrir, at þeir skyldi þegar veita atgöngu, áðr konungi kœmi lið. Ok er þeir mœtast, mælti Hrólfr: til þess erum vèr komnir á þinn fund, herra, at reka þinnar svívirðu, ok drepa Rögnvald ok brœðr hans alla. Konungr mælti: vitit þit þat, brœðr, at ek hefi sætzt við alla Ámundasonu, nema Vígvarð, því at þeir voru aðrir

[1]) bætt inn í eptir C; getr, D. [2]) bætt inn í.

saklausir af drápi föður míns; mun nú ok eitt ganga yfir oss alla, en því betr þikki[1]) mèr, sem þit skapit Vígvarði þyngra hlut, en bruttu er hann nú úr voru ríki; er mèr sagt, at hann sè orðinn konungr í Danmörk. þeir brœðr mæltu: tveir eru kostir af okkarri hendi: attú gefir upp í okkart vald Rögnvald ok brœðr hans þessa tvo, er með þèr eru; hinn er annarr kostr, attú búir þik ok þína menn, ok ver þessa útlaga, er þú hefir nú á hendr tekizt, en vèr munum at sœkja, ok ekki við skiljast, fyrr enn bæði eru þeir drepnir ok allir þeir, er þeim fylgja. Konungr svarar: þótt vèr hafim lið fátt, þá skal þá ei upp gefa fyrr enn mik. Síðan búast hvárirtveggja við[2]) bardaga. Konungr hafði ei meira lið, enn 100 manna sinna, sem hann hafði dagliga. Rögnvaldr hafði ok 100 manna, en Markvarðr annat hundrað. þeir brœðr höfðu mikit lið, svá at ekki var færra enn 6 um einn landsmanna. Tókst þá bardagi með þeim, ok hallast brátt á konung, en þó gengu þeir allir vel fram; Ámundasynir drápu margan mann. Ok er kvelda tók, voru grið sett. þeir brœðr bjóða konungi hinn sama kost, en hann vill þat með engu móti, ok kvezt heldr skyldi falla með sœmd[3]), enn selja menn sína til dauða með svívirðu. Ok verðr þar nú fyst staðar nema.

52. þar er nú til máls at taka, at Mágus jarl efnir til mikillar veizlu í Danmörk. Hann býðr þangat at upphafi Vígvarði ok mörgum ríkum stjórnarmönnum. Sem þessi veizla var saman sett, ok allir komnir, þeir sem kallaðir voru, krefr Mágus jarl sèr hljóðs ok mælti: ek vil yðr þat kunnigt gjöra öllum saman, at ek hefi dvalizt hèr í þessu ríki um stundar sakir eptir boði ok skipan konungs, svo sem haldandi af honum eitt jarlsdœmi mèr til styrktar ok mínum mönnum til kostar; vil ek þat

[1]) bætt inn í. [2]) til, D. [3]) óskírt í A, B; frægð, C; vantar í D.

þakka fyrst at upphafi konunginum sjálfum, ok öllum hans vildarmönnum þann sóma, er þèr hafit við oss sýnt í þessarri vorri hèrvist. Vil ek yðr kunnigt gjöra, at ek við öllum mínum mönnum ætlar á brutt hèðan, ok heim í Saxland, til ríkja vorra, því at svá býðr mèr í lund, at í því landi muni vera mikill órói af rógi ok illkynngi Ubba jarls, því at ek þikkist vita, at frændr konungs munu herja á ríki hans, synir Húgons konungs, ok því ætla ek, attú, herra, skulir safna liði, ei minna enn 90 riddara, ok um fram fjölmenni almúga. Vil ek attú veitir konungi með öllu þínu liði, ok berist þú í móti óvinum hans, ef hann þarf við, en ek vil fara fyri á einu skipi við mínu liði. Þú skalt koma þar til[1] hafnar, sem ek kveð á, ok heldr síð dags, svo attú ætlir, at ei sè barist þaðan frá. Þú skalt ganga á land við öllu fylktu liði þínu, ok má þá vera, at ek gjöra nokkra vissu, hvat þú skalt til ráðs taka, er þar er komit. Vígvarðr mælti: mikit þikki mèr firi at veita konungi nokkurn styrk, þar ek veit áðr með sönnu, at hann vill mik feigan, en þó hafa mèr vel dugat öll þín ráð, ok mun ek svo gjöra sem þú beiðir. Síðan lætr Mágus jarl í haf, ok lèttir ei sinni ferð, fyrr enn hann kemr þar til hafnar, sem konungr var firi við liði sínu. Þetta var síð dags, svo sem konungr var kominn í herbúðir, ok menn voru at binda sár sín. Hann gengr með öllu liði sínu firi konung, er hann var í sínu landtjaldi. Ok er hann kemr þar, beiðir hann orðlofs, ok konungr leyfir þat. Mágus gengr firi konung, ok fellr á knè ok kvaddi hann með blíðu. Konungr tók því vel. Mágus mælti: ek em svá kominn á yðvarn fund, at veita yðr styrk og fylgd með öllum mínum mönnum, segir Mágus jarl. Keisarinn mælti: þèr megit þat skynja, at þèr hafit nú lítinn liðkost, svo at vèr megum sigra þetta fjölmenni, er oss vill í móti,

[1]) bætt inn í eptir C, D.

ok at þat byrjar ei vorri tign at flýja eðr renna firi óvinum vorum, þá viljum vèr heldr, at þèr farit heim í þitt ríki, ok eflist þaðan at liði, ok far þá til at hefna vorra ófara, því at þá munu orðin vor umskipti[1]); þikki mèr og engi maðr vitrari ok líkari til at taka ríki þetta, enn þú, ef ek komumst ekki á brutt úr[2]) þessum bardaga. Jarl mælti: skjótt er þat at segja, at við þik skil ek aldri, fyrr enn þessi styrjöld er af yðr rekin, ella skal ek hèr með yðr falla, ef svá vill til takast. Margir töluðu nú til, at Mágus hefði lítil vísindi við haft, at hann hefði svo fámennr siglt til þessa bardaga. Mágus kvað þat jafnan verða, ef mönnum dregr til mikils um, at lítt mætti þá vísindum treysta, en kvað enn vel verða mundu, ef bans ráð væri höfð. Konungr bað hann nú fyrir sjá öllu því sem hann varðaði. Líðr nú náttin.

53. Sem morginn kom, ok sólin birti[3]) veröldina, búa hvárirtveggja sik til bardaga. Ok er þeir komu í þann stað, sem þeir skyldu berjast, ríðr Mágus fram firi liði konungs; ok sem hann leit þá brœðr, mælti hann: þit erut komnir í ríki frænda ykkars með meira stríði, enn yðvarri frændsemi hœfði, ok því er þat mín tillaga, at þèr gjörðit annan útveg þessa máls, enn fella svo göfgan ykkarn frænda, ok þar með marga saklausa hans þegna. Hrólfr svarar: ei unu vit því, at þessir útlagar, föðurbanar konungs, sitì í ráðum í því ríki, er þeir drápu frá konunginn mág vorn. Ubbi jarl mælti: svo mun vitrum mönnum sýnast, at þeir gjöri Karli konungi sóma í því, þótt þeir reki þeirrar svívirðu, er hann sjálfr hefir ei þroska til at hefna. Mágus jarl mælti: ei muntu, Ubbi, þurfa þessa at eggja, því at þèr mun koma, ok mun ei langt at bíða, attú munt fá úr þessu máli illan kost, ok þó[4]) makligan. En ef þit brœðr vilìt þetta með kappi

[1]) öll umskipti vor í milli, D. [2]) bætt inn í eptir C; af, D.
[3]) lýsti, D. [4]) þèr, D.

þreyta, [þá mun einsætt[1]) at þèr reynit sjálfir yðar í millum, ok hafi þeir sigr, er þat verðr auðit. Þetta líkaði þeim brœðrum vel, Hrólfi ok Hálfdani. Nú búa þeir sik til burtreiðar, Markvarðr ok Aðalvarðr, at ríða mót þeim Hrólfi ok Hálfdani. Er ei sagt frá þeirra lögum eðr höggum, en með því lúkast þeirra samskipti, at Markvarðr ok Aðalvarðr fèllu af sínum hestum, ok voru báðir handteknir, ok fluttir til herbúða Hrólfs. Þóttust þeir nú vel hafa orkat. Ubbi jarl bað þegar drepa þá. Þeir brœðr vildu áðr reyna annan dag, hversu fœri milli þeirra Rögnvalds, ef þeir reyndi með sèr. Skyldu þeir annan dag reyna við Rögnvald ok Mágus jarl. Fara nú hvárirtveggja til herbúða sinna. Ok er konungr var mettr at náttverðarmáli, sáu þeir mikinn skipaflota fara at landi. Konungr mælti: herr þessi er mikill, er hèr ferr at landi, ok væri oss nú munr undir, hvárn flokk þeir vildu fylla. Mágus mælti: svo dreymdi mik í nótt, sem ek vilda sízt at væri, at hèr við land væri kominn konungr úr Danmörk, Vígvarðr son Ámunda. Konungr mælti: víst mun hann þá eiga alls kosti við mik, ok má vera, at hann vinni á skammri stundu þetta ríki, því at vèr höfum lítinn liðkost til varna móti svá miklum her, sem mik varir at á þessum skipum sè. Mágus mælti: herra, mikil von þikki mèr, at vèr munum undir hans valdi allir komnir, sakir þessa mikla hers, ok því vil ek ei, at menn verì tjaldit firi þeim, sem til koma, því at þá munu öngvir fá mein eða skaða af þeirra vopnum, nema þeir þikkist fullan fjandskap launa eiga. Konungr bað svo öllu haga sem Mágus vildi.

54. Nú er þar til at taka, at þessi skip verða landföst. Verðr þar eigi von at lygi, at firi þessum her rèð Danakonungr. Hann gengr á land með öllu liði sínu

[1]) frá [ bætt inn í eptir D; en þess ber að geta, að í þessari bók stendur einrœtt, og hef eg gert úr því einsætt.

fylktu, ok til landtjalds þess, er konungr var inni. Vígvarðr gekk inn í tjaldit. Konungi þótti nú undarliga við víkja. Vígvarðr tók hjálminn af höfði sèr, ok gekk fyri konung, ok leggr höfuð sitt í knè honum, ok mælti: miskunnar þarf jafnan illr tilverki; nú vil ek ganga á yðra myskun. ok fœra yðr sjálfan mik undir dóm þann, sem þú vilt um mik dœma okkar í millum, eptir þínum vilja. Konungr þagnaði við orð hans, ok mælti: ei hafa liðit langir tímar, er ek mundi þèr hafa launat at makligleikum allan þinn tilverka, ef ek hefði fengit vald á þèr; en nú, þar sem þú ert sjálfvaldi genginn á mína myskun, þá vil ek ei gjöra þær ódyggðir at níðast á þèr, ok vil ek gefa aptr í þitt vald höfuð þitt, því at ek þikkist vita, at þetta er ráð Mágus, ok ei mundir þú á mitt vald kominn utan hans forsjá. Vígvarðr kvað þat satt vera. Konungr mælti: nú skal hans[1]) dómi hlíta okkar í millum um þetta mál, sem við aðra brœðr þína. Vígvarðr lèt svá vera sem konungr bauð. Mágus mælti: þat vil ek at upphaf sè sættar ykkarrar, attú sverìr konungi trúnaðareið at fylgja honum með sönnum góðvilja við hverja sem honum eru í móti, með allan þinn styrk, sem þú kannt fá, bæði nú ok jafnan, þá er hann vill þess kosta, svo sem aðrir hans þjónustumenn, en um gjöld munu vit tala í tómi. Vígvarðr lèt sèr þetta vel líka, sem Mágus vildi vera láta, ok gekk nú til sáttar við konung, játandi alla hluti, þá er Mágus skildi firi í þeirra sáttmáli, ok hèldu þetta vel sín í millum, meðan þeir lifðu, ok segir ekki fleira í þessi sögu frá þeirra missætti.

55. Nú er at segja frá þeim[2]) brœðrum, sonum Húgons konungs, at þeir frètta, at Vígvarðr er kominn með miklu liði. Ok sem Ubbi jarl frèttir þetta, mælti hann: nú ferr svo Vígvarði, at hann mun ætla at vinna sigr mikinn; hann mun fyrst ætla at snúast at með oss,

[1]) D; hann, A, B, C. [2]) bætt inn í eptir D.

ok drepa konung, ok síðan mun hann snúast oss í móti, ok drepa hvert mannsbarn, ok vinna svá undir sik bæði Saxland ok Miklagarð, ok því er þat mitt ráð, at hann drepi oss ei saklausa, ok vil ek, at þèr látit áðr drepa báða brœðr hans, þar sem þeir sitja nú áðr í voru valdi. Hrólfr mælti: þat þikki mèr mikil von, ef Vígvarðr eðr aðrir Ámundasynir fá vald á þèr, attú fáir nokkurn hæðiligan dauða; en því at vit brœðr erum formenn þessarar ferðar, þá þikki mèr okkr meir von griða, ef vit komum í þeirra vald, ef vit gefum grið þessum mönnum, ok munu vit ei láta drepa þá at sinni. Ok nú er Ubbi jarl frèttir sætt Vígvarðar ok konungs, þikkir honum sitt mál úvænkast. Líðr nú af nóttin, ok búa hvárir um kyrrt við aðra. Ok er morgunn kom, búa hvorirtveggja sik til bardaga, ok hefir konungr nú lið miklu fleira. Nú slær þar í mikinn bardaga; ríða nú hvárirtveggja fram af miklu kappi. Fèll nú á lítilli stundu mikill liðsfjöldi, ok þó miklu fleira af þeim brœðrum, sonum Húgons konungs. Konungr ríðr nú hart fram, ok í mót honum ríðr Hrólfr móðurbróðir hans, ok er ei sagt frá þeirra viðskiptum, fyrr enn Hrólfr fèll af baki fyrir konungi. Var hann þegar handtekinn, bundinn ok fluttr til herbúða konungs. Mágus jarl reið móti Hálfdani, ok var þeirra viðskipti bæði hart ok langt, en svo skilja þeir sína atreið, at Hálfdann fèll af hesti sínum, en Mágus greip hann þegar, ok lèt binda hann ok flytja til herbúða konungs. Vígvarðr reið at þeim riddara, er Skjálgr hèt; hann var fèhirðir Ubba jarls. Ok er þeir mœtast, grípr Vígvarðr annarri sinni hendi um háls honum, ok hefr hann upp úr söðlinum; annarri hendi tók hann undir fœtr honum, ok keyrði hann at höfðinu niðr við jörðu til bana. Rögnvaldr ríðr nú fram; hann hafði burtstöng 10 álna langa ok lítit járn í framan. Hann reið at Ubba, ok leggr í skjöld hans, ok í gegnum, ok festi í brynjunni stöngina;

þá lyptir hann honum upp úr söðlinum, ok setr stöngina á knè sèr, en Ubbi sprauklaði[1]) á oddinum; hann reið þá um allan vígvöllinn með Ubba. At þessu œptu ok hlógu allir. Konungr bað þá upp gefa bardagann. Var fátt eptir liðs þeirra brœðra, ok lýkr við þat þessum bardaga.

56. Keisari ferr nú til borgar sinnar með fengnum sigri, ok hafði með sèr þá er herteknir voru. Eptir þetta lèt konungr stefna þing fjölmennt, ok tjáir firi alþýðu öll viðskipti þeirra brœðra, Hrólfs ok Hálfdanar, ok svo sættargjörð við sonu Ámunda. Vil ek nú þat kunnugt gjöra, þótt móðurbrœðr mínir hafi gjört mèr mikinn skaða ok ríki mínu, þá vil ek gefa þeim grið firi vora frændsemi; þar með vil ek at þeir þiggi hèr með oss fagra veizlu, því at ek vil veita brúðkaup drottningarinnar, móður minnar, því at ek þikkist vita, at þetta herhlaup hafa þeir meir gjört firi eggjan Ubba jarls, enn firi illvilja við oss. Ubbi jarl skal sitja í höptum, þar til er þessi veizla er úti, en síðan vil ek, at þèr dœmit honum þann dóm, sem yðr þikkir viðrkvæmligr, því at ek vil ei þann dóm dœma, því at lengi var hann mèr eptirlátr. Nú lætr konungr búa hit sterkasta festaröl, ok at þeirri veizlu gengr Rögnvaldr at eiga drottningu Ermenga, ok er ekki þess við getit, at hún gjörði í því neinar tregður. Ok er þessi veizla hafði staðit hálfan mánuð með öllum nógum föngum, skiljast þeir allir með kærleika ok mikilli vináttu, út leystir með mörgum stórgjöfum. Ok áðr þessi veizla var enduð, kallar konungr saman alla ríkismenn, at þeir um dœmi, hvern dóm Ubbi skal hafa firi sín vèlræði ok svik. Var þat eitt umdœmi allra, at hann hefði hæðiligan dauða. Síðan voru tekin tvö ótamin hross, ok voru þar bundnar við fœtr hans, sinn fótr við hvort, ok drógu þau hann svo víða um Saxland, ok urðu þau

[1]) spraunklaði, D.

hans æfilok. þeir Hrólfr ok Hálfdann fóru nú heimleiðis, ok leiddi konungr þá út með mikilli rausn, ok skildu með blíðu, ok hèldu þat alla daga síðan. Vígvarðr konungr fór heim til Danmerkr. Skildust þeir konungr vel ok sœmiliga. Svo sem allt lið var á bruttu, er langt var at komit, talar konungr við Mágus, ok mælti: hverju skulu vit nú því fram fara, at vorn sóma mætti nú mest í auka? Mágus svarar: þat legg ek til, herra, at þèr með öllum þínum mönnum farit með her yðvarn til Frakklands; þar ræðr firi sá konungr, er Konráðr heitir; hann er vitr konungr ok mjök gamall. Hann á sèr eina dóttur, er Konstantía heitir; hún er ung at aldri; allra kvenna er hún fríðust, ok allar kvennligar listir hefir hún numit. Hennar skaltu fá, ef ek má ráða, ok stýra ríki í Frakklandi, ok vera þar konungr; er þat ríki miklu frægra. Rögnvaldr skal stýra Vernizuborg, Aðalvarðr Spíransborg, Markvarðr Buslaraborg, Ingimarr Stransborg, en ek vil þiggja af yðr Parisborg, ok þjóna yðr meðan ek lifi. Konungr lèzt hans ráðum mundu fram fara.

57. Eptir þetta býr Karl keisari ferð sína, ok Mágus með honum, ok Ámundasynir, þeir sem eptir voru. þeim gaf vel byri, ok kvomu við Reimsborg; gengu á land upp, ok settu herbúðir sínar. Mágus mælti: ek skal fara heim til borgarinnar at finna konunginn, ok segja honum, hverra eyrinda er vær förum. Síðan fór Mágus til hallarinnar, ok kom þann tíma, er konungr var klæddr, ok kvaddi hann virðuliga. Konungr tók vel kveðju hans ok spurði, hverr hann væri. Hann sagði til sín, ok þat með, at herr var kominn í landit, ok þar rèð firi Karl keisari, ok ætlar hann at gjöra yðr tvo kosti: annan þann, at þèr gefit upp ríki, ok vill hann þá með heiðri ok sóma ganga at eiga dóttur þína, elligar attú haldir upp bardaga, því at hann ætlar þetta ríki at vinna. Konungr mælti: mart er mèr sagt af Mágus jarli, ok þat, at vel muni þín

ráð duga. Nú vil ek ráða undir þik leita, hvat mèr er líkast upp at taka; er mèr þat með sönnu sagt, at konungi hefði verit betra at hafa fyrr þín ráð. Mágus mælti: þess em ek sk·ldr, sem hverr annarra dugandi manna, at ráða þeim heilt, sem mín ráð vilja hafa, ok því er þat mín tillaga, herra, at ei haldir þú stríð við konung, því at mèr sýnist sem hann bjóði þèr fulla sœmd í því, er hann vill eiga dóttur yðra, því at aldri muntu henni fá frægara mann, þótt þú kjósir, um alla ríkisstjórn ok menn norðr hingat, en mèr þikkir þèr vísar ófarir, ef þú heldr stríð honum í móti, en þèr erut nú mjök gamlir, ok er yðr hit mesta heillabragð í því, at slíkr maðr taki ríkisstjórn eptir yðvarn dag, sem konungr er. Konungrinn kvað svá vera skyldu, sem Mágus lagði ráð á. Síðan stefnir hann eitt húsþing,[1]) ok tjár öllum mönnum orðsending konungs. Allir fýstu hann at gjöra vilja konungs, ok gefa honum dóttur sína; sögðu, sem satt var, at fáir voru hans jafningjar. Konungr biðr alla sína menn búast sem bezt, ok gengr í móti konungi með öllu því hoffólki, er í var staðnum, gleðjandi með mörgum fásènum leikum ok söngum, þeim er klerkar gjörðu, ok með öllum þeim ríkum ráðsmönnum, er með honum fóru. Sem konungr hitti keisarann, býðr hann honum til hinnar beztu veizlu, sem hann mátti honum bezt með fagna. Konungr þiggr þat með góðu. Nú sem allir voru sem kátastir, vekr konungr við Konráð konung um Konstantía. Mágus jarl sat í hjá tali þeirra, ok dró saman þeirra sátt með góðvilja. Konráðr konungr kvezt ei mundu níkvæða vilja, ok lèt sem ei mundi fremri maðr við hann mægjast, enn svo sem konungr var. Nú sem þeir urðu á allt sáttir sín í millum, lætr konungr til sín kalla[2]) drottningu sína ok dóttur. Sem þeim komu orð konungsins, búast þær með miklu skarti; gengu síðan til konungs hallar.

[1]) D; út herþing, hinar. [2]) bætt inn í.

Allir glöddust við þeirra innkomu. Heilsuðu þær vel ok hæveskliga á konung ok á allt hans föruneyti. Ei hirðum vèr at greina yfirlit eðr klæðabúnað konungsdóttur, en hitt viljum vèr segja, at hún bar list ok kurteisi um fram aðrar konur ok meyjar, þær sem í landinu voru. Konungr tók vel kveðju konungsdóttur, ok setti hana í knè sèr, ok sagði henni allt mál, sem fallit var, ok bað hana gefa til þessa gott samþykki. Hún svarar: skyldi ek mann elska eptir boði ok samþykki föður míns, þá munda ek mèr slíkan mann helzt kjósa, sem þèr erut, firi alls sakir, ef ek kynna svo gjöra sem yðr mætti vel líka. Var nú aukin veizlan, ok boðit til öllum dýrustum mönnum. Þar var Trajanus biskup ok Lais Heinreksson, er fyrr var getit. Margir voru þar jarlar ok barúnar, hertogar ok allt stórmenni, þat er ríki hèlt í Frakklandi. Þessi veizla stóð tvo mánaði; ok er hún var at enda, stefnir Konráðr konungr þing, ok á því þingi stendr hann upp ok mælti: ek vil þat kunnugt gjöra öllum stjórnarmönnum ríkis þessa, ok þar með allri alþýðu, at ek hefi lengi stjórnat ríki þessu; eru margir konungar skattgildir undir mik. þó at ek hafi ei viljat keisari heita; vil ek öllum yðr þakka mikilliga góðvilja yðvarn. Hefir ek nú gipt dóttur mína einum ágætum konungi, Karli keisara. Nú vil ek gefa honum ríkisstjórn yfir öllu Frakklandi með öllum þeim ríkjum, er ek hefi átt. Skal hann nú hèr vera til konungs tekinn. Var nú svá gjört, sem konungr bauð. Eptir þat var slitit veizlunni. Gaf Karl konungr öllum góðar gjafir. Mágus jarli gaf hann Parisborg, en Konráðr konungr fór til Tifursborgar,[1]) en Karl konungr settist í Reimsborg. Rögnvaldr fór til Saxlands, ok settist í Vernizuborg, en Vígvarðr í Danmörk. Settust nú allir um kyrrt.

58. Nú er þar til máls at taka, at þá er Trajanus

[1]) Tifrisborgar, D, og út á spássíunni: Ciprisborgar.

biskup hafði ráð á lagit með Lais, at hit næsta sumar eptir bjósı Lais til fundar[1]) við Barum sinn kaupunaut at ákveðnum degi. Lais kom snemma um morgun einn saman. Barus heilsar á hann, ok kvað hann nú vel hafa gjört þat sem hann hafði honum heitit. Lais mælti: nú em ek kominn á þinn fund, ok em ek nú búinn at vinna hvat er þú vilt. Barus fór fyrst til borðs. Barus mælti: litla hríð af degi þarf hèr til at vinna, þat er ek ætla at starfa láta. Líðr nú á daginn. Lais mælti: nú í stað vil ek vinna, þat er ek skal, ok bíða ei til nætr. Barus mælti: nú skultu brátt vinna, en ei em ek enn búinn. Nú líðr enn stund. Lais mælti: nú mun ek fara til skips. Barus mælti: vit skulum nú fara. Nú ganga þeir þar til er dimmir; þeir eru þá komnir á eitt nes. Barus mælti: hvat moldborg er hèr firi okkr? Lais svarar: dys nokkur er þetta. Barus mælti: hversu nýlig er hún? Lais mælti: víst er hún forn. Barus mælti: fara skulu vit lengra. Ok enn gengu þeir um stund. Þá mælti Barus: hvat moldhrúgu er þar fyrir þèr? Lais mælti þetta er dys, ok er ei forn. Barus mælti: fara skulum vit enn á framanvert nesit. Barus mælti: hvat hrúgu er þar? Lais mælti: þetta er ný dys. Barus mælti: hèr skulu vit til grafa. Nú fekk hann Lais pál ok reku, ok bað hann af moka moldinni, ok þar undir fann Lais mann mikinn nýgrafinn. Barus mælti: nú skaltu kryfja mann þenna, ok taka úr honum öll iðrin. Síðan skaltu stinga höfðinu upp undir bringubein hins dauða, ok vita, hvártú sèr nokkut fleiri menn. Lais gjörði sem Barus mælti. Síðan las Barus yfir honum frœði sín. Ok er hann hafði litla stund legit, spurði Barus: sèr þú nokkut fleira? Lais mælti: sè ek víst víða, því at ek sè um allan heiminn. Barus mælti sèr þú nokkut fyrir óorðna hluti? Lais svarar: mart sè ek fyrir; eðr at hverju viltu mik spyrja?

[1]) handritin hafa: ferðar.

Barus mælti: hversu lengi mun faðir þinn lifa? Lais svarar: nítján vetr, segir hann. Barus mælti: en þóra systir þín? 10 vetr, segir Lais. Skamma stund skal þat hit fagra hold frœvast[1]; eðr hversu lengi skal hinn vondi hornahöttr lifa, Trajanus biskup? Lais mælti: 7 vetr ok 20. Barus mælti: of lengi lifir sá bannsetti hornaskálkr, svo óþarfr sem hann mun öllum vera. Hversu lengi skaltu lifa? 5 vetr, segir Lais. Barus mælti: hve lengi skal ek lifa? Lais svarar: ei til morguns. Bíð þú nú lítt-at. þá hugsar Lais þat er biskup sagði honum, ok hleypr ór skrokknum sem fljótast mátti hann. Nú hefir Barus reitt upp sverðit, ok höggr í skrokkinn, ok fellr áfram í gröfina; svo vannst honum at mikit, at hann braut sik á háls, ok var þegar dauðr. Síðan mokar Lais moldu yfir hann, ok gengr síðan til skipa sinna, ok siglir um sumarit til Danmerkr, ok finnr Vígvarð, ok var honum þá gefit Valdimars[2] nafn, ok sat þar í góðu yfirlæti.

59 þegar er Lais var farinn til fundar við Barum, býr Trajanus biskup skip úr landi; hann velr þar á menn. Nú sem hann var búinn, siglir hann til Skotlands. þar sem hann kom við land, rèði fyrir sá jarl, er Sergíus hèt. Hann átti sèr eina dóttur, er Flórentía er nefnd; sá þótti þar beztr kostr. Var þat ei undarligt, því at jarl var bæði vitr ok ríkr. Trajanus biskup biðr þessarrar meyjar til handa Lais, ok sagði, at hann skyldi ei vanta gull nè silfr nè ríki: á hann ok sèr marga ágæta menn til fylgdar; þar er fyrstr Rögnvaldr ok Mágus jarl, Valdimar konungr af Danmörk, Aðalvarðr ok Markvarðr af Saxlandi; þá er Heinrekr konungr faðir hans, þó at með þeim sè lítil blíða. Mun Lais her at draga, ef honum er synjat konunnar. Ok er jarl heyrði þessi orð biskups, vissi hann, at þetta var allt satt, er biskup sagði; þikkist ei víst vita, hvárt honum býzt fremri maðr til mágs.

[1]) trega firrast, D. [2]) C, D; valdsmanns, A, B.

Heitir hann konunni, ok greiðir fè mikit með henni. Siglir biskup heim á leið. En þá er hausta tók, vendir Lais ok heimleiðis, ok kemr undir ey eina, þá sem Trajanus biskup hafði komit við, ok tjaldat á landi. Lais talar nú til sinna manna: hèr munu vèr at landi leggja ok vita, hverìr hèr hafa tjaldat. Leggja þeir nú at, ok getr Lais at líta eina fríða konu úti hjá tjaldinu. Hann mælti þá: hèr mun vel til bera, því at hèr skal ek líf á leggja, at ek fái þessa konu, því at öngva hefi ek sèt þá fyrr, er mèr hefir svá í skap fallit. Nú skulu vèr taka herklæði vor, ok vita hvat firi er. Þeir gjörðu svo. Gengu herklæddir inn í tjaldit. Biskup sat þá yfir borði ok kona þessi hjá honum. Sem biskup sèr Lais, stóð hann með fagnaði upp í móti honum, ok bað hann setjast niðr hjá sèr ok konu þessi. Lais þekkist þetta, ok varð feginn Trajanó biskupi. Hann spyrr Lais, hversu farizt hefði. Hann sagði allt sem farit hafði. Lais spurði hann, hvaðan hann hefði at komit; en biskup segir honum, at þessa konu hefði hann fengit til handa Lais. Hann þakkaði honum þenna góðvilja með mörgum fögrum orðum. Þeir sváfu af um nóttina. Um morgin snemma kvomu þeir við Frakkland, er þeir vildu helzt. Síðan lætr biskup búa veizlu fagra, og gekk Lais at eiga Flórentíu. Þau unnust mikit. Þegar tími var til at Flórentía mætti barn eiga, ól hún fagrt sveinbarn. Honum var nafn gefit, ok hèt hann Vilhjálmr. Hann vóx upp, og sendi Trajanus hann til Mágus jarls. Var hann þar lengi, og nam alls konar listir af Mágus jarli.

60. Lais býst nú burt af Frakklandi, ok siglir um sumarit, ok ætlar til Danmerkr. Flórentía er með honum. Lais kemr við Danmörk, ok hefir fimm skip. Ok sem hann hefir verit þar þrjár nætr, sèr hann einn morgin, hvar sigla 7 skip, ok leggja at landi skammt frá þeim. Lais sèr þetta. Í flokki þeirra sèr hann einn mikinn

mann; hann hafði frœkiligt lið. þeir gengu á land með öllu sínu liði. Lais gekk til fundar við þessa menn, ok kvaddi þá ok spurði, hverir þeir væri. Hinn mikli maðr svarar: ek heiti Ingjaldr; ek á byggð í Noregi þar sem á Skugga heitir, ok ligg ek í víking hvert sumar; eðr hvat heitir þú? Lais sagði til sín. Ingjaldr svarar: þú munt eiga dóttur Sergíus jarls, ok hefir fóstri þinn Trajanus biskup þat vel gjört ok vitrliga, sem annat; en bjóða mun ek þèr tvo kosti: haf hvorn er þú kýss: sá er annarr, attú sverist við mik í fóstbrœðralag, ok eigum allt fè báðir saman, eða hald við mik bardaga, utan þú vilir af vit skiljum við svo búit. Lais mælti: vel býðr þú ok vaskliga; vil ek ok skjótt kjósa: skulu vit saman leggja alla okkra fjárhluti. þeir bundu þetta með fastmælum. Fóru nú í víking um sumarit, ok varð þeim gott til fjár. Var hverjum dauðinn víss, er ekki gafst upp firi þeim. Sigldu heim um haustit til Frakklands, ok höfðu þá 12 skip, ok voru með biskupi um vetrinn. Hit fjórða sumar lèt Lais eptir hinn mesta hluta lausafjár hjá biskupi. þeir höfðu þá 30 skipa ok velbúin. Flórentía fór með þeim. Sigldu um sumarit til Rúðulands[1]). þar rèðu fyrir jarlar 2; hèt annarr Haraldr, en annarr Tóki. þeir voru hermenn miklir ok illir viðreignar. þegar þeir urðu varir við herinn, slógu þeir eldi í vita[2]); var þegar á þrim nóttum víst um allt þetta ríki, ef herr var kominn, hvaðan sem at kom. þeir höfðu með sèr 12 blámenn, digra sem naut ok bláir sem hel, en sterkir sem tröll. Á þeim voru járnviðjur, en þegar þeir voru lausir látnir, þá brutu þeir bæði herskip, en bitu menn sem hundar. þegar sem þeir Lais komu við land, þá slógu landsmenn lausum blámönnum. Hlupu[3]) þeir beljandi til skipanna með gapanda gini. þeir höfðu tenn sem geltir. þeir voru búnir svo, at þeir höfðu stórar járnkylfur. þeir

[1]) Rúðu, D. [2]) D; viða, A, B. [3]) hljópu, D.

gengu þegar á þat skip, er næst þeim var, ok lömdu allt í sundr, en drápu menn alla. Varð þar engi mótstaða, því at þeir kvomu á úvart [ um nótt á skipit[1]). Þeir Ingjaldr ok Lais urðu varir við, ok herklæddust, og lögðu saman skipunum; báru firi borð bæði grjót ok stórviðu, ok lömdu svo alla blámennina. Síðan hjuggu þeir ok lögðu, ok lètu þá ei ná upp á skipin, ok drápu þá svo alla. Þó höfðu þeir lamit firi þeim tvö skip. Eptir þat ganga þeir á land upp. Sáu þeir óvígan her fara í móti sèr[2]) með herópi. Þeir Lais ok Ingjaldr fylkja liði sínu, ok slær þar í ákafan bardaga. Ganga þeir vel fram. Lais gekk í móti Tóka, ok var þeirra atgangr harðr ok langr. Lais reiðir upp sverðit, ok höggr í hjálm Tóka, ok klauf höfuðit ok búkinn allt til beltis. Í því var Lais lagðr í gegnum með spjóti, því at hann geymdi ei at hlífa sèr, ok fèll hann dauðr til jarðar. Þetta sèr Ingjaldr; kastar hann frá sèr skildinum, ok hjó með báðum höndum. Aldri var sá[3]) skjöldr, hjálmr né brynja, er ei varð at klofna fyrir þeim stórhöggum, er Ingjaldr veitti; drap ok svo margan mann, at varla mátti telja. Hann gat at sjá Harald. Ingjaldr veðr at honum með miklu kappi. Hann hefr sik upp yfir mannaþröngina ok stiklar yfir mennina, ok kom standandi niðr, þrífr í hjálmbandit á Haraldi annarri hendi, en annarri hendi höggr hann í sundr í tvo hluti[4]) merkismann jarls. Síðan *tók* hann jarl báðum höndum, ok braut hann á háls. Var nú þegar slegit upp herópi; fèll nú hverr um þveran annan. Er nú rekinn flóttinn. Þágu allir grið, þeir er vildu; en hinir voru allir drepnir. Fèkk Ingjaldr þar of fjár ok alls kyns góðgripi. Hann segir nú Flórentíu, at hann vill fara til Noregs, ok láta af herferðum, ok spyrr, hvat hún vill nú til ráðs taka. Hún segist

[1]) frá [ bætt inn í eptir D. [2]) D; þeim, A, B, C. [3]) bætt inn í eptir D. [4]) í tvau, D.

vilja fara til Skotlands; fýsti hana at finna föður sinn. Ingjaldr skiptir öllu fè og skipum, og sendir belming Trajanó biskupi. Ok er biskup frèttir þetta, harmar hann mjök lát fóstra síns, ok veitir honum virðuligan gröpt, því at Ingjaldr hafði honum hann sendan. Eptir þetta lætr Ingjaldr í haf; ok þá er hann hafði litla hríð í hafi verit, varð Flórentía lèttari, ok fœddi meybarn; var þat skírt, ok hèt Þóra. Ok þegar er hún hafði meyna fœtt, andast Flórentía. Þeim gefr nú vel byri til þess at Ingjaldr kemr við Noreg, ok settist at eignum sínum á Skugga. Þóra fœddist þar upp, þar til er hún var 12 vetra. Síðan gengr Ingjaldr at eiga hana. Ok er þau höfðu litla hríð ásamt verit, áttu þau son, er Hrólfr hèt. Hann óx upp með feðr sínum á Skugga. Ok þegar sem hann er fimm vetra, lagðist hann í eldaskála, ok gjörðist mikill ok sterkr, en ógurligr glópr, ok var hann kallaðr skuggafífl. Látum hèr nú standa, en segjum frá Karli keisara ok Ámundasonum.

61. Þá er Rögnvaldr hafði stýrt Saxlandi 20 vetr, kemr herr óvígr af Gallicía. Þar rèð firi konungr sá, er Ósanctrix hèt. Hann var móðurbróðir Hlöðvers konungs, föður Karls konungs. Hann var allra manna mestr ok sterkastr, ok heiðinn sem hundr, ok þó hafði hann primsignaðr verit, ok svo mikill hermaðr, at hverr er í móti honum vildi, þá seldi hann lífit firi lítit. Hann hafði fyrir löngu frètt víg frænda síns, ok þat með, at Mágus jarli var ekki ómáttugt. Rögnvaldr ok þeir brœðr voru öruggir til bardaga, ok fólk allt í Saxlandi þeim velviljat, en Karl konungr mestr vinr þeirra brœðra. Hafði konungrinn búit sinn her 20 vetr, ok er nú kominn við Saxland skammt frá Vernizuborg. Rögnvaldr hefir frètt þessa hersögu; sendir boð um allt Saxland. Hann gerði boð Vígvarði konungi, Mágus jarli, Karli keisara, Heinreki konungi móðurbróður sínum. Þá var Vilhjálmr Laisson

13 vetra, ok fór hann þá með Mágus jarli. Ok þar kom Aðalvarðr ok Markvarðr, Ingimarr ok Tosti, Hrólfr ok Hálfdann synir Húgons keisara; þeir höfðu hundrað manna. Ósanctrix hafði valit 10 menn, þá er hann fèkk frœknasta; þeir höfðu svo[1]) mikit numit í fjölkynngi, at þeir gjörðu alls kyns sjónhverfingar. Ósanctrix var ok svo mikill galdramaðr, at ekki mátti við honum standa; brást hann í ýmsi kvikinda líki. Þéir höfðu svo mart skipa, at ei sá út yfir, en allir vellir voru þaktir af herbúðum. Þeir lètu bera merki fyrir sèr, er fremstir voru. Einn hèt Erkúlis[2]) hinn sterki, annarr Líkaon, þriði Sörkvir[3]), fjórði Sóti, fimmti Svartr, sètti Hauknefr, sjöundi Herjólfr, átti Stígandi, níundi Bröðmóðr, tíundi Tanni. Var hverr öðrum verri viðreignar. Nú er þessi herr allr saman kominn af hvorratveggja hendi, því at Rögnvaldr hafði mikinn viðbúnað af öllum þessum ríkjum, sem áðr var getit. Slær nú með þeim í mikinn bardaga. Œpa hvorirtveggja heróp, ok geysist hverr fram fyrir annan. Mágus jarl skipar liði í móti til framgöngu: skal Rögnvaldr bera sitt merki móti hinum sterka Erkúlis, en Karl móti Líkaon, Vígvarðr móti Sörkvi, Aðalvarðr móti Sóta, Markvarðr móti Svarti, Hrólfr móti Hauknef, Hálfdann móti Herjólfi, Ingimarr móti Stíganda, Vilhjálmr Laisson móti Böðmóð, Heinrekr móti Tanna, Mágus jarl móti Ósanctrix, því at þar kenndi sik enginn annarr[4]) mann til.

Nú er at segja frá viðskiptum þessarrar orrustu ok endilyktum, því er vèr megum ei greina alla atburði þessarra viðskipta, því at í þessum mikla her voru margir ágætir kappar, bæði at hug ok harðfengi, þá sem vit kunnum ei at nefna. Gengu svo hvorirtveggja gegnum

[1]) bætt inn í eptir D. [2]) C, D; A, B: Kúlus, en síðan alltaf Erkúlus. [3]) vantar í A, B; sbr. fylkingaskipunina. [4]) annarra, A, B, C.

fylkingar, at þeirra framgangi ok afrekum mátti ei skakka í höggum eðr mannadrápum, meðan er sjálfir höfðingjar reyndu ei sín í milli. Nú er at segja frá Erkúlis hinum sterka, at hann höggr á báðar hendr, ok drepr með sínu sverði svo margan mann, at[1]) ei mátti telja. Nú með því at Rögnvaldr átti liðit at verja, gengr hann fram djarfliga móti honum, ok höggr í skjöld hans svo mikit högg, at nær tók þriðjung skjaldarins. Ok er hann sèr Rögnvald veita sèr tilræði, leggr hann spjóti til hans, ok í gegnum skjöldinn Rögnvaldar af svo miklu afli, at spjótit sökk í völlinn upp at höndum honum. Hann laut mjök eptir laginu. Rögnvaldr sèr nú höggstað á honum, ok slæmdi sverðinu á hrygg honum, svo at Erkúlis tók sundr í miðju. Nú varð mikit óp í her Saxa, er þeir sjá þenna atburð; sóttu margir nú fram betr enn áðr, því at Erkúlis hafði áðr margan gjört óttafenginn af sinni framgöngu. Nú svo sem Rögnvaldr hafði yfirkomit þeim[2]), sem mestr var af köppum Ósanctrix, verðr hann herinn svo ákafr, at hann geymir sín ei. Líkaon höggr til Karls, en Rögnvaldr var þar nær kominn, ok bregðr firi skildinum, ok bar af konungi höggit. Konungr snýst við, ok höggr til Líkaons, ok beit ei á. Rögnvaldr sèr þat, ok höggr til hans í höfuðit, en Líkaon bregðr fyrir skildinum, en Rögnvaldr slæmir undan honum báða fœtrna, ok fellr Líkaon dauðr til jarðar. Nú sèr Rögnvaldr, at Vilhjálmr er fallinn, ok ei dauðr, en Böðmóðr höggr nú til hans. Rögnvaldr skundar þangat, ok leggr sverðinu gegnum Böðmóð. Þá eru fallnir báðir brœðr Ingimarr ok Tosti. Hrólfr son Húgons felldi Herjólf, ok fèll síðan dauðr. Þetta sèr Hálfdann bróðir hans, ok vill heldr falla dauðr, enn Hauknefr standi lengr. Hann tók öxina tveim höndum, ok höggr til hans, en Hauknefr tók mann, ok bar fyrir sik, ok tók hann í sundr, ok fótinn undan

[1]) er, A, B, C. [2]) þann, D.

Hauknef. Síðan hjó Hauknefr Hálfdan banahögg. Þetta sèr Vígvarðr. Hefir hann þá drepit Sörkvi. Grípr til Hauknefs, ok vindr hann á lopt svo sterkliga, at hann rekr[1]) hann niðr at höfðinu í mannþröngina, svo at aldri síðan sá hann sól. Enn dóu þar 4 menn aðrir. Þá er Markvarðr fallinn ok Aðalvarðr; dauðir voru ok þeir báðir, er við þá höfðu barizt. Nú er Vilhjálmr Laisson kominn til Heinreks keisara, ok drepa þeir nú báðir saman skjótt Tanna, því at þeir voru tveir um einn. Nú slá þeir sèr allir saman: Karl keisari, Rögnvaldr ok Vígvarðr, Vilhjálmr Laisson ok Heinrekr konungr, ok drepa menn alla, þá sem firi þeim urðu. Varð nú lítil móttaka, síðan allir kappar Ósanctrix voru fallnir. Gjörðu þeir svo stóra valköstu firi sèr, at varla mátti vega firi. Nú skal segja frá Ósanctrix ok Mágus jarli. Þeir mœtast í öndverðum bardaga. Höggr hvorr til annars, ok beit aldri á, hvorr sem til hjó. Þeir hörfuðu frá bardaganum í eina lægð. Konungrinn hjó svo títt, at Mágas gat varla varit sik. Konungr mælti[2]): þú ert mikill afreksmaðr, svo öngvan veit[3]) ek þinn maka á alla slœgð ok prettvísi, því at ek veit, at hèr mun hvorr okkarr lítit vinna á öðrum. Vil ek, at vit förum aptr til bardagans, ok vitum hvat þar ferr fram. Mágus bað hann því ráða. En er hann leit frá sèr, sá hann, at þar sem hann hafði verit, var einn villigöltr svo mikill, at slíkan sá hann aldri. Hann sœkir svo ótt at Mágus, at hann sèr, at þetta mun honum litla stund endast. Öll hans vísindi voru nú brostin[4]), svo hann kom öngvu til vegar móti þeim ófagnaði; svo var hann ok yfirkominn af mœði. Nú er at segja frá Rögnvaldi, at hann sèr hvergi Mágus jarl. Ferr hann nú brutt úr bardaganum, ok kemr nú í þessa sömu lægð, ok sèr nú hvar Mágus verr sik. Í því höggr Rögnvaldr

[1]) hrekr, D. [2]) bætt inn í eptir C, D. [3]) bætt inn í eptir B, C; fann, D. [4]) C, D; brottu, A, B.

til galtarins. þá brást Ósanctrix í drekalíki, ok náir sverð Rögnvalds ei til drekans. þetta it illa kvikindi flýgr þar til er þat kemr yfir Vígvarð, ok í þessu lítr hann upp yfir sik, en drekinn spýr yfir hann því eitri, er hann hafði meðferðar. Í því kemr Rögnvaldr ok Mágus at, ok höggva báðir senn til drekans, ok í því steypist Ósanctrix í jörðina, ok er ei getit hans lengr í þessi sögu, en þó kemr hann víða við aðrar frásagnir. Nú staðnar[1]) þessi orrusta með því móti, at náliga var drepinn allr sá herr, er kominn var af Gallieía. Vígvarðr lifði ei um eitt dœgr þaðan frá. Rögnvaldr, Mágus, Karl keisari taka þar of fjár í gulli ok silfri, ok mörg skip ok margar góðar gersimar. þat er sagt, at Rögnvaldr valdi enu beztu gripi, ok gaf Karli konungi at skilnaði. Sigldi Heinrekr konungr til Englands, ok Vilhjálmr með honum, en Karl ok Mágus til Frakklands. Segir hèr ekki af því, at þeir Rögnvaldr fyndist síðan. Rögnvaldr átti sèr þann son, er Hlöðverr hèt, ok varð hann ekki langlífr. þat er sagt, at Rögnvaldr varð sóttdauðr, ok Ermenga drottning, ok þótti hún en vænsta kona, meðan hún lifði. Mágus kom heim í Frakkland, ok settist um kyrrt at ríki sínu, ok þótti hinn mesti spekingr. Ok er hann hafði lengi setit í París, sagði hann Matthildi drottningu sinni, at hann mundi ekki lengi ríkisstjórn hafa, því at hann þóttist kenna þyngd á sik. Lèt hann kalla saman vini sína, ok gjörði skipan á því öllu, er honum varðaði, ok þakkaði öllum mönnum sína velgjörninga. Eptir þetta liðu ei langar stundir, áðr enn sótt fœrði[2]) hann til bana. Var hann drottningu mjök harmdauði, ok svo öllum af út. Hann átti sèr einn son, er Hávarðr hèt; hann var lítill maðr ok kurteiss. Hann óx upp í hirð Karls keisara. Ok eptir andlát Mágus jarls, gefr Karl keisari honum jarlsnafn með ríki því, er faðir hans hafði átt. Matthildr

[1]) stöðvast, D. [2]) nálgast, A, B, C.

lifði litlu lengr, enn Mágus, því at hana angraði mjök dauði hans. Karl átti sèr eina dóttur, er Elinborg hèt. Hún var allra kvenna fríðust sýnum; hún var löngum með Hávarði jarli. Látum hèr nú fyrst standa þessa frásögn, en segjum nú fyrst frá því, er jafnfram gjörðist.

63. Hrólfr skuggafífl stóð upp einn morgun ok strýkr handleggina, ok var heldr mikill; gengr fyrir föður sinn ok segir, at hann vill á brutt at leita sèr frægðar: ok vil ek, attú fáir mèr penninga. Ingjaldr mælti: ekki hefir þú haft mín ráð hèr til; skal ek þèr ok ekki fè fá, fyrr enn ek veit hvat manna þú verðr. Hann fèkk honum einn fèsjóð, ok voru í 9 merkr silfrs, ok mælti: verði þèr þetta at öngu, þá er vel attú hafir ei meira. Hann gekk þá til móður sinnar, ok beiddi hana fjár. Hún svarar: hèr eru fimm merkr silfrs, ok skaltu þessu ei lóga, fyrr enn þú veizt at hverju gagni þèr verðr þat er faðir þinn fèkk þèr. Nú ferr hann á brutt, ok kemr til sjóvar. Þar voru fyrir herskip, ok bað hann mennina at taka við sèr. Þeir kváðu þat gott mundu at þrælka hann, er hann var svo sterkligr. Taka þeir við honum. En þegar hann kemr í haf, liggr hann í húðfati sínu, svo at hann kemr aldri á brutt, ok þat hyggja þeir, at hann gjöri þar allar sínar nauðsynjar. Nú sem þeir koma við England, þá ganga þeir á torg, en Hrólfr liggr sem áðr. Þeir finna hermenn, er nýkomnir voru þar. Þeir hafa lypting tjaldat með silki yfir skipi sínu. Þeir spyrja kaupmenn, hvat þeir vilja kaupa, en þeir sögðu, at maðr var sá á skipi þeirra, er konu vildi[1]) kaupa. Þeir báðu hann þá þangat koma. Þeir sögðust hafa ungar herteknar konur ok meyjar. Kaupmenn gengu til móts við Hrólf ok spurðu, hvárt hann vill konu kaupa. Hrólfr spurði, hversu dýrar skyldi vera. Þeir sögðu, at sumar skyldu vera fyrir 3 merkr ok 5 merkr, en sumar firi 10 merkr

[1]) Í A, B stendur: vilja.

silfrs. Hrólfr mælti: þá skal ek kaupa, er dýrst er. Þeir færðu honum þá konu, en hann gaf í móti henni 10 merkr silfrs. Hrólfr leggr þá konu í húðfatit hjá sèr, ok bröltir á henni, ok lèt allheimsliga. Ok er náttar, sofnar hann aptr, ok þau bæði. En um morguninn, er þau vakna, þá er á brutt skipit, en þau liggja tvö ein á landi. Þikkjast þau nú illa komin. Standa upp, ok ganga á land. Ok er þau höfðu skammt farit, finna þau firi sèr mann. Hann heilsar þeim, ok mælti: ertu Hrólfr? Hann svarar: kalla máttu svo, ef þú vilt. Þessi maðr mælti: hvert ætlar þú nú? Hann svarar: ek ætla til kastalans. Maðrinn svarar: ek á ráð kastalans, ok skaltu ekki þar koma kauplaust. Hrólfr mælti: ek hefi 5 merkr silfrs. Maðrinn svarar: viltu gefa mèr þat firi ykkr í vetr? Þat vil ek, segir Hrólfr, heldr enn vit göngum yfir; má enn vel verða, þá þessu er lokit. Ferr Hrólfr nú heim með kastalamanni. Þikkir honum þar allgott. Ok er sumar kom, þá talar kastalamaðr til við Hrólf, at hann megi nú fara brutt á morgin. Nú líðr af nóttin, ok um morguninn, er þau vakna, liggr þar hjá þeim eitt klæði gott. Hrólfr segir, at hann skal taka til sín klæðit. Kastalamaðr segir, at hann skal hafa þat á torg, ok selja firi 10 merkr; en ef enn sami[1]) falar optar, þá mettu fyrir 20 merkr. Nú ferr Hrólfr þar til er hann fann einn mann. Hann spyrr: frá hverjum hefir þú stolit klæðinu? Hrólfr mælti: borit var til mín, ok veit ek ei, hverju ek skal til svara. Aldri kaupi ek at síðr, hversu sem þat er til komit, ok met hve dýrt vera skal. Firi 10 merkr, segir Hrólfr. Maðrinn mælti: sjá má þat, attú hefir aldri neitt átt, ok er snápligt at tala slíkt. Hrólfr mælti: kaup firi 20 merkr, ef þèr þikkir þat betra. Hinn mælti: nú þikki mèr þú hálfu meira fól, enn áðr, ok gjör þik ei svo heimskan, ok met svá sem þú vilt ódýrst selja.

[1]) D; einn samt, A, B, C.

Hrólfr mælti: þú fær þat ekki ódýrra, enn fyrir 10 merkr, ok kunna þó þökk fyrir. Nú greiðir hinn honum féit, ok ferr Hrólfr nú heim, ok er nú á bruttu konan, ok þikkir honum nú illa at fara, er hann finnr hana ekki. Nú kom húsherra heim, ok mælti: ekki er undarligt, þó svo verði; ek fann öngvan heimskára mann, enn þik; eðr hvat ætlar þú nú bezt ráð? Hrólfr kvezt þat ei vita. Hinn mælti: á húsganginn ertu bezt fallinn, því at þú ert mikill ok ósinniligr. Hrólfr mælti: vilda ek enn hèr vera með yðr, ok tækir þú silfrit. Hinn mælti: betra þætti mèr at taka jafnmikit fè, þá er konan fylgdi þèr, en ei spari ek, attú eyðir þessu, ok gangir síðan á volað. Hrólfr mælti: nokkut gott mun þá enn fyrir liggja, ok mun ek þat af yðr hljóta. Hinn mælti: nú talar þú mikla fólsku, því at nú máttu sjá, at nú eyðir þú öllu þínu gózi, en misst konuna[1]). Var Hrólfr þar nú aðra 12 mánaði.

64. Nú kemr sumarsdagr hinn fyrsti. Mælir kastalamaðr: nú skaltu fara brutt, Hrólfr, ok skal ek svo fylgja þèr, at aldri gangir þú eptir. Síðan hrindr hann honum út úr kastalanum. þeir fara til strandar. þar sèr Hrólfr fljóta knör einn, hlaðinn með allri gœzku ok mönnum. þeir gengu út á knörinn, ok sá Hrólfr yfir allt. Kastalamaðr mælti: þikki þèr ei sá maðr vel ríkr, en ei snauðr, er knörinn á? Hrólfr mælti: ei ætla ek at gagn verði at meira fè, ef þetta verðr at öngu. Kastalamaðr mælti: þenna knör gef ek þèr með mönnum ok öllum farmi, ok skaltu[2]) til segja, hvar er þèr þikkir á vanta. Hrólfr mælti: fyrir löngu þóttumst ek vita, at þú mundir vel við mik gjöra; en stýrimann þikki mèr vanta, ok kýs ek þar til sjálfan þik. Hann mælti: nú má vera, at þèr dugi hèðan af, því at nú varð þèr ei heimskliga. Nú skulum vit sigla til Vallands; skal ek heita Kaupahrói,

[1]) D; konunnar, A, B, C. [2]) bætt inn í eptir B.

en þú Helgi, bróðir minn; en þú skalt vita, at ek em Vilhjálmr Laisson, móðurbróðir þinn. Man ek nú fylgja þèr hèðan af, þar til er nokkut batnar um hag þinn. Sigla þeir nú til Vallands. Hrói bað bera gull ok gersimar á þat borð, er á land horfir, ok vita, ef nokkrir menn kœmi þeir, er þá vildi finna. Þegar sem konungsmenn sjá þetta, gengu þeir til strandar. Hrói mælti: hèr skulum vèr at landi leggja, því at Sigurðr konungsson er heima í ríkinu. Þeir lögðu at landi, ok áttu kaup við landsmenn. Konunginum var sagt, at þeir brœðr væri komnir, Helgi ok Kaupahrói. Konungrinn bauð þeim til veizlu, ok þat þiggja þeir. Konungr gaf þeim góðar gjafir. Hrói mælti: yðvart lítilæti vil ek prófa, herra; bið ek, at þèr ljáit mèr þrjá daga hall yðra, ok þiggit þar boð at okkr brœðrum við hundrað manna hvern dag. Konungr sagði, at þeir skyldi ráða. Nú búast þeir um, ok kemr hinn fyrsti dagr. Er konungrinn ekki kátr, ok öngvir hans vildarmenn, ok vildu allir heldr hafa konungs kost, firi þat, at hallin hafði fornan búnað, ok allr borðbúnaðr var mjök forn. Ok þá er kvelda tók, mælti konungr: veizla þessi, er þit hafit veitt, þœtti mèr til heyra óríkum mönnum, en ekki höfðingjum; nú þó skulut þit hafa þökk firi. Hrói mælti: vel gjörðut þèr, er þèr sögðut mèr, hversu yðr líkaði, ok skal um[1]) bœta á morgin, svo at vel sè. Konungr gekk þá at sofa. Um morguninn gekk konungr til veizlunnar, ok sá, at nú var höllin búin sœmiliga. Slíkt hit sama borðbúnaðr, vist ok drykkr var nú sœmligt. Var konungr nú ok kátr. Hrói mælti: hversu líkar yðr, herra? Konungr mælti: þetta væri en sœmiligsta veizla jörlum ok hertugum eðr lendum mönnum. Hrói þakkar konungi sitt lítilæti, ok sagði, at betr skyldi um morguninn. Konungr fór þá til at sofa. Nú kemr morgunn. Gengr konungr til kirkju, ok síðan

[1]) þannig C, D; skulum, A, B.

til hallar; ok er konungr kom í höllina, sá hann, at hallin hafði svá góðan búnað, at aldri hafði hann slíkan sèt; at slíku hófi var borðbúnaðr, drykkr ok vist, at ei mátti betri vera. Voru nú allir kátir, en konungrinn kátastr. Hrói spurði konunginn, hversu honum líkaði. Hann svarar: aldri væri sá keisari, at ei væri vel veitt, svo ekki má at finna. Hrói mælti: drekki þèr nú þá höfðingliga. Þeir brœðr skenktu báðir með ákafa, ok fèll hverr sofandi niðr, þar sem sat, svo konungrinn ok allir svófu. Síðan gengu þeir brœðr út at einum stöpli. Hrói mælti til Helga: far hèr inn, ok tak þat sem þú finnr hèr inni, en lát eptir 10 merkr silfrs, þat er í sjóðnum er. Hrólfr gekk nú inn, ok sá, at þar var kona hans. Hann varð henni feginn, og tók hana í fang sèr, ok bar hana til skips. Var þar kominn Vilhjálmr með allan hallarbúnaðinn. Hann talar við Hrólf: þú skalt sigla til Englands, ok stýra kastalanum þar til at vit finnumst, en ek skal hèr eptir vera, ok munu vit nú verða at reyna með okkr, Sigurðr konungsson ok ek, því at hann hefir tekit mik sèr til jafnaðarmanns, ok er þat vel. Hrólfr siglir nú til Englands, ok Sigríðr kona hans með honum, dóttir Hrings konungs, en Vilhjálmr tók sèr nú stafkarlsgjörvi, ok ferr nú þar til, er hann kemr fram í eina borg, er Marsil[1]) heitir. Þar rèð fyrir jarl einn, er Úlfr hèt. Þar bar svo til, at þar var þá kominn Sigurðr konungsson, ok átti þar at þiggja veizlu. Þess skal nú geta, at Hringr konungr vaknar í hallinni, ok sèr at á bruttu er allr hallarumbúnaðrinn. Lágu þar sumir menn í hálmi, en sumir í spýju sinni. Ekki fundust þeir Kaupahrói, ok á bruttu var skip þeirra. Þikkist konungr nú vita, at þetta hefir Vilhjálmr ok Hrólfr verit, frændi hans, með því at Sigríðr dóttir hans var á bruttu. Hann

[1]) Morsis, D; Mors, E.

gerir nú brèf til Sigurðar sonar síns, ok tjár honum þenna atburð sem til bar.

65. Nú er Sigurðr kom til Úlfs, ok á þessu kveldi settust þeir til drykkju. Þar kemr gangandi fram einn stafkarl; hann lætr svangliga. Stundum hleypr hann í eldaskála, en stundum í höllina, sjaldan hljóðr, ok mælti: undarliga er Sigurði konungssyni farit: hann gefr oss fátækum stafkörlum öngvar gjafir ölmusu, en hann gefr þeim fullfengi, er ekki þarf. Hèr ei ok ekki til gamans haft, utan hellt í sik drykk. Jarlinum var þetta sagt ok konungssyni, hvat karlinn sagði. Satt er þetta, sagði Sigurðr, ok er þat gaman, at menn strengi nokkur heit. Jarl mælti: þá skulut þèr þessa skemmtan upp hefja. Sigurðr mælti: þèr skulut fyrst heitstrengja. Þá mælti jarl: þess strengi ek heit, at ek skal aldri nokkrum þjóna, utan ykkr feðgum, ok aldri undir höfuð leggjast yðvarn vilja. Konungsson mælti: þess strengi ek heit, at ek skal hvert mál rètt dœma, ef rètt er undir flutt. Stafkarl mælti: ei dugir, at ek þegja nú, með því at ek vakta til um gleði þessa: þess strengi ek heit, at ek skal hvert mál rètt undir dóm flytja, ef dómr er rèttr. Nú mælti síðan hverr um, þat sem líkaði, ok varð þat mikil gleði. Nú bað konungsson, at stafkarlinn skyldi taka, ok í því slokknuðu ljósin öll, en karl fannst ekki. Sigurðr mælti: nú skal læsa öll hlið borgarinnar, svo at engi maðr komist úr borginni. Þetta var nú gjört, ok um nóttina kom karl til eins borgarhliðs, ok mælti: ek var sendr at kaupa urtir, ok skylda ek skjótt aptr koma. Þeir svöruðu: þú skalt hvergi fara, hvat sem þú segir. Karl mælti: þèr skulut þiggja af mèr fè, ok drekkit þat á meðan. Þeir mæltu: þú ert enn bezti karl, ok vorr vin. Karl fór nú leiðar sinnar, ok þar til er hann hitti varðmann; hann hèt Hermóðr. Karl mælti: harða útivist hefir þú, Hermóðr, ok sè ek, attú ert allmjök syfjaðr, ok því kom ek

hèr, ok vil ek betr gjöra við þik, enn aðrir. Hefi ek hèr nokkut af víni, at þú drekkir, en ek mun nú halda vörð á meðan, en þú sofna, þó at lítt sè; ek verð í borgina áðr lýsir. Nú sezt Hermóðr niðr ok drekkr, ok þakkar karli. Karl tekr tvo diska með alls kyns krásum; er Hermóðr mjök lystugr til matar, ok etr þrifliga, ok drekkr þar til hann fellr sofinn niðr. Síðan drepr hann Hermóð á þann hátt, at hann kyrkir hann, ok tekr hans klæði, ok ferr í, en færir hann í sín. Stígr síðan á hest sinn, ok ríðr um vörðinn, ok kemr til portanna. þeir leita, en hann frèttir, at hverju þeir leita; en þeir sögðust leita at karli einum fátœkum, er fór úr borginni í þat mund, er borginni skyldi aptr læsa. þenna karl fann ek; svaraði hann mèr illa, en ek drap hann, ok liggr hann hèr nú dauðr, ok farit nú til, ok þekkit hann. þeir fóru ok sögðu, at sá hinn sami væri. Sigurðr þakkar Hermóði, ok sagði, at hann var jafnan heppnastr. Eptir þat ríðr Sigurðr heim, ok ætlar nú at safna liði, ok vill drepa Hrólf skuggafífl. þikkist nú hafa ráð hans, er áðr var drepinn Vilhjálmr, þar sem karlinn[1]) var. Nú hefir Sigurðr ráðagjörð við Hermóð. þá mælti Hermóðr: þikkist þú nokkut þat eiga, er þú herjar til. Sigurðr mælti: þat þikkist ek eiga sem föðurarf minn. En ef þú kaupir at hermönnum, ok gefr þitt fyrir frjálst? Sigurðr svarar: einn veg á ek þat, ok hitt; en þat er rètt, at ek heri eptir mínu, hvar sem komit er, ok ek hefni mín. Hermóðr svarar: ei hefndir þú þín, þóttú ræntir annan kaupi sínu. Sigurðr svarar: satt er þat; en þó vil ek ráða, hversu ek leita eptir systur minni. Nú kalla ek rètt dœmt ok rètt undir flutt; skaltu nú vita, at þetta er Vilhjálmr Laisson, ok hugsa þat aldri, attú vinnir mik í nokkru. Lætr Vilhjálmr kveða við lúðra sína. þusti nú fram mikill mannfjöldi úr skóginum til móts við Vilhjálm.

[1]) C, D; þrællinn, A, B.

Hann býðr nú Sigurði tvo kosti: þann annan, at berjast, [ok skeiki at sköpuðu[1]), hinn annan, at vit sverjumst í fóstbrœðralag, ok taki ek Vilhjálmr konungdóm eptir föður þinn, en þú sèrt jarl minn. Sigurðr mælti: skjótt mun ek kjósa, at ek þikkist enn bezta mann yfir mèr hafa ok hinn vitrasta þar sem þú ert, ok skal ek þèr gjarna þjóna. Síðan fóru allir heim til hallar, ok er búin virðulig veizla. Gefr Hringr konungr Vilhjálmi konungsnafn, en Sigurði syni sínum jarlsríki, en Hrólfr gekk at eiga Sigríði dóttur Hrings konungs, ok gjörðist hann konungr yfir Englandi. Takast góðar ástir með þeim, ok þótti Hrólfr hinn mesti maðr.

66. Nú þikkir Vilhjálmi þat eitt á vanta sína ríkisstjórn, at hann á sèr öngva konu. Hann segir Hringi konungi, hvat honum kœmi í skap. Hann mælti: ek hefi spurn af, at fyrir Smálöndum ráða jarlar tveir; heitir annarr Roðulgeirr, en annarr Galifreyr. Hann er allra manna vitrastr ok hinn mesti hermaðr. Hann á tvo sonu; heitir annarr Frankus, en annarr Níceta; þeir eru stórir ok sterkir. Roðulgeirr er harðr ok ekki mjök vitr. Hann á sèr dóttur, er Oktavía heitir, allra kvenna vænst, ok svo vitr, at engi maðr stendr henni á sporði. Hennar vil ek biðja, og skaltu, Sigurðr, fara ok flytja mín eyrindi. Hann kvað svá vera skyldu. Lætr hann nú í haf, ok kom við Smálönd. Gekk á land við 300 manna, ok til hallar Roðulgeirs. Tók hann við honum vel. Sigurðr flytr sitt eyrindi vel. Roðulgeirr sendir eptir Galifrey bróður sínum. Ok sem hann kom, frètti Roðulgeirr, hvat honum þœtti ráð; en Galifreyr mælti: ekki er þat mitt ráð at gipta hana ei Vilhjálmi, því at lítit verðr honum firi at vinna Smálönd, þar sem hann vann einn samt Valland með ráðum sínum ok vitrleik. Roðulgeirr mælti: þar þikki mèr mikil skömm til vor gjör, at hann þikkist of góðr at fara ferð þessa sjálfr, ok svo lengi sem hann lifir, skal

[1]) frá [ D; við mik, A, B, C.

hann aldri fá mína dóttur. Galifreyr mælti: því mun ek fylgja, sem þú ferr fram um þetta mál, en ei kemr mèr þat á óvart, þótt hann fái dóttur þína firi utan þinn vilja, ok fáir þú þar af meiri skömm, enn þótt hann fœri ei at sinni þessa ferð, en ekki mun ek berjast við Vilhjálm. Oktavía mælti: vel mun sú gipt, er Vilhjálm fær, en þó, faðir, mun ek þínu ráði fylgja. Roðulgeirr aflar sèr smíða, ok lætr smíða eina sterka borg með mörgum listum. Oktavía fèkk Sigurði eitt lítit eski, ok bað hann fœra Vilhjálmi, ok veit hann þá minn vilja. Sigurðr sigldi heim, ok hitti Vilhjálm; fœrði honum eskit. Hann lauk upp, ok sá at þar var eitt mannlíkan; þat var fagrt ok frítt, en þó var þat nokkut undarliga: ásjónan horfði á bak aptr. Vilhjálmr mælti: fögr ok fríð er þessi kona, er líkneskjan er eptir gjör, og þat sè ek, at hún vill fylgja ráðum föður síns, en ei vill hún oss níta; hefir hún hèr sýnt sinn vilja, ok þess strengi ek heit: annathvort skal ek hana eiga, eða láta lífit.

67. Vilhjálmr gjörir nú orð Hrólfi Ingjaldssyni; búast þeir nú, ok hafa 20 skip vel skiput. Sigla nú til Smálanda. Ganga á land til borgarinnar. Þeir sáu, at þar var vel um búit ok sterkliga. Skipa nú til atgöngu, ok verðr ekki at gjört, því at mannmart var í borginni. Á ein stór fèll í gegnum borgina með flugafossum. Slèttr jarðvegr var allt inn at borginni, ok hvergi braut at. Eikr stóðu 10, ok var langt millum hverrar; þær stóðust á allar. Þeir settu herbúðir sínar öllum megin borgarinnar. Vilhjálmr talar þá við Sigurð ok Hrólf, at þeir mundi halda vörð; mun ek oss bezt til trúa. Þeir sögðu svo vera skyldu. Vilhjálmi verðr nú víða reikat, ok gengr langt frá borginni einn saman, en þeir Sigurðr ok Hrólfr halda vörðinn. Vilhjálmr sá eina stóra þjóðbraut, at vel máttu tíu senn eykir aka jafnfram. Þessi vegr lá til eikrinnar, ok þar var undir jarðhús sterkliga læst. Því

næst heyrði hann mannamál. Vilhjálmr bjó sik nú undarliga, ok tók sèr stafkarlsgjörvi, ok batt sèr geitarskegg; var hann þeim líkr í máli, sem hann vildi, ok hafði hann þat numit at Mágus fóstra sínum. Gekk hann nú við hœkjur tvær fram at jarðhúsinu, ok fagnaði þeim ok mælti: flýtum vèr oss heim í borgina, svo at varðmenn Vilhjálms verði eigi varir við oss. Þeir svöruðu: fyrri muntu þrífast aldri, enn þú farir í borgina. Karl mælti: verit þèr mèr ei reiðir, því ek kann mart at segja yðr með sönnu frá Vilhjálmi; var ek þar firi skömmu hjá honum, ok lèt hann kúga mik til sagna, en ek var ráðinn í at svíkja ei minn herra. Þeir svöruðu: mart máttu segja, ok trúum vèr því alls ekki. Þeir fóru með 100 eykja, ok luku upp jarðhúsinu, ok óku inn kostinum, ok ætluðu aptr at læsa. Karl flœktist þá fyrir, og náðu þeir ei aptr at læsa. Hann mælti: þrífist sá aldri, er ei skal segja Vilhjálmi allt þat er ek er víss orðinn, ef ek skal ei inn komast í borgina, at sœkja ölmusu þá, er drottning vill gefa mèr, ok munut þèr sjálfir þessa gjalda. Karl tekr stafi sína, ok stumrar á brutt. Þeir hlaupa nú eptir honum, ok biðja hann heldr fara inn í borgina. Karl mælti: hitt væri betr, at ek kœmi þar aldri, því at af því mundut þèr fá mesta sneypu, ef ek fœra til herbúða, ok segða ek Vilhjálmi yðvart athœfi. Þeir báðu hann nú með sèr fara. Hann ferr nú í borgina með þeim. Karl sá, at þar var svo rammliga læst, at engi von var at inn mætti komast. Karl fór til steikarahúss ok beit hvert bein, er hann fèkk, ok drakk soð, ok lagðist síðan soðfullr niðr á branda. Drottning Oktavía gekk hvert kveld at kanna borgina, ok sjálf at læsa hennar port öll. Hún sá þenna karl ok mælti: hví vartu svo djarfr, attú komt í borgina, ok væri þat makligt, attú værir drepinn, ok leggst þá lítit fyrir þik. Karl mælti: mikit illt kemr við um hagi þína, er þú hrekr mik einn, enda má vera,

attú látir mjök, þóttú fáir Vilhjálm Laisson, því at hann er nú frægastr at íþróttum; mun honum ekki þökk á, attú hrekir mik. Mun þèr heldr hjálpvænligra at gefa mèr ölmusu, því at ek hefi nú ekki haft í kveldi annat, enn drukkit soð, en etit lítit bein. Drottning gekk þá til skemmu sinnar, en hann hrökklaði þar eptir, ok kom at skemmunni ok bað sèr ölmusu. Karl mælti: því kom mèr þat í hug, at drottning mundi ei vilja deyða mik úti í hrakviðri þessu; væri þat ok mikit sálutjón; eru mèr ok öll herbergi læst í staðnum, svo ek kemst hèr hvergi inn; vænta ek af drottningu mestrar myskunar, en mèr verðr þat at illu einu. Mærin segir drottningu hvat karl mælti. Drottning tók svo til orða: hvat mun við liggja, þótt karl liggi hèr inni? Fór hann nú inn, ok leggst niðr á skemmugólfit, ok lætr sem hann sofi. Sem þær voru sofnaðar, þá tekr Vilhjálmr alla lykla borgarinnar, ok ferr svo til manna sinna, ok biðr allan herinn vopnast. Drottning vaknar, ok verðr vör við, at lyklarnir eru bruttu. Þikkist nú vita, hverr þessi stafkarl muni verit hafa. Stendr upp skjótt, ok læsir með nýjum lásum öll hlið borgarinnar, ok með stórum járnslám. Hún leggst niðr síðan, ok lætr sem ekki hafi at orðit. Nú kemr Vilhjálmr konungr at jarðhúsinu með herinn, ok finnr, at þat er læst svo sterkliga, at þeir fá ekki at gjört. Sátu nú um borgina hálfan mánuð. Ok einn tíma nokkurn dag eðr nótt heldr Vilhjálmr vörð. Hann gengr upp með ánni, ok sèr at margir stokkar flutu í ánni, ok rak fyrir straumi. Vilhjálmr tekr einn stokkinn, ok sèr at holr var innan, ok var þar í matr ok drykkr. Sèr hann at svo mun um alla stokkana búit. Berr nú straumrinn stokkana undir borgina, ok í iðukastinu fyrir norðan borgina voru allir upp undnir. Vilhjálmr segir þetta Sigurði ok Hrólfi, ok bað þá búa sik við 200 manna með þeim, er frœknastir voru.

68. Nú sem nóttin kom, ganga þeir undir borgina ok með ánni, taka stokkana alla, ok voru þeir nær 100. Þeir tóku úr stokkunum, ok lètu í mann í hvern stokk með vopnum ok klæðum. Veltu sèr síðan á móðuna, ok rekr undir borgina, ok eru þeir upp dregnir ok var þá við skilit. Vilhjálmr spyrndi botnunum úr stokkunum, ok svá hverr at öðrum; stóðu upp ok herklæddust. Gengu nú í borgina. Var þetta snemma, svo at engvir voru klæddir, nema þiónustumenn. Vantar nú ei vopnabrak. Var nú Roðulgeirr jarl handtekinn. Gengu nú allir á hönd Vilhjálmi. Oktavía var nú leidd til Vilhjálms, ok mælti hann: þat þikkist ek sjá, at þetta eru ráð feðr þíns, en ekki þín.. Vissa ek þat, þegar ek sá mannlíkanit. Skal faðir þinn nú leystr vera, ef ek skal fá þín. Var nú svo gjört, ok gaf jarl gott samþykki til at Vilhjálmr fengi Oktavíu. Var nú búit til veizlu, ok fèkk Vilhjálmr Oktavíu. Greiddi jarl út svo mikit gull ok silfr ok lausa aura, at þat var ótal. Siglir Vilhjálmr nú heim til Vallands. Voru þeirra samfarar góðar, ok brátt var Oktavía hafandi at barni, ok fœddi eitt sveinbarn eptir settum tíma. Þessi sveinn var skírðr með Lais nafni, en fermdr með Geirarðs nafni, ok volli því Roðulgeirr jarl, því at þat var hans ættnafn. Hann bauð sveininum til sín, ok þat vildi Vilhjálmr, því at jarli þótti miklu varða Geirarðs nafnit. Vex hann þar upp, ok er hann svo mikill ok vænn, at engi fèkkst hans jafningi. Hann nam allar íþróttir. Hann var svo sterkr, at hvergi varð honum aflafátt, þar sem hann tók til. Ok er hann gjörist nú þroskaðr, tekr jarl sótt. Hann kallar Geirarð til sín, ok gefr honum öll Smálönd, ok þar með jarlsnafn, mikit gull ok lausafè, og bað honum virkta við alla sína vini. Ok er hann hafði ráð gjört um þat, sem honum þótti varða, leiðir sjá sótt hann til bana. Tekr Geirarðr þar við ríkisstjórn. Þeir Frankus ok Níeeta voru hans skósveinar,

ok þjónuðu honum vel ok trúliga, ok vildu aldri við hann skiljast. Geirarðr unni þeim mikit, og vildi ekki þeirra mein vita. Líða nú stundir.

69. Nú er at segja frá því, at Karl konungr hafði stýrt Frakklandi síðan Mágus andaðist ok Ámundasynir. Hávarðr Mágusson var þá orðinn jarl konungs, en Elinborg, dóttir konungs, var þá fullvaxin. Hún var bæði vitr, væn, kurteis ok at öllu vel skapi fallin sem maðr mundi kjósa. Höfðu margir hennar beðit, ok vildi konungr öngum þeirra gipta hana. Ok þá er Karl konungr hafði lengi stjórnat Frakklandi með miklum sóma, tók hann sótt. Ok er hann fann, at sóttin tók mjök at mœða hann, kallar hann til sín vini sína, og tjáði þeim, at hann gaf dóttur sinni ríkisstjórn eptir sik, ok bað henni virkta við vini sína. Hann skipaði Hávarð jarl til lètta við hana. Nú sem konungr hafði talat þat, sem honum þótti varða, leiðir sú sótt hann til bana. Var hann mjök harmdauði, því at hann hafði verit blíðr ok stjórnsamr ok ástsæll af öllum. Nú tekr Elinborg drottning við ríkinu, ok Hávarðr jarl með henni. Er þar nú allt kyrrt í Frakklandi eptir fráfall keisarans.

70. Þat er nú at segja, at einn tíma talar Geirarðr við *Galifrey* frænda sinn: svo er komit, at èk vil sigla til Frakklands, ok finna drottning Elinborg, ok biðja hennar mèr til handa til eiginkonu. Búast þeir, ok sigla fyrst til Frakklands. Ganga á land ok heim til hallar. Er þar vel við þeim tekit, ok þó ei með mikilli blíðu. Allir undrast vöxt ok fríðleik ok kurteisi Geirarðs jarls. Um morgun gekk jarl á tal við hana, ok berr upp eyrindi sín. Sem hún heyrði hans orð, mælti hún: hverr dirfði yðr at tala til vor slíka háðung, þar sem þèr erut lítils háttar jarl, þótt þèr eigit hit tæpiligasta bjargaura at firra yðr húsgangi, ok sèrt ei með öllu stafkarl, ok þar sem ek er einberni sjálf, ok tekit allan ríkdóm eptir föður

minn, ok stýri ek ein Frakklandi öllu; ok þarftu ei þessa máls at leita. Geirarðr mælti: þat er mín ætlan, frú, at ei líði langir tímar, þó ek sè ei ríkr, attú vildir þetta ómælt hafa. Ok þó at þú vilir, þá er ei víst, hvárt þess er kostr, sem nú bið ek; en hugsa svá firi þèr, attú munt svá bjóðast mèr, sem nú bið ek. Drottning mælti: ok engi er sá stafkarl, at ek vil ei heldr enn þik, ok far ei lengr með slíku gabbi. Jarl kvaddi drottningu, ok bað hana vel lifa, ok gekk nú til skipa sinna. Galifreyr mælti: hví skulu vèr ei taka drottningu með nauðung? Geirarðr mælti: gjört hefða ek, þá er konungr lifði, ef ek hefði þat viljat, ok var þá vaskligra, ok aldri hefir þú jafnilla talat. Ferr Geirarðr nú heim í Smálönd, ok lagðist í hernað, ok gáfust allir í hans vald þeir er hann áttu við. Elinborg stýrir Frakklandi, ok biðja hennar margir konungar ok konungasynir, ok vill hún engan eiga; þótti henni Geirarðr þeim öllum fremri. Iðrast nú, er hún hefir svo sneypiliga svarat, en spyrr alls kyns frægð ok frama af honum.

71. Fyrir utan hafit hefir einn frægr konungr spurn til Elinborgar, at hún stýrir Frakklandi, en ríkit höfðingjalaust. Hugsar nú, at þessa frú vill hann fá, ella deyja. Hann heitir Príams, svo mikill ok sterkr hermaðr, at engi maðr stóð við honum í öllu Afríka, bæði at illsku ok frækleik. Hann stýrir Serklandi, heiðinn sem hundr. Hvern drepr hann kristinn mann sem hann náir. Vinnr hann klaustr ok kirkjur, ok vinnr öll ódáðaverk. Drottningar ok konungadœtr lætr hann leggja niðr hjá sèr viku, ok hálfan mánuð, ok so lengi hverja sem honum fellst í þokka; síðan sendir hann þær heim aptr, sumar með barni, en sumar með annarri háðung; allar fóru þær brutt með harmi nógum, því at engi vildi á hans vald hafa komit; þikkir öllum ok nóg svívirða, þeim sem þeirra forráð eiga. Þikkir honum sín frægð sem mest, at þær sýti sem

flestar. Margt hefir hann hraustra manna, ok semja þeir sik eptir honum. Hinn fremsti beitir Baldvini sterki, annarr Baldvini frægi[1]); þeir eru báðir bræðr Príams konungs. Blankandín heitir merkismaðr konungs, Ósvipr merkismaðr Baldvina sterka, en Kabinn merkismaðr Baldvina fræga[2]). Þeir voru illir viðreignar. Nú kemr Príams með allan sinn her til Frakklands. Drepr hvern er hann náir, ok neyddi til blóta, brýtr borgir ok brennir kirkjur. Ok sem hann er kominn tíu mílur frá Reimsborg, setr hann sínar herbúðir, ok talar við sína menn: þú Baldvini, bróðir minn, far til Reimsborgar, ok seg drottningu, at ek ætla skjótt til borgarinnar. Skal hún búa veizlu oss á móti. Skal ek hana fá, ok stýra Frakklandi, ef hún vill trúa á Þór ok Óðin. Skulut þit, bræðr mínir, þá ráða Serklandi. Vill hún ei þetta, þá gjörum vær henni mánaðar stefnu at safna liði ok berjast. Skal ek taka þá ríkit, en gipta hana þrælum vorum, ok skal hún þó hafa vora trú. Baldvini reið við tíunda mann til Reimsborgar, ok stè af hestum sínum ok gengr í hallina firi drottningu. Hún kvaddi Baldvina, ok bauð þeim þar at vera svo lengi þeim líkaði. Baldvini svarar: Príams konungr sendi mik til þín, at segja þèr þá kosti, at hann býðr þèr at búa virðuliga veizlu, ok vill hann fá þín. Þar með vill hann at þú trúir á guð hans Þór ok Óðin. Ella skyldir þú safna liði, og vildi hann þá bíða mánuð, ok berjast síðan. Drottning mælti: heyrt hefi ek getit Príams konungs ok hans frægðar, og seg honum svá, at ek vil honum ei verja, en þó vil ek ráðast um við mína vini. Vil ek at konungr gefi mèr tveggja mánaða frest at búast við veizlu, en þèr skulut hafa nógan kost meðan, sem herrinn þarf at hafa. Honum þótti drottning vel svara ok vitrliga. Stigu síðan á hesta sína ok riðu á fund Príams konungs,

[1]) bætt inn í samkvæmt því sem síðar segir. [2]) þannig, báðar.

ok sögðu honum ansvör drottningar; en Príams bað fœra tjöld sín nær borginni: ok skulu allir hlutir í friði svo sem drottning bað, því ek vænti hún geri minn vilja.

72. Nú stefnir drottning þing, ok sagði sínum mönnum sem komit var. Allir svara á einn hátt: hefðit þèr viljat eiga Geirarð, þá mundi Príams yðr öngva kosti gjöra; en nú sjáit þèr sjálfar firi yðrum hlut. Hávarðr mælti: heldr viljum vèr falla, enn gipta þik heiðnum manni. Drottning mælti: sjá þikkjumst ek þat, at óráðligt er at berjast; en þó skulut þèr ráða. Var nú slitit þinginu, ok haft upp herboð um allt ríkit. Þat var einn dag, sem Hávarðr sat hjá drottningu, at hún mælti: ek vil senda þik, jarl, á fund Geirarðs jarls, ok með brèf þau, er ek hefi skrifa látit. Hávarðr mælti: makliga ferr þèr at, drottning, at þú vilt hafa hans styrk, sem þú hefir áðr firismát hann. Drottning mælti: þat skal ek aldri hirða; sè ek at mèr hefir þat óvitrliga orðit. Vil ek nú, attú farir ok segir honum, at ek vil hans lið ok fylgi móti þessum illvirkja, er oss vil sneypa, ok fœr honum þetta brèf. Skipist hann ekki við þat, þá fœr þú honum annat. Með því at þá játar hann ei[1]) ferðinni, þá sýn honum hit þriðja, ok skal þar firi innsigli, vígslugull föður míns. Máttu þá ei meira at gjöra. Mun hann þá svara einhverju. Ríðr Hávarðr nú við 12. mann þar til hann finnr Geirarð. Hann ríðr hvern dag í turníment við sína sveina. Ok sem Hávarðr kemr á hans fund, berr hann fram brèf drottningar. ok kveðr jarl hœveskliga. Geirarðr vill ei líta á brèfit, ok bað brenna. Hávarðr var þar um nóttina. Stendr upp snemma, ok gengr firi Geirarð ok mælti: Elinborg sendi yðr kveðju, ok bað mik tjá yðr þetta annat brèf, ok bað mik segja þèr, at Príams Serkjakonungr er kominn í hennar ríki með óflýjanda her, ok ætlar at vinna Frakkland. Nú er Geirarðr heyrði orð hennar

[1]) bætt inn í.

þessi, spratt hann upp ok á hest sinn ok allir hans sveinar, ok svaraði engu orði, ok ei lèt hann sem hann heyrði. Hann skemmti sèr við sveina sína á skógi allan dag til nætr. Hávarði þikkir nú óvænkask mjök, er hann verðr ekki víss af jarli. Stóð enn upp snemma ok gengr firi Geirarð, ok mælti: sá guð, er styrkr er allra rèttlátra höfðingja, varðveiti yðra tign, jarl. Elinborg drottning sendi yðr boð með sönnum góðvilja, ok þat, at enn bölvaði hundr Príams Serkjakonungr ætlar at vinna með ofríki allt Frakkland; því vill hún fyrr gefa allt sitt ríki í þitt valdi, ef þèr vilit stríða við Príams konung, ok hrinda af henni þessi styrjöld. Geirarðr svarar: ekki á ek Príams konungi rangt at gjalda, því at hann hefir mèr í öngu misboðit; hefi ek ok nóg gull ok lausafè ok svá lönd hit sama; þikki mèr ok ei saka á hvora leið at verðr sátt þeirra í millum, þó hann mýki nokkut stríð ok ofsa drottningar, ok kem ek ei til Frakklands firi slíkt. Má ok frúnni verða nógr styrkr at ofstœki sínu, þótt vèr skakkum ekki þeirra viðskipti. Hávarðr mælti: allt þikkist frú Elinborg þat ofgjört hafa, er hún hefir talat yðr í móti. Velr hún nú yðr hin sœmiligustu orð, ok því gefr hún nú yðr í vald allt Frakkland, ok þar með bað hún, attú skyldir sjá fyrir hennar kosti með ríkinu. Er hèr brèf með vígslugulli feðr hennar, at þetta sannar, er hún bað mik yðr tjá. Jarl brosti þá lítt, ok mælti: ei er drottning jafnvitr, sem ek ætla, at hún hyggr at ek eða annarr stafkarls jafningi muni frjálsa hana firi slíkum kappa; en þó má ek vel sjá brèf drottningar. Hávarðr fær honum brèfit með gullinu. Sem hann hafði brèfit yfir sèt, mælti hann: fyrr skal ek höggvinn í sundr í smástykki, enn Príams gjöri frúnni nokkut grand, ef ek má hjálpa henni. Far nú og seg frúnni, at ek kem til Reimsborgar, sem fyrst má ek. Nú ríðr Hávarðr jarl heim, ok segir drottningu hvar komit var. Hún varð nú

harðla glöð, ok bað Hávarð safna liði. Geirarðr safnar liði, ok biðr alla vitja sín til Reimsborgar, en hann lèzt þar mundu bíða.

73. Nú sem Príams konungr verðr víss, at drottning ætlar at halda stríð við hann, lætr hann búa allan sinn her. Hann hefir 7 þúsundir manna, ok ríðr nú til borgarinnar. Drottning lætr allan sinn her búinn til orrustu. Nú er at segja frá Geirarði ok sveinum hans, Frankus ok Níceta, at þeir ríða þar til er þeir koma til Reimsborgar. Þeir höfðu náttstað at einnar konu. Hún vann þeim beina þann sem þurftu. Svófu þeir í einni skemmu um nóttina, en hestar þeirra voru vel geymdir. Árla um morguninn var Geirarðr á fótum ok vakti sveina sína, ok bað taka hesta þeirra. Þeir voru allir svartir, ok allar þeirra herfórur. Ganga til borðs, ok því næst kveða við lúðrar, ok geystist nú fram Príams móti Frankismönnum, ok tekst þar harðr bardagi, ok fellr fjöldi af landsmönnum. Nú stíga þeir Geirarðr á hesta sína, ok ríða á eina hæð ok sjá til bardagans. Drottning var í borgarturni, ok sá fall sinna manna. Sá hún ok þessa menn frá borginni, en ekki þekkir hún þá. Var sjá annarr dagr orrustunnar. Voru mjök fallnir borgarmenn, ok búnir til at flýja. Sem Geirarðr sèr þetta, ríðr hann fram svo geystr, at öngu eirir. Hann ríðr nú í gegnum fylkingar Príams konungs. Varð nú mikit mannfall á heiðingjum. Sem Príams sèr þetta, kallar hann til sín Baldvina, ok mælti: sèr þú meinvættir þær þrjár, er komnar eru ok drepa niðr menn vora sem sauði; far til þeirra ok drep þá, því at þat vinnr þú litla hríð. Baldvini mælti: ekki eru þessir menn svo auðunnir. Ríðr hann nú fram at Geirarði, ok verðr þar harðr atgangr. Leggr Geirarðr til Baldvina, en hann berr af sèr lagit, ok höggr í móti til Geirarðs ok á skjöldinn, ok beit ekki á. Nú höggr Geirarðr í höfuð á Baldvina ok klauf hann at endilöngu, en þeir Níceta

ok Frankus drápu Ósvip merkismann hans. Eptir þat riðu þeir fram Geirarðr ok sveinar hans til borgarinnar, ok færðu húsfreyju marga hesta með gylltum söðlum ok fríðum vopnum ok klæðum. Hún þakkaði þeim vel firi sinn framgang. Nú talar Príams: því mun Baldvini bróðir minn svo seinn til sinna manna. Blankandín mælti: ek trúi hann fallinn, því at þeir riðu til borgarinnar, er börðust við hann. Konungr mælti: hinn ágæti Júpíter, sagði hann, hjálpa mèr, svo at ek vil heldr láta allt Frakkland, enn minn bróður, ok skjótt skal ek hans hefna. Nú er brugðit bardaga, ok bundin sár manna, ok sofa þeir af um nóttina. Ok er morgunn kom, stendr Geirarðr upp ok hans sveinar; riðu nú til bardagans aptr á sínum hestum, ok með hvítum berfórum. Ríða nú allir saman í gegnum fylkingar konungs. En um nóttina hafði húsfrúin vitjat til skemmu, er Geirarðr svaf ok hans sveinar. Hún sèr í eitt húðfat, er lá við dyrr öðrum megin; þar lá maðr fagr. ok fríðr; hann hafði snjóhvítt höfuð, ok var í silkitreyju. Hún sèr í annat húðfat, ok sèr þar mann mjök á sama hátt, ok var þessi þó sterkligri. Í miðri skemmu sèr hún húðfat; þar lá maðr, svo öngvan hafði hún slíkan sèt at öllu, því at svo deildi lit í hans kinnum sem blandin saman rósa við hvíta lilju. Hans hendr ok fœtr voru smáir, en leggir, fingr ok allir limir sterkligir svo at stóru bar. Á hans minnsta fingri þekkir hún vígslugull Karls keisara. Þetta þikkir henni undarligt. Um daginn ferr hún firi drottningu ok segir, hversu háttat var, því at þessi kona hafði fóstrat drottningu. Drottning bað hana vel gjöra við þessa menn. Hún kvað þat skylt, því at í gær færðu þeir mèr vopnhesta með gylltum söðlum og gáfu mèr, en riðu hèðan snemma í morgin til bardaga, ok voru allir á hvítum hestum. Förum nú í vígskörð ok sjáum þeirra atburði. Þær gengu nú í hæstu turna borgarinnar, ok sáu á þeirra leik. Nú er at

segja frá Príamó konungi, at hann sèr þessa 3, er komnir voru í bardagann. Honum eirir illa fall sinna manna. Hann bað nú Baldvina fræga ríða fram með 60 manna, at drepa þessa menn, er ekki stóð við: eru þeir líkir at höggum þeim vörgum, er í gær drápu vort lið ok Baldvina bróður minn. Baldvini mælti: ei skal ek fyrr aptr koma, enn ek færi þèr höfuð hans, ok hefni ek svo bróður míns. Hann ríðr nú fram at Geirarði, ok leggr til hans af öllu afli, svo spjótit stóð í skildinum. Geirarðr heldr frá sèr skildinum, en ekki bognaði hans handleggr, svo var hann sterkr, en annarri hendi þrífr hann Baldvina ok steypir honum at[1]) höfðinu í einn fúlan pytt, ok var þat hans bani. En þeir Níceta ok Frankus drápu Kabin merkismann hans. Þeir drápu þessa sextigi manna, ok taka hesta þeirra ok klæði, ok færa húsfreyju, en börðust til kvelds, en riðu síðan til borgar, ok svófu af nóttina. Nú ferr Príams til herbúða sinna, ok unir sèr illa.

74. Um morgininn eptir ferr Príams geystr til bardaga, ok eirir illa fall sinna manna, ok ætlar at hefna þeirra. Nú ríðr Geirarðr fram ok hans förunautar til Frankismanna, ok fylkja liði á þann hátt, at mjóst er framan, en breiðast aptan, ok kalla menn þat svínfylkt. Þettta hafði Príams ei fyrr sèt. Veit hann nú, at þeir eru enn komnir, er drepit hafa bræðr hans. Geirarðr hefir nú svarta hesta ok allar herfórur, ok svo sveinar hans. Hann ríðr nú firi allan herinn. Svo var hestr hans mjúkr sem einn veiðihundr; bítr bæði ok berr, en Geirarðr fellir hvern um þveran annan. Er nú orrusta hörð. Ríðr nú Príams fram ok drepr margan mann, svo at ótalt var. Þetta sèr Geirarðr; hleypir at fram, þar sem Príams er. Ok er hann ríðr skammt frá hernum, sem Príams sèr þenna mann, kallar hann: svá hjálpi mèr Maúmet guð minn, at aldri sá ek frægra mann enn þik.

[1]) á, A, B, C; hans höfði, D.

síðan ek bar mitt sverð, ok mikill skaði er at dauði skuli sigra þik ok þitt hvíta hold; en ek má þèr varla líf gefa, þar sem þú hefir drepit tvo brœðr mína ok mína menn marga. En sakir þess, at ek sè attú ert frægr riddari, þá vil ek bjóða þèr, attú snúist til mín ok þjónir vorri tign. Skal ek gefa þèr allt Frakkland ok Elinborg drottningu síðan ek hefi legit hjá henni sjö nætr. Síðan skulu vit drepa Geirarð jarl og sveina hans, því at nú sè ek hvar fram bruna merki; Geirarðr ferr þar með mikinn her. Geirarðr mælti: hræðast muntu Geirarð, er þú hræðist merki hans; en ei veit ek, hví þú býðr mèr tvíkosti, því at ek veit ei, attú hafir heldr vald á mèr, enn ek á þèr. Príams mælti: kjós nú annathvárt. Geirarðr mælti: aldri skal ek þèr þjóna svo lengi sem ek lifi. Príams reiddist nú mjök, ok keyrir fram fílinn, ok lagði til Geirarðs svá hart, at spjótskaptit bognaði, ok var þat járni vafit, en Geirarðr veik af sèr laginu, en leggr í móti með spjótinu í síðu fílsins, svá at hann fèll dauðr niðr. Príams höggr nú til Geirarðs, ok sundr hestinn firi framan bógana ok í völlinn niðr; en Geirarðr stiklar af baki, ok höggr á háls Príams svo af tók höfuðit, ok hendir þat á lopti. Fær sèr hest ok ríðr nú til borgarinnar til skemmu sinnar ok sveinar hans ok sezt til drykkju. En Vilhjálmr ok Galifreyr koma þá til bardagans, er Príams var fallinn. Ganga þeir fram djarfliga, ok drepa heiðingja allt til kvelds; en settu síðan landtjöld sín, ok voru þar um nóttina, en herr Frankismanna ferr til borgarinnar. Voru þeir mjök hugsjúkir, at þessir menn mundu berjast um morguninn, því at þeir þóttust vita, at Geirarðr jarl mundi þat vilja hafa, sem honum var heitit, en þóttust vita, at þessir menn mundu ei til einvígis barizt hafa þrír. Drottning bað þá vel um mælast: því at vel mun nú veita eptir Príams fallinn.

75. Þegar sem nóttin líðr, vaknar herrinn hvorutveggi,

ok þat sjá borgarmenn, at þessir enu frægu menn þrír ríða á hvítum hestum með gyllta hjálma ok til herbúða. Allr herrinn var búinn til bardaga. Ok sem herrinn sèr þessa menn, lögðu þeir af sèr hjálma, ok festu á knè sem þeir ætti sínum herra at fagna. Þessir menn stigu af baki, ok var þar fagnat herra Geirarði jarli. Nú verða borgarmenn þessu fegnir, at Geirarðr jarl hefir barizt með þeim. Var nú sagt drottningu. Nú lætr hún safna biskupum ok kennimönnum, er í staðnum voru, at gjöra prócessíu með allan prís. Nú lætr Geirarðr alla sína menn búast með allri list bæði at vopnum ok klæðum. Bar hann þó einn af öllum. Ríðr fyrir Vilhjálmr ok Geirarðr jarl, þar næst Galifreyr ok svá hverr at öðrum. Frankus ok Níceta báru merki þeirra sólu bjartari. Riðu nú í Reimsborg með alls kyns prís ok gleði. Nú kváðu við klukkur um alla borgina. Var þar troðit organ, psalteríum og simphón, kennimenn út berandi í höndum sèr krossa ok helga dóma, syngjandi guði lof. Allir heilsuðu herra Geirarði ok hans mönnum. Ok sem þeir komu inn um borgarhlið, stígr Geirarðr jarl af hesti sínum ok hans menn. Leiðir Hávarðr jarl þá til hallar. Var þar um búizt með mikilli prýði. Var Geirarðr jarl nú settr í þat hásæti, sem áðr hafði fyrr í setit Karl keisari. Þar í hjá sat Vilhjálmr ok Galifreyr, ok svá hverr at öðrum lendra manna. Nú er at segja frá drottningu, at hún býr sik með fásènum búnaði, at trautt má annan slíkan fá. Hennar meyjar voru búnar með miklu drambi ok skarti. Sem drottning ok hennar meyjar voru búnar, gengr drottning með fríðu föruneyti til hallar. Hún var svo fríð, at aldri síðan Sabadrottning var, fæddist fríðari kvennmaðr, enn hún. Sem hún kom í höllina, skein sólin á glergluggana, en með öllu saman: birti drottningar, klæðum ok gimsteinum, þeim sem hún bar, mátti varla í móti sjá. Hún gengr firi Geirarð ok kvaddi hann

með þessum orðum: sá guð, sem stýrir ok geymir alla hluti, ok dómari er allra, varðveiti yðr frá allri hneisu; viljum vèr ok allir vorir menn þakka yðr með fögrum orðum ok fríðu eptirlæti herraliga hreysti, er þèr frjálsuðut vort ríki ok þèr dráput með annarri yðarri hendi Príams enn heiðna hund, er áðr hafði herjat vort ríki. Því gáfum vèr allt vort ríki í yðvart vald áðr enn þèr frömdut þessa útreið, ok því skulut þèr vita, at vèr viljum allt halda með sönnum góðvilja, er vèr höfum yðr játat, ok þat við auka, er yðarr frami er þá meiri. Geirarðr jarl tók þá drottningu ok setti hana á knè sèr ok mælti: þik kýs ek fyrst af öllu, þar með Frakkland, ok vera hèr konungr yfir. Er nú þat fram komit, sem ok sagða yðr næstum. Drottning mælti: herra, getit þèr at öngu þessarrar óvizku, er oss hendi í þeim ansvörum, því at vèr viljum öll vor orð bœta eptir yðrum vilja þau sem vèr höfum oftalat, ok svo þikkjumst vèr hafa þat allt ofgert. Var nú veizla búin, ok boðit öllu stórmenni í landinu. Ok sem þessi söfnuðr var kominn, lætr drottning stefna fjölmennt þing, ok á þessu þingi talar hún fyrir alþýðu, hversu Geirarðr jarl hafði frjálsat hana með sínum hvatleik. Nú með ráði ok forsjá allra vorra vitrustu manna, þá bið ek, at þèr gefit herra Geirarði konungsnafn með öllu Frakklandi, því at oss sómir ei at eiga þann mann, er ei er konungr at nafni. Sem drottning hafði lokit sinni rœðu, fèllu allir at einu ráði, ok var honum gefit konungsnafn. Var nú af nýju aukin veizlan. Gekk Geirarðr at eiga drottningu. Var þessi veizla veitt með miklu kappi. Gaf herra Geirarðr öllum sœmiligar gjafir eptir sínu metorði. Geirarðr gaf sveinum sínum, Frankus og Níceta, Smálönd, ok gjörir þá jarla yfir, en Galifrey gefr hann eitt jarlsdœmi í Frakklandi. Nú gefr Vilhjálmr konungr syni sínum Geirarði Valland, en settist sjálfr í stein ok gaf sik guði. Skip þau er

Príams konungr hafði átt, gaf Geirarðr landsmönnum, en fèkk Hávarði sœmiligt kvonfang, ok er hann úr þessi sögu.

76. Geirarðr konungr stýrir nú Frakklandi ok Elinborg drottning, ok eru þeirra samfarar góðar. Ok ei höfðu þau lengi ásamt verit áðr drottning fœddi sveinbarn, ok er hann Vilhjálmr nefndr. Hann var snemma bráðgjörr. Þau áttu 7 sonu: annarr hèt Karl, 3. Lais, 4. Konstantínus, 5. Roðulgeirr, 6. Rögnvaldr, 7. Mágus, ok lifði hann skamma stund, ok koma þeir lítt við þessa sögu. En áðr drottning fœddi fyrsta son sinn, dreymdi hana, at hún svaf í knjám konungi, at hún þóttist eiga laukagarð ok voru í 7 epli, ok át hún öll, ok þar var brunnr í garðinum. Gaf konungr henni at drekka af. Litlu síðar þóttu henni hrjóta 7 eldibrandar af munni sèr mjök fölvir, ok komu niðr á sitt erfðaland hverr þeirra, ok tendruðust þar, en hinn sjöndi fló so langt, at hún þóttist ei vita er hann kom niðr, ok við þat grèt hún, því at hún hafði mikla ást á eldibröndunum. Vaknar hún í þessu, ok sagði konungi. Konungr bað hana þegja, ok hugsar hvat fyrir hana hafði borit. Hún spurði hversu hann rèði drauminn. Konungr mælti: þar sem 7 logbrandar voru eptir eplaneytinguna ok drykk þann sem ek gaf þèr, þar muntu eiga 7 sonu, ok munu 6 af þeim dreifast um okkur ættlönd, ok mun þar vaxa þeirra ríki, en hinn 7., er þèr þótti beztr, hann fló svo hátt, attú hræddist hvárt hann mundi nokkut kvikna, þar mun einn okkarr son fara á fjarlæg lönd, ok mun lengi mjök yðar þurfa. Nú vaxa allir konungssynir upp. Vilhjálmr var ódæll; fór í hernað ok eyddi fè öllu því, er faðir hans fèkk honum. Nú sem Geirarðr sèr, at ei má svá standa, fær hann sèr skip ok siglir til Grikklands, ok gengr þar á mála ok allir hans menn. Verðr hann nú auðigr at gulli ok silfri, so at aldri varð hann auðgari, og siglir nú heim til Frakklands. En Vilhjálmr er enn svo ódæll,

at hann eyðir öllu góðsi föður síns. Bæði er hann mikill ok sterkr ok manna fríðastr. Drottning mælti við konung: hvat skal nú til ráðs taka, því at Vilhjálmr sonr okkarr hefir eytt öllu okkru lausafè. Er þèr nú þat ráð at sigla til Grikklands, ok láta Vilhjálm fara með, því at vera má at honum verði þat meira tímaland; hefir svá orðit okkrum ættmönnum. Konungr kvað svo vera skyldu. Sigla þeir nú til Grikklands, ok tekr keisari vel við þeim. Sitja þeir nú þar um vetrinn, ok er Vilhjálmr nú spakr ok kyrr.

77. Kiríalax keisari átti þá drottningu, er Maxentía hèt, ok eina dóttur, er Margareta hèt, allra meyja fríðust ok kunni allar kvennmannslistir. Jafnan var hún í hall feðr síns. Þegar þau Vilhjálmr ok Margrèt sáust fyrsta sinn, felldi hvort hug á annat. Þat var vandi keisara at bjóða til sín öllum beztum mönnum at hvítasunnu. Var þar þá hin bezta veizla. Þat voru þrír hlutir at hann hafði heitstrengt, at ef nokkurr brygði af því boði hans, skyldi öngu firitýna nema lífinu, at þá hinn fyrsti rèttr kœmi fram, at þat skyldi lax vera, at ef nokkurr snèri á diskinum, þá skyldi sá þessu víttr. Þat var annat, at ef nokkurr legði sinn kníf, at heyrði til. Þat þriðja, at ef maðr talaði svá hátt, at heyrði um þvert gólf, en lifa skyldu þeir 7 nætr, ok þrjá hluti skal sá kjósa sèr sem hann vill þessar 7 nætr, en drepa síðan. Nú varast þetta allir, ok hefir svo lengi fram farit. Líðr nú vetrinn. Koma nú vordagar. Lætr konungr búa veizluna ok koma hvítadagar, ok er veizlan fjölmenn. Sitr herra Geirarðr hjá keisara ok þar í hjá Vilhjálmr konungr. Nú kemr inn lax á diski fyrir keisarann ok alla aðra. Vilhjálmr lítr fram á diskinn ok hugsar fyrir sèr, hvat skaða muni, þó hann brjóti boð keisarans, ok vill heldr deyja, enn prófa ei. Tekr nú laxstykkit ok snýr skjótt á diskinum, ok slöngvir knífinum á borðit, svo at skall við, ok mælti hátt:

hví væri menn svo hræddir, at ei þori at tala þat er skemmtan er at, ok skal mèr ei þat verða. Við þetta varð keisarinn hryggr ok svo Geirarðr ok allir aðrir. Voru nú borð upp tekin, en vistin brutt borin. Keisarinn mælti: þat hefir til borit, sem ek mundi sízt kjósa, at Vilhjálmr hefir brotit þetta vort boð, er svo mikit liggr við. Vilhjálmr mælti: ver ei herra ókátr fyri þat, því at ei þikkist ek heldr til dauða vera kjörinn fyrir þat enn einn yðarr. Vil ek láta haldit þat er áðr var mælt. Mun ek kjósa þá þrjá hluti, sem ek vil.

78. Þá mælti Vilhjálmr: þá kýs ek fyrst at vera konungr þessar 7 nætr, nema lengr verði, ok stýra öllu ríkinu ok öllu lausafè. Þar næst kýs ek í dag at festa mèr frú Margretam dóttur þína, ok skal nú brullaup okkat standa í stað. Þriðja kýs ek mèr at ráða ok yfir bjóða alla dóma þessa stund, utan lengr verði. Við þetta varð keisari mjök óglaðr, en varð nú svo at vera sem Vilhjálmr vildi. Klæðist hann nú tignarklæðum ok sezt í hásæti. Lætr hann nú auka veizluna, ok er dómari allra. Sefr hann í hjá frúnni þessar 7 nætr. Ok er þær eru úti, lætr Vilhjálmr stefna þing, ok á þinginu lætr hann skipa svo, at maðr skal sitja milli allra þeirra, er í höllinni hafa verit, en sumum stöðum tveir eðr þrír. Síðan gengr Kiríalax á þingit, Vilhjálmr ok drottningar. Ok svo sem allir sátu ok þögðu, gekk Vilhjálmr firi drottningu Margrètu ok mælti: sáttu mik nokkut snúa laxinum, eðr heyrðir þú mik nokkut kasta knífinum, eðr tala svo hátt at allir heyrðu? Hún svarar: aldri skal þèr verða mein at mínum orðum, en annat átta ek at gjöra, enn hugsa þetta. Vilhjálmr lèt ganga fimm menn með sèr ok lèt halda þeim manni, er næst sat konungi. Hann hafði í hendi sèr einn flein tvíeggjaðan ok oddar á breiðir ok hvassir mjök. Gengr at þeim, sem haldnir voru, ok rèttir fleininn at augunum, ok spurði sèrhvern, hvat hann

sæi til um laxinn, at honum hefði snúit verit, eðr kastat knífi eðr talat hátt. Hverr sagði fyrir sik: þenna hlut sá ek öngvan nè heyrða. Svo gjörði Vilhjálmr við alla þá, sem í hallinni höfðu verit. Engi lèzt þat sèt hafa eðr heyrt. Nú gengr Vilhjálmr fyrir konung Geirarð föður sinn, en hann svarar: hvártki vilda ek sjá þat nè annat, þat sem konungi væri í móti. Nú gengr Vilhjálmr fyrir keisara ok spyrr hann slíks hins sama, en hann lèzt þat ei heyrt hafa nè sèt. Vilhjálmr mælti: því skal ek deyja, er ek hefi öngva hluti til saka gert. Er þat nú dómr minn, at ek skal stýra hèr ríki ok vera hèr konungr; en þèr, herra, skulut vera hèr í landi vel haldnir. En áðr hafði Vilkjámr gefit öllum ríkismönnum gull ok silfr, ok höfðu saman safnat óvígum her, ef Vilhjálmr þyrfti við. Þusti nú þetta fólk fram á þingit, en Kiríalax handsalaði nú Vilhjálmi ríkit, ok er hann nú kórónaðr. Gefr Vilhjálmr nú feðr sínum ágætar gjafir, ok siglir herra Geirarðr heim í Frakkland. Sem hann hafði ríki stýrt lengi sem honum líkaði, gefr hann Konstantínó syni sínum Frakkland, ok eru margar sögur frá hans sonum, þótt þær sè hèr eigi skrifaðar. Geirarðr konungr lifði eigi lengi þaðan frá, er hann hafði gjört ráð firi sonum sínum, en Elinborg settist í stein ok gaf sik guði, en Vilhjálmr stýrir Miklagarði með sœmd, ok tók af alla þá heimsku, er Kiríalax hafði setta, en heldr lög ok landsrètt. En þá er Vilhjálmr hafði konungr verit yfir Miklagarði, kom þar Eiríkr Danakonungr, bróðir Knúts ens helga, ok var þar þrjá vetr, ok þá af konungi hálfa lest gulls ok 14 herskip. Vilhjálmr átti son, er Karl hèt, ok dóttur er Konstantía hèt.[1]) Ekki er getit fleiri barna þeirra, en þat er sagt, at þau unnust mikit meðan þau voru ásamt, ok rèð Vilhjálmr lengi firi Miklagarði, ok þótti vitr höfðingi, en ekki kallaði hann til ríkis í Frakklandi, ok endi sína æfi

[1]) hjer endar 536 4to.

í Miklagarði, ok var mörgum harmdauði, ok þótti hann langt bera af Kiríalax, ok var hans at litlu getit síðan hann varð konungr, en brœðr hans stýrðu þeim ríkjum, sem áðr höfðu stýrt þeirra ættmenn, sem var Frakkland, Valland, Saxland ok England, er Geirarðr faðir þeirra átti fyrir öndverðu; en ekki kunnum vèr frásagnir frá þeirra ættmönnum lengri.

79. En svo vísar á í annál, at Karl tók ríki í Saxlandi þá Haraldr hinn hárfagri skipti ríki með sonum sínum, en þá var Stephanus páfi hinn 7. með því nafni. Stýrði Karl 7 ár ok 20 áðr hann var svikinn ok kastaðr inn af Herbertó, ok þrim vetrum[1]) eptir fráfall hans kœmi Úlfljótr með lög til Íslands, ok þá var Eiríkr blóðöx orðinn yfirkonungr brœðra sinna. Þrim vetrum síðar andaðist Haraldr hárfagri. Einum vetri áðr tók Hrafn Hængsson lögsögn á Íslandi. Nú með því at vèr höfum ritat sögu þessa meir til gamans, enn vèr megum því treysta at svo hafi verit mega þat, ok vita vitrir menn, at margir hlutir leikast með sjónhverfingum eða öðrum hlutum, ok vitum vèr með sönnu, at kuklarar eru í öðrum löndum, er þat leika, ok svo sýnist sem þeir höggvi hendr ok fœtr ok leggi sik í gegnum, ok eru jamheilir sem áðr. Ok þó þessi saga þiki ótrúlig þeim sem heyra, má þat vel til bera, at Mágus hafi eigi minna kunnat í niðromantía[2]), enn þeir sem nú leika slíkar sjónhverfingar, þó fáfróðir menn kunni öngvar, ok þarf ei slíkar frásagnir lygi at kalla; en heyri þeir, er skemmtan þikkir, en þeir leiti sèr annarrar gleði, er ei vilja heyra. Er þat satt, sem mælti er, at: „þat er öðrum skemmtan, er öðrum er angr," ok svo sem skilr ásjón manna, at vorr er engi öðrum líkr, svo hit sama skilr lunderni ok ástundan, at þat girnist annarr, er öðrum er leitt. Má því ei frá-

[1]) Þannig D; þrim nóttum, C; fjórum nóttum A, B. [2]) ɔ: nigrómantía, ðr = gr, = fjölkynngi.

sagnir saman setja eptir allra manna hugþokka, því þat talar margr, at þat sè öngrar frásagnarvert, en þat liggr eptir, er því máli heyrir, er sagt er, ok kemr þat jafnan til, at þat hefir jafnan annarr heyrt, er annarr hefir ekki, ok verða því jafnan frásagnir tvímæltar, at hverr, þat er hann hefir heyrt eða sèt, segir; en þótt frásagnir sèu jafnáræðiligar til líkinda, þó allar beri saman, þeim er heyra, ef hann vill fullt nafn á gefa, at þat sè lygi eða hègómi, utan hann viti annat sannara, svo hann megi þat útenda með meira sannleik, því at mart hefir við borit í heiminum, at trautt má ófróðr maðr dylja, at orðit hafi, því at vitrir menn ok spakir finna til flestra hluta dœmi. Nú þó at vèr finnim ei, at þessarri sögu beri saman við aðrar sögur, þær er menn hafa til frásagnar, þá má þat til bera, at ófróðir menn hafa í fyrstu slíkar eðr aðrar frásagnir saman sett, ok skilr því mest á um frásagnir, at þeir sem rita eðr segja þær sögur, er þeim þikkir skammt um talat, er orðfœrir eru, þá auka þeir með mörgum orðum, svo at þeim sem skilja kunna þikkir með fögrum orðum fram bornar, sem áðr voru sagðar með ónýtum orðum, ok má þá gjörr skilja, at svo segja sumir frœðimenn, at Mágus jarl væri kominn at[1]) langfeðgatölu af syni Óðins þeim er Narfi eða Nari hèt, ok hann hafi verit skammt þaðan, ok því er mikil líkendi, ef hann hefir verit þessarrar ættar, at hann hafi mikit kunnat í niðrómantía, því at Æsir plöguðu þá íþrótt framast, er kukl ok sjónhverfingar er kallat, ok fluttu þeir fyrstir þá list hingat á Norðrlönd austan úr Asíaveldi. Af því voru þeir mest lofaðir, at margir trúðu, at Óðinn rèði skini sólar ok dögg himins, þá er hann gjörði slíka hluti með vèl ok kukli, ok var ekki utan hègómi. Síðan dreifðist þeirra kunnátta. Ok er þat frásögn flestra manna, at Mágus

[1]) af, A, B, C.

jarl muni mjök hafa numit þetta fræði. En þótt ófróðir kalli lygi þær sögur, sem nú segjast með lengra máli, enn nú hafi þeir heyrðar, þá birta þeir sína óvizku; því þat gjöra spakir menn, at þeir vilja heyra þær frásagnir, sem þeim þikki kátligar til gamans, svo sem er Þiðreks saga, Flóvenz saga eðr aðrar riddarasögur, þær sem nú mætti mest ýki kallast, at því síðr mundu þeir vinna þau þrekvirki, sem slíkir eðr aðrir þvílíkir frægðarmenn gjörðu með stórum höggum ok sterkum atreiðum, at þeir mundu nú varla hug til hafa at sjá upp á. En hver sannindi er þessu máli fylgja eðr öðrum hégómasögum, láti guð oss ei gjalda. Sá hinn sami guðs son gleði oss alla! Lýkr hèr nú Mágus sögu.

## Nafnaregistur.

## Prentvillur.

bls. $7^{22}$: förneyti f. föruneyti.
- $24^{21}$: nt f. út
- $33^{2}$: þærlss on f. þrælsson.
- $35^{10}$: menn f. minn.
- $35^{22}$: ótti f. þótti.
- $36^{16}$: góðjarn f. góðgjarn.
- $36^{24}$: skalplyndi f. skaplyndi
- $38^{21}$: foruneyti f. föruneyti.
- $40^{15}$: íþrott f. íþrótt.
- $41^{14}$: Buslaraborger f. Buslaraborgar
- $42^{3}$: les: úr helju heimtr.
- $42^{25}$: . f. ;
- $43^{23}$: orðrum f. orðum
- $44^{15}$: gek f. gekk.
- $48^{14}$: fáru f. fóru.
- $49^{20}$: vor f. vorr.
- $50^{30}$: ælti f. ætli.
- $57^{13}$: nun f. mun.
- $90^{27}$: œksu f œsku.
- $91^{10}$: og f. ok.
- $92^{12}$: hefði f hefði eigi.
- $95^{25}$: Nu f. Nú.
- $96^{19}$: semmtan f. skemmtan.
- $97^{18}$: ok f. ek
- $121^{3}$: Röngvaldr f. Rögnvaldr.
- $138^{12}$: skultu f. skaltu.
- $144^{14}$: Bröðmóðr f. Böðmóðr.
- $146^{19}$: Mágas f. Mágus.

Enn fremur ber þess að geta, að f. blaðsíðutöluna 53 og 54 á að standa 52 og 53.

